Isl Boothby, G.N.
PZ
3 Ólíkir erfingjar
.B647
Ó4

35. cts

BÓKASAFN „LÖGBERGS“

# Ólíkir erfingjar

eftir

GUY BOOTHBY

Arnljótur B. Olsen




Prentsmiðja Lögbergs 1910

Arnljotur B. Olson

# I. KAPITULI.

Mér er til efs að þú hefðir, lesari góður, getað bent á fallegri eða skrautlegri lystisnekkju, en *Love in Idleness* var, þó að þú hefðir leitað í öllum skipum, sem flutu á Thamesfljóti, milli Iffley Lock og Richmond Bridge í það mund, er þessi saga hefst. Hver sem hugði að lystisnekkju þessari, hlaut að játa, að hún var frábærlega fagurt skip og einkar týsilegt væri að eiga farkost á því skipi stuttar skemtiferðir. Allur útbúnaður á snekkjunni var svo vandaður sem mannlegu hyggjuviti var framast auðið. Þá urðu og allir sem til þektu, að játa það, að ekki var vol á ljúfmannlegri húsfreyju heldur en fögru konunni, henni Mrs. Dartrell. Hún átti lystisnekkjuna, sem hér var á minst. Ekkert dró það úr vinsældum þessarar konu þó að gestir hennar á lystisnekkjunni vissu engin deili á manni hennar. Að vísu höfðu ýmsar sögur heyrst, sem ekki voru Mr. Dartrell til neinnar sæmdar, ef þær voru sannar; en ef þær voru ósannar þá var ekki hægt að segja annað, en að þær væru rangsleitnisleg árás á dauðan manninn. Það eitt var víst, að hann hafði átt miklar gnægtir jarðneskra gæða. Ekkju hans mátti sjá hvervetna. "Hvervetna" er ef til vill helzt til takmarkalítið hugtak, svo að réttast er

geta þess, að með því á eg við öll helztu leikhúsin, útsölustaðina og skemtistaðina. Við allar veðreiðar utan borgarinnar bar mikið á henni, þessari fögru og íturvöxnu konu, og ekki var hægra að öðlast farkost á lystisnekkju hennar heldur en vera boðinn til miðdegisverðar eða gistingar í Windsor-höllinni. Fyrir utan lystisnekkjuna, sem þegar hefir verið minst, átti Mrs. Dartrell mjög sjálegt hús á Brook stræti í Mayfair, sumarhýsi í grend við Box Hill og síðast en ekki sízt mátti telja lystigarð, allskam frá sjó, svo sem tveggja stunda eimlestarferð frá Lundúnum.

Skrautlega *sevres*-klukkan, á arinhyllunni í gestasalnum á lystisnekkjunni, hafði nýskeð slegið tólf um miðnætti þegar Mrs. Dartrell stóð upp frá spilaborðinu, sem hún hafði setið við. Hún hafði verið að spila *bridge* við Mrs. Bennet, stallsystur sína, tígulega konu, um fimtugt, Sir George Welbrooke, nýkominn úr tveggja ára rannsóknarferð frá Victoria Nianza og Gerald Stukeley, úr sendiherra liðinu, lítinn mann, snarborlegan, en öldungis ómissandi , hópi boðsgesta Mrs. Dartrell. Húsfreyjan litaðist um í salnum, og festi fyrst augu á ungri stúlku einkar fríðri, er hún sjálf nefndi "frænku" í vináttu skyni. Þessi unga stúlka var fyrir skömmu komin til Englands, vestan frá Bandaríkjum og var hún nú að fræða Forster yngri Featherstone, einn lífvarðarmanna, á þeirri ...-breytilegu skemtun Ameríkumanna, sem venjulega er nefnd *squish-squash*. En lengst horfði hún samt á tvo menn, sem voru að spila *piquet* við borð, sem stóð enn fjær í salnum.

Annar þeirra manna sat fast úti í horninu og féll birtan frá lampanum beint framan í hann. Þessi maður var Devereux ofursti, sem mörgum var kunnur og um hann voru til jafnmargar sögur eins og dagarnir eru í árinu. Heita mátti, að allir þektu hann; hann var í margskonar klúbbum, og sótti allskonar félagsskap, bæði góðan og vondan, eða að minsta kosti beggjablans. Hann var góðum hæfileikum búinn, var nafnkunnur leikari, hafði ágæta söngrödd, og var svo leikinn í ýmsum loddaralistum, að þaulæfðir trúðar stóðu honum ekki á sporði. En fáir voru þeir sem hefðu fýst að eiga mikið undir ofurstanum, en þó mundu þeir hafa átt bágt með að segja hversvegna þeir vantreystu honum.

Nafn félaga hans, eða mótspilara hans var að finna í Debrett skýrslunum. Hann hét Reginald Fitzwilliam Sandridge, einkasonur Malcolm Sandridge frá Brathborn Hall, í Ruthlandshire héraði, sem þá var látinn. Í fyrnefndum skýrslum var ennfremur skýrt frá því, að hann væri frændi og erfingi Weldsham greifans, hins sjöunda í röðinni. Hann var hár vexti, fríður sýnum á að gizka 28 ára gamall. Hann var gleðimaður mikill, og var sýnt um að beita þeim hæfileikum, sem hann hafði öðlast. Hann átti því láni að fagna að vera mjög rólegur að skapferli, svo að til þess var tekið og að orðtaki haft af kunningjum hans, "að vera eins rólegur og geðgóður eins og Reggie Sandridge." Aldrei skifti hann sinni; hann var síkátur og glaður; hann var gefinn fyrir allskonar skemtanir alt frá dýraveiðum til veðreiða; hverjum

manni var hann fimari í öllum íþróttum og bezta skytta, sem byssu hefir borið að vanga í Hurlingham eða Monte Carlo.

Mrs. Dartrell hikaði ofurlítið við; því næst gekk hún yfir gólfið og að borðinu, sem þessir menn sátu við.

"Heyrið þið, herrar mínir," sagði hún, "vitið þið að sunnudagur er á morgun? Eg held að við séum búin að spila helzt til lengi í kveld."

"Vera má að þér hafið rétt að mæla," sagði Reggie og reis á fætur um leið. "Þér verðið að gefa mér kost á að hefna mín seinna, Devereux." En er húsfreyja var komin yfir að næsta spilaborði, bætti hann við: "Bíðum við, þá skulda eg yður fimtán hundruð, er ekki svo?"

"Eitthvað nálægt því," sagði ofurstinn kæruleysislega, eins og honum stæði upphæð þessi á engu. "Þér sátuð í mikilli óhepni kveld. Eg man varla til að eg hafi séð mann fá verri spil."

Ekki ettur mér í hug að hallmæla spilamensku ofurstans, en eg get ekki stilt mig um að drepa á það, að kynlegt virtits hversu oft honum höfðu farist orð á þessa leið við mótspilendur sína. Því næst gekk ofurstinn yfir að snotru, spónlögðu drykkjuborði, og skenkti sér *whiskey* og vatn með þeim ánægjusvip, er er á mönnum, þegar þeim finst hamingjan hafa verið sér hagstæð. Reggie hafði farið á eftir húsfreyju að dyrunum sem vissu að skuti skipsins. Hann dró dyratjöldin frá og gekk með henni fram í fordyrið. Það an lá stutt rið upp á þilfarið. Litlu síðar voru þau

bæði sezt á þægilega stóla við hástokkinn. Kveldið var yndislega fagurt, blitt og boðandi sumarið, og tungl rétt að kalla í fyllingu. Þunn móða teygði sig yfir mýrarnar meðfram ánni og fól sjónum skóga og fjarlægar hæðir. Hljóðfærasláttur heyrðist í fjarska frá annari snekkju á ánni. Annars rauf ekkert þögnina nema raddir gesta Mrs. Dartrells niðri í káetunni, og dúnmjúkt bárublakið við kynnunga snekkjunnar.

Reggie hafði þekt Mrs. Dartrell æðilengi, mælt á þann mælikvarða sem vér teljum tímalengdir á voru flughraða æfiskeiði, þar sem maður getur átt sér hjartfólginn vin vikutíma, en ári seinna kann sá vinur að hvíla öllum gleymdur undir grænni torfu suður í Súdan eða í einhverju rjóðri frumskóganna í Ástralíu. En konan, sem fyr var nefnd, hafði, einhverra hluta vegna, sem henni voru kunnugastar, sýnt Reggie margskonar vináttumerki. Og satt að segja voru flestar konur fúsar til þess. Því verður ekki heldur neitað, að hann dáðist að henni. Svo mátti og segja um marga fleiri, en það atvikaðist einhvern veginn svo, að þar við sat hjá þeim.

"Eg er hrædd um, að þér hafið tapað aftur stórfé í kveld," sagði hún með nærri móðurlegri umhyggjusemi, þegar þau höfðu setið kyr stundarkorn.

"Já, eg hefi verið mjög óheppinn í kveld, og eg hefi verið það lengst af nú upp á síðkastið," svaraði ungi maðurinn. "En það skiftir nú reyndar litlu," bætti hann við með sínu óhagganlega jafnaðargeði, "eg vona að rakni fram úr því öllu á endanum."

Hún histi höfuðið.

"Þér eruð óttalega ógætinn," sagði hún. "Mér er ómögulegt að skilja í því, hvernig á því stendur, að karlmenn skuli vera jafnsólgnir í að spila fjárhættuspil eins og þeir eru."

Ekki minti Reggie hana á það, að hann hafði séð hana spila fjárhættuspil sjálfa, þó að honum hefði verið það innan handar, og ekki drap hann heldur á það, að hún hefði stungið upp á að spilað væri þá um kveldið, því að það hafði hún gert. Það er oft viturlegra að láta satt kyrt liggja. Í stað þess að svara nokkru tók Reggie upp vindlinga-veski, sem Mrs. Dartrell hafði gefið honum, opnaði það og rétti henni. Hún tók einn fallegasta *mclachrinos* vindlinginn, sem í því var og kveikti í honum með eldspýtu, sem han nrétti henni. Reggie fanst það svo sem sjálfsagt, að Mrs. Dartrell reykti — en hefði samt átt bágt með að hugsa sér Dorothy Maddison frænku sína, forkunnarfagra stúlku, sem átti heima í heimkynni ættarinnar í Weldersham, sitja með vindling milli rósrauðra varanna.

"En hvað hér er yndislegt, fjarri skarkalanum og svækjunni í Lundúnum," sagði Mrs. Dartrell eftir ofurlitla þögn. "Straumlaus áin, þytur vindsins í trjánum og draugalegur þokuslæðingurinn á mýrnum fyrir neðan — minnir mig ætíð á þetta erindi Tennyson's—

"Álmur hvítnar, öspin titrar,
Í andvaranum flóðið svellur
Þar sem eilíf elfur sitrar

Með eyjarströnd og niðþung fellur
Kaldstreym út til Kamelot!"

Eg ætla að setja svo, lesari góður, að þú sért karlmaður, en ekki er mér þó auðið að segja um það hvort nokkurn tíma hefir verið eins ástatt fyrir þér eins og fyrir Reggie Sandridge. Ef svo hefir verið þá munt þú geta áttað þig á hættu þeirri, sem hann var kominn í. Og ef þig hefir aldrei þvílíkt hent, þá vildi eg vara þig við því að stofna þér í slíkan háska. Fögur kona, vitnandi í Tennyson undir sóltjaldi út á þilfari lystisnekkju um hádegisbil, er að vísu hættuleg viðskiftis. En þó er hún snögt um hættulegri að kveldlagi í tunglsljósi, þegar alt er kyrt og rótt, ekkert forvitið stórbæjafólk að glápa á mann, engir róðrarbátar oð hrífa eftirtekt manns, og enginn framhleypinn kunningi að troða upp á mann návist sinni, einmitt þegar allra verst gegnir.

" Blessuð gamla áin! En hvað mér þykir vænt um hana!" sagði Mrs. Dartrell loksins, og stóð upp, gekk út að hásokknum, hallaði sér fram á hann og horfði ofan í vatnið. "Dæmalaust óhapp er það, að geta ekki lifað svona alla æfi sína."

"Stöðugt tunglsljós, skrautbúnar skykkjur, *melachrinos*-vindlingar o. s.f rv. — það eru glæsilegar framtíðarhorfur, er ekki svo?" svaraði Reggie.

"Þér eruð svo dæmalaust andlaus og óskáldlegur," sagði hún hlæjandi. "Eg hefi alt af ímyndað mér, að þér ættuð ekki til nokkurn snefil af viðkvæmni."

"Ekki skuluð þér vera of fullviss um það," svar-

aði hann. "Þér getið ekki um það borið, og eg gæt verið allra manna viðkvæmastur án þes að þér vissuð um það, eftir viðkynningu okkar."

"Því er nú miður, að eg er hrædd um eg fari nærri um þetta," svaraði hún og hristi höfuðið. "Ungir menn nú á dögum eru of kærulausir til þess að viðkvæmni geti búið í brjóstum þeirra. Eg er hrædd um að sjálfselskan sé að verða höfuðsynd nútíðarmanna. Má eg segja yður ofurlítið til syndanna? Eg ætla þá að byrja á því, að þér dansið ekki, og jafnaðarlegast viljið þér ekki vera í félagsksap yður eldri manna. Það má svo heita, að þér eigið ekkert heimili. Þér snæðið miðdegisverð á matsöluhúsum, klúbbum og þaðan af verri stöðum. Mér þætti sennilegast að þér giftust einhverri dansmey eða leikmey — en ef svo yrði ekki, þá munuð þér hugsa til hjónabandsins svipað því, sem menn hugsa til ískyggilegs uppskurðar, sem einhverntíma hljóti að koma fyrir mann, en sjálfsagt sé að fresta eins lengi og mögulegt sé!"

"Þetta er ljóti lesturinn! Aldrei hefi eg heyrt yður tala svona fyrri. Þér eruð í meira lagi beiskorð," sagði Reggie.

"Eg er í óvanalega slæmu skapi í kvöld," svaraði hún og bætti við á eftir — "mér finst nærri því eins og eg ekki vera með sjálfri mér."

Þessi ofanígjöf var dæmalaust skemtileg, en því miður hafa skemtanirnar stundum ógæfu í för með sér. Ef þér hefðuð staðist freistinguna—"

Hrollur fór um hana og hún greip skyndilega fram í fyrir honum og sagði:

"Blessaðir verið þér ekki að gera að gamni yðar; mér er ómögulegt að þola það í kveld."

"Kæra Mrs. Dartrell," svaraði Reggie blíðlega, "mér þykir mjög fyrir því að heyra að þér séuð hrygg og óánægð. Get eg hjálpað yður á einhvern hátt? Yður er vel kunnugt um að eg er allra manna fúsastur til þess."

Grátstafur kom í kverkarnar á henni og hún huldi andlitið í höndum sér. Það leið stundarkorn áður en hún svaraði honum.

"Eg veit það vel, að þér munduð hjálpa mér, ef þér gætuð," sagði hún blíðlega þegar hún tók til máls. "*Þér* hafið alt af verið mér góður."

Reggie gat ekki komið því fyrir sig í svipinn, að hann hefði nogkurn tíma sýnt henni neina sérlega góðvild. Hann hafði samt ekki orð á því, að því að hann sá glögt, að hún þurfti á samúð að halda, og hana var hann fús á að láta í té í ríkulegum mæli.

"Þér megið ekki láta harmana yfirbuga yður," sagði hann. "Viljið þér ekki segja mér hvað hugstríði yðar veldur, svo að eg geti reynt að gera yður sorgarbyrðina léttbærari?"

En hún tók þvert fyrir það, að gera hann að trúnaðarmanni sínum. Milli okkar sagt, lesari góður, hefi eg þá skoðun, að því að eins hafi hún þagað, að hún hafði frá engu að skýra. Hitt er annað mál, hvort þú felst á þá tilgátu þegar þú hefir lesið alt það,

sem eg ætla nú að fara að skýra frá.

Þau voru alt að því klukkutíma uppi á þilfari, eftir þetta. Öðru hvoru var hún að minnast á harma sína og einstæðingsskap, en hann gerði alt, sem hann gat til að hugga hana. Ekki get eg um það sagt hvað til þess bar, að hinir boðsgestirnir ónáðuðu þau ekki. Við getum að eins látið okkur nægja það, að þeir komu ekki.

Þegar þau komu inn í gestasalinn sáu þau að glaðvær hópur hafði þyrpst saman utan um ofurstann, sem skemti eins óviðjafnanlega vel, sem hann var vanur. Eftir fjórðung stundar 'bauð hver öðrum góða nótt og var svo gengið til rekkju. Reggie varð síðastur til að taka í hönd Mrs. Dartrell og bjóða henni góðar nætur. Hún tók þétt í hönd hans og þegar hann leit framan í hana, sá hann að augu hennar voru full af tárum.

"Góða nótt," sagði hún blíðlega, "og þakka yður fyrir hvað þér hafið verið mér góður."

Svefnklefar karlmannanna voru allir í öðrum enda skipsins en svefnklefar kvenfólksins, gestasalurinn og borðsalurinn í hinum endanum.

Þegar Reggie kom inn í herbergi sitt, og var kominn úr frakka og vesti, settist hann niður á rúmstokkinn og fór að hugsa um það sem fyrir hafði komið um kveldið. Honum var það fullljóst, að um nokkurn tíma undanfarið — frá því að hann og Mrs. Dartrell höfðu dvalið í Pollington Hall — hafði hann sýnt þessari glæsilegu ekkju meiri athygli en hyggi-

legt hafði verið. Hann hafði óljósan grun um það, að þessari fögru konu mundi ekki óljúft að eignast lávarð í annað sinn, ef þess væri kostur. Vinir hans höfðu líka margsinnis gefið honum það í skyn. Oftar en einu sinni hafði hann fullvissað sjálfan sig um það, að hann elskaði hana ekki, og öll sú velvild, sem hann bæri til hennar væri algerlega fýsnalauss eðlis. En þegar hann hugleiddi samtal þeirra þá um kveldið, þá stóð honum glögt fyrir hugskotssjónum hrygðarsvipurinn á fallega andlitinu á henni, vaxtarlagið granna og tígulega, mjallahvíti hálsinn og handleggirnir og hann gat ekki um annað hugsað. Þegar hann sofnaði dreymdi hann að hún hefði fleygt sér í ána og hann druknaði við að bjarga henni..

Og honum virtist eins og hann sjá sitt eigið lík niðri í fúnaðri jurtaflækjunni, alt uppblásið, og var það ekkert skemtileg sjón.

"Mér er illa við svona drauma," sagði hann þegar hann vaknaði, " þeir eru hálf ískyggilegir."

Þegar hann kom inn í borðsalinn morguninn eftir bjóst hann við að sjá húsfreyjuna jafn sorgbitna eins og hún hafði verið kveldið fyrir. Honum brá því í brún að sjá hana glaða og káta. Engin hrygðarmerki mátti nú á henni sjá. Karlmennirnir eyddu fyrri hluta dagsins undir sóltjaldi á þilfarinu í iðjuleysi allsnægtanna. En kvenfólkið hafði stigið í bát og farið til kirkju, af þekkri guðræknisþörf. Síðari hluta dagsins komu þær aftur og sigldu ofan eftir ánni á litlum vélarbáti, fram hjá Regatta Island, fram

hjá Hurley, Medmenham og komu þó aftur til lystisnekkjunnar fyrir kveldverðartíma; var þá margt gesta fyrir eins og venja var öll sunnudagskveld.

Eftir mínu viti gengur fögur kona manni aldrei meir í augu en þegar hún er að skenkja te. Það er einhvers konar unaðsblær yfir þessu sann-kvenlega starfi, sem mér er ómögulegt að lýsa, og það er enginn skáldskapur þó að eg segi, að mér hafi jafnvel fundist hrikaleg skíðhöggvara kona kvenleg, þegar hún var að skenkja teið, og er þá mikið sagt. Menn geta því ímyndað sér hversu sjáleg Mrs. Dartrell var ásýndum er hún var að þessu starfi, í hvítu pilsi og í híalínsþunnri blússu með fornt einkennilegt silfurbelti um sig, sem Reggie hafði gefið henni. Við hann var hún feimnislega alúðleg. Honum var ekki auðið að lesa skap hennar og tók þessu með hugþekkri kurteisi. Honum var algerlega ókunnugt um það, að aldrei hafði honum verið hættara en einmitt nú, og hann mundi ekki hafa trúað því þó að einhver hefði bent honum á það, og þó átti hættan eftir að aukast síðar.

Bryti Mrs. Dartrell hét Hyplyte. Hann var viðkunnur, því að hann hafði lengi starfað við Café Luxembourg. Þegar miðdegisverðinum var lokið fóru gestirnir upp á þilfarið. Mrs. Dartrell hafði kvartað um höfuðverk, og var stungið upp á því að henni mundi skána ef róið væri með hana kippkorn eftir ánni. Fyrst var viðbúið að frænkan frá Bandaríkjunum færi með henni, en hætti þó við þegar á átti að herða. Eldri karlmennirnir kunnu allir vel við sig þar sem þeir voru komnir, svo að það varð hlutskifti

Reggie að fara þetta með Mrs. Dartrell. Hann skrapp ofan í káetu sína til að hafa fataskifti, og þegar hann kom aftur fann hann Mrs. Dartrell ferðbúna. Þau stigu í bát og Reggie fór að damla í hægðum sínum up peftir ánni. Veðrið var hið bezta um kveldið og einkar hentugt til að róa um Thames fljótið sér til skemtunar. Mrs. Dartrell stýrði fyrst ótilkvödd æði kipp, en svo þreyttist hún brátt á því og fleygði frá sér stýristaumunum.

"En hvað þetta er gaman," sagði hún loksins, "en reglulegu áratogin yðar gera mig syfjaða. Eigum við að leggja að landi og spjalla saman stundarkorn?"

Reggie félst á það, og rendi bátnum rétt á eftir inn í vík sem var í sefið við annan árbakkann, og þaut þá upp mikill fjöldi vatnsfugla, með miklu argi því að þeim þótti sér óskundi ger með þessu ferðalagi.

"Og að hugsa sér, að á morgun skulum við aftur verða komin í Lundúnasvækjuna," sagði Mrs. Dartrell og stundi við, þegar þau voru búin að festa bátinn. "Mér stendur húsið í Brookstræti svo glögt fyrir hugskotssjónum, og get getið mér svo dæmalaust vel nærri hvað stygglynd eg verð við alla."

"Eg trúi því tæpast, að þér getið átt það til að vera stygglynd við alla," sagði Reggie kurteislega um leið og hann valdi sér vindling og kveikti í honum.

"Ef yður hefir ekki getað komið það til hugar, þá er það ljós vottur um það, að þér þekkið mig ekki," svaraði hún, hallaði sér áfram og spenti greipar um hné sér. "Eg er dæmalaust dutlungafull, og skapferli mitt er að miklu leyti komið undir því, hvernig það

fólk er, sem eg umgengst. Ef það er vingjarnlegt, þá er eg vingjarnleg við það, en ef við komum okkur ekki algerlega saman — þér vitið hvað eg á við — þá verða skapsmunirnir fram úr öllu lagi leiðinlegir."

"Af því að þér hafið alt af verið sérlega vingjarnleg við mig, þá býst eg við að eg megi telja mig í hópi fyrnefndu mannanna," svaraði Reggie hlæjandi.

"Þér hafið alt af verið mér góður," sagði hún og stundi við. "Eg vildi óska að allir væru eins og þér. Eg veit ekki hvort yður hefir nokkurn tíma komið það til hugar, að sú kona á í harðri baráttu að berjast, sem stendur ein síns liðs í heiminum, og sú barátta verður enn harðari, ef svo vill til að guð hefir gefið henni fríðleik, þó ekki væri meir en í meðallagi."

"Eg er viss um, að þér látið ekki bæjarstríðið raska ró yðar," sagði Reggie, en sá strax að hann hafði hlaupið á sig.

"O!" svaraði hún með þeirri glöggsýni sem konum er eiginleg, "þér hafið þá líka heyrt eitthvað af ljótu sögunum, sem óvinir mínir eru að breiða út um mig." Síðan hallaði hún sér enn lengra áfram, lagði höndina á hnéð á honum og leit alvarlega framan í hann og sagði: "Og trúið þér nú þessum sögum, Mr. Sandridge?"

"Nei, það segi eg satt, að eg geri ekki!" svaraði hann. "Eg væri auma rolan, ef eg tryði því sem fólk segir og héldi samt áfram að sýna yður vináttumerki."

"Þakka yður fyrir," sagði hún. "Þér eruð tryggur í lund og eg hefi mikið traust á vináttu yðar."

"Eg vona, að þér ættuð að fá betri raun á henni

síðar," sagði hann. "Eg vildi óska, að eg brygðist ekki trausti yðar."

Nú varð löng þögn; hún sat kyr og hugsandi og var að slita upp sefið við bátshliðina. Hann horfði á hana og dáðist a ð henni, að hálsi hennar, sem hún beygði fagurlega og fríðri hendinni, sem hún studdi á kné honum.

"Jæja, við skulum sleppa raunum mínum í kveld," sagði hún loksins. "Það er ekki ósnoturt af mér að vera að ónáða yður með þeim, gest minn. Við skulum tala um eitthvað annað. Segið mér eitthvað frá hestinum yðar. Haldið þér ekki, að hann vinni fyrstu verðlaun í veðreiðunum í ár?"

"Eg geri mér góðar vonir um það," svaraði hann. "Þegar eg fékk síðast skeyti frá Bateson, þá var hann í bezta standi."

"Eg vona, að þér vinnið. Það verður dæmalaust gaman. Þér verðið þá í meira lagi upp með yður."

"Ekki veit eg það. Eg get að minsta kosti lofað mönnum að sjá fallegt hlaup fyrir fé sem fram er lagt."

Hún fitlaði ofurlitla stund við sefið áður en hún tók til máls, og þegar hún fór að tala var auðheyrð órósemi í röddinni.

"Stendur yður það ekki á mjög miklu, ef þér tapið?"

Reggie gretti sig ofurlítið og svaraði:

"Jú, það verður ekki allskostar þægilegt fyrir mig, eg hefi veðjað á hann stórfé."

Hann slepti því að segja henni, að hann mundi

verða því nær öreigi, ef hestinum mistækist hlaupið. Það var þarflaust fyrir hann að segja henni frá því, og reynslan hafði kent honum að það er sjaldan hyggilegt að leggja sitt eigið böl á bak vina sinna.

Hún hætti nú að fitla við sefið og þerði af höndunum á sér með þunnum kniplingakögruðum vasaklút, sem daufur ilmur barst af yfir til Reggie.

"Eg er að hugsa um það, Mr. Sandridge, hvort þér munduð vilja gera mér mikinn greiða, ef eg bæði yður um það?" sagði hún með hægð.

"Eg býst við, að það muni vera ókurteislegt að spyrja fyrst hver sá greiði sé," svaraði hann. "En eg get sagt yður að eg mundi vera fús til að gera flest, sem yður kynni að detta í hug að biðja mig um. Hvað er það?"

"Mig langar til að biðja yður, ef svo færi að Knight of Malta ynni ekki verðlaunin, að reynast mér sá vinur að koma til mín og lofa mér að rétta yður hjálparhönd. Mér væri það ósegjanleg ánægja, ef þér vilduð gera það."

"Þetta er vel boðið," svaraði hann, "og eg er yður mjög þakklátur fyrir góðsemi yðar; en þó að hesti mínum mistakist, vonast eg til að þurfa ekki á hjálp að halda."

"Eruð þér reiður við mig?" spurði hún innilega. "Kvenfólk veit aldrei hvort það gerir rétt eða rangt í þessum efnum. En mig langaði svo til að sýna yður jafneinlæga vinsemd eins og þér hafið sýnt mér."

"Það hafið þér líka gert, tvímælalaust," svaraði hann, "og þó að eg noti mér ekki hið göfugmannlega

boð yðar, þá skal eg ávalt minnast þess, hvað það var vingjarnlegt."

Þrátt fyrir þá stöðugu velgegni, sem hann hafði átt við að búa, komst hann nú við. Hvaða heimild höfðu menn til að tala illa um konu, sem sýndi annað eins trygglyndi eins og þessi kona sýndi? Aldrei framar ætlaði hann að líða neinum að segja nokkurt áfellisorð um hana í sín eyru. Ef svo kynni að bera undir, ætlaði hann að taka svari hennar, hvað sem hver segði. Það var að færast í hann einhver hægur en kynlegur ákafi.

"Hamingjan góða!" sagði hún loks og leit á úrið sitt. "Vitið þér að klukkan er orðin nærri hálf ellefu? Hvað haldið þér að fólkið husgi um mig, að láta það ekki sjá mig svona lengi!"

"Kannske það sé réttast fyrir okkur að fara að halda heimleiðis," sagði Reggie ólundarlega. "Það er annars einstaklega fallegt hér úti!"

"Eg hefi líka skemt mér einstaklega vel, en maður má ekki gleyma gestum sínum."

Reggie langaði til að segja sitthvað um gestina, því að hann vissi að þeir sketmu sér vel, en hann hætti við það. Eftir ósk hennar leysti hann bátinn og ýtti frá og fór að róa hægt heim á leið til lystisnekkjunnar. Mrs. Dartrell var þögul og það var einhvern veginn svo að Reggie langaði heldur ekki til að tala neitt. Loks komust þau til ákvörðunarstaðarins. Ljós logaði í gestasalnum, og hávaðinn sem þaðan heyrðist uppi á þilfarinu bar ljósan vott um það, að gestirnir

skemtu sér vel úti í kveldsvalanum. Þau lögðust að hlið snekkjunnar og Reggie batt bátinn. Síðan hjálpaði hann henni upp á skipið og beið svo til að vita hvað hún vildi næst vera láta.

"Þér eigið skilið að fá launað ómakið," sagði hún brosandi; "komið þér nú með mér, eg ætla að gefa yður kampavín.

Hann fylgdi henni umsvifalaust gegn um gestasalinn og fram í borðsalinn; þar stóð silfurkanna með þessum goðadrykk. Hún helti á staup handa honum og rétti honum með aðdáanlegum unaðsleik. Hún hafði og skenkt sér og þau hringdu nú glösum, og báðu hvort öðru heilla.

Síðan setti hún glas sitt á borðið, lagði höndina á handlegg honum og sagði blíðlega:

"Eg vona að þér gleymið þessu leiðinlega tali mínu við yður í kveld, um það hvað fólk héldi um mig. Eg hefði ekki átt að vera það flón að minnast á það við yður. Það ætti hver að bera raunir sínar sjálfur."

"Mér þykir vænt um að þér skylduð minnast á þetta, því að það gefur mér færi á að gefa yður raun á vináttu minni."

"Við hvað eigið þér?"

"Eg á við það, að eftirleiðis hefi eg hugsað mér að vera talsmaður yðar, og ætla mér að láta hvern þann komast að keyptu, sem jafnvel dirfist að — en eg æt'a ekki að móðga yður með því að geta mér þess til, að menn kunni að tala illa um yður."

"En eg get ekki fengið af mér, að leyfa yður að

taka svari mínu á þann hátt, Mr. Sandridge. Það mundi gera ilt verra, hvað mig snertir, eins og nú er ástatt. Hvað haldið þér að fólk mundi segja?"

"Eg held að bezt mundi fyrir það að segja sem minst," svaraði hann snúðugt. "Þér megið trúa mér til þess að láta það ekki koma að tómum kofunum."

"En eg get ekki leyft yður þetta," svaraði hún. "Hver og einn mundi vilja grafast eftir því, hvaða heimild þér hefðuð til að standa þannig með mér. Sjáið þér það ekki?"

Áður en hann vissi af höfðu gloppast upp úr honum orð, sem miklu skiftu. En nú varð það ekki aftur tekið.

"Viljið þér þá gefa mér heimildina til þess?" hafði hann sagt.

Hún hopaði lítið eitt aftur á bak, þangað til hún kom höndunum á borð, sem stóð á bak við hana, og hallaðist þunglega á það. Reggie sá að mikill óstyrkur var á henni.

"Er yður alvara?" spurði hún lágt svo að líkast var hvísli.

"Já, mér er alvara," svaraði hann.

Þá sté hún fram eitt eða tvö skref og hann greip hana í fang sér. Eg ímynda mér, að Reggie mundi hafa verið ómögulegt að lýsa því sem gerðist næstu fimm mínúturnar. Hann var eins og hálfrutlaður maður, og að því er mér skilst meir rutlaður af þeirri byrði, sem hann hafði tekið sér á herðar með svo mikilli skyndingu, heldur en af því hvað bónorðið hafði gengið æskilega. Rétt á eftir stakk Mrs. Dart-

rell upp á því, að þau skyldu fara upp á þilfarið. Hann félzt á það, og brátt voru þau komin í hóp gestanna, sem sátu undir tjaldinu. Ómögulegt að segja um það, hvort gestina hefir grunað nokkuð um það sem gerst hafði, en sú einkennilega ró, sem var á þeim nýkomnu, hefði þó átt að vera nokkuð greinileg bending um það. Loks leið að háttatíma, og "góðar nætur" voru boðnar eins og vant er. Reggie og Mrs. Dartrell urðu aftur síðust til að bjóða hvort öðru góðar nætur, og voru þá stödd í gestasalnum.

"Eg get ekki trúað því enn þá, Reggie," sagði hún og hélt báðum höndum utan um hönd hans. "Það sýnist nærri því of gott til þess að vera satt. *Bon soir, mon prince dormez bien et rêvez de moi*" (þ. e.: Góða nótt, prinzinn minn, sofðu vel og dreymdu um mig.)

Þegar hann kom inn í svefnklefa sinn settist hann niður, eins og fyrra kveldið og tók að hugsa um hag sinn.

"Hvers vegna hefi eg gert þetta?" sagði hann við sjálfan sig. "Hvers vegna hefi eg gert þetta?"

Og það skildi heldur enginn, en hitt var satt, að þegar hann kom inn í borðsalinn um morguninn þá varð hann þess brátt vísari að leyndarmál hans var orðið heyrinkunnugt. Welbrooke, Afríkufarinn, óskaði honum til hamingju hálfundrandi, Forster Featherstone þreytulega, eins og hann skifti þetta engu, Stukeley litli eins og einhver óvænt hepni hefði komið fyrir og hann öfundaði vin sinn mest allra manna. Devereux ofursti kom með föðurlegar fortölur og

gamansamar hamingjuóskir, og lét þess þó við getið, að hann hefði aldei verið ánægðari á æfi sinni. Eins og menn geta ímyndað sér hafði Reggie þá helzt viljað komast hjá þeirri athöfn. En heitmey hans virtist hafa einstaklega mikla ánægju af þessu, eins og konum er títt.

Þegar morgunverði var lokið dreifðist úr gestahópnum. Stukeley og Forster Feahterstone tóku að gegna störfum sínum; Sir George Weltbroke var umhugað um að komast til borgarinnar til að athuga farangur sinn og halda síðan áfram ferðinni norður á bóginn, og enn fremur hafði Reggie brýnt erindi til höfuðborgarinnar.

Áður en hann fór lofaði hann heitmey sinni að koma á fund hennar í Brookstræti þá um kveldið. Hún kvað hann mega trúa því, að hun teldi mínúturnar þangað til hún sæi hann.

"Eg heyri að fólk taki til þess hvað okkur þyki vænt hvoru um annað," sagði hún og vafði handleggjunum um háls honum. "Eg er þess albúin að skemma þig heilmikið."

Það kveld var hann boðinn til að borða í sportklúbb sínum með manni, sem fyrir skömmu var kominn heim úr Indlandsferð. Meðan hann beið eftir honum leit hann sér til dægrastyttingar í eitt dagblaðið — þar rak hann sig meðal annars á þetta:

"Fastráðið er að fram fari bráðlega gifting Mr. Reginald Sandridge frænda og erfingja greifans af Wildersham, og Mrs. Dartrell, ekkju eftir Matthew heitinn frá Braziliu."

"Það verður naumast sagt, að dregið hafi verið að færa almenningi fréttirnar," sagði Reggie óþolinmóðlega og fleygði frá sér blaðinu. "Mér þætti gaman að vita hvað gamli maðurinn í Wildersham segir."

Og ekki leið á löngu, að Reggie komst að raun um það.

Arnljótur B. Olson

---

## II. KAPITULI.

Kveldið eftir að þau trúlofuðust Mrs. Dartrell hin fagra og Reggie Sandridge mátti sjá hann aka í léttivagni sínum upp bröttu götuna við Waterloo Station. Ef þú hefðir séð það ,lesari góður, mundir þú hafa fallist á, að allur útbúnaður var hinn sjálegasti, alt frá olíugljáum stígvélum eigandans til fínstroknahattsins hestasveinsins, alt frá messingarbryddu aktýgjunum til gljáandi vagnhliðanna og togleðurshringanna á hjólunum. Og það var sannmæli sem einhver sagði er komst svo að orði:

"Þó að þú rækist á Reggie Sandridge á eyðimörkinni Sahara eða í frumskógunum í Ástralíu, þá mundi öll farartæki hans og fatnaður vera svo hrein og fáguð, eins og þau væru nýkomin úr verksmiðjunni." Ekki var það svo að skilja, að hann legði nokkra sérlega rækt við fatnað sinn. Hann var eftirlætisgoð skraddara síns, ekki af því að hann greiddi skilvíslega reikninga sína, heldur vegna þess hvað hann var prúðmannlegur, að skraddarinn komst svo

að orði, að hann hefði ekki eins mikinn hag af að sauma á nokkurn mann eins og hann. En því að eins sagði hann það, að föt fóru honum manna bezt vegna þess að hann var prýðilega limaður og hverjum manni liðlegri og fallegri á velli, hárið jarpt, og í við hrokkið, en yfirskeggið lítið og vanið og klipt með mestu nákvæmni. Hann var einstaklega kurteis og vinsæll svo að enginn vissi til þess að hann hefði átt nokkurn tíma í erjum við nokkurn mann, og beztu vinir hans höfðu aldrei séð hann skifta sinni sínu. Hann var bjartsýnn, enda hafði lífið oftast brosað við honum, og ef stundum eitthvað blés a móti, þá var hann fús á að taka því rólega, og var vanur að segja að maður gæti ekki búist við að baða alt af í rósum.

Þegar vagninn kom að stöðinni, stökk hann ofan úr honum, kinkaði vingjarnlega kolli til hestasveinsins, því að hann var góður við vinnufólk sitt, og hljóp inn í farbréfa skrifstofuna og bað um þrjú farbréf á fyrsta farrými til Carlsford Junction. Að því búnu reikaði hann út á vagnstöðvapallinn og bjóst að hitta þar einhverja kunningja sína, en þó að hann litaðist um eftir þeim, sá hann engan.

"Gerir ekkert til," sagði hann við sjálfan sig, "nógur er tíminn enn þá, og þeir koma náttúrlega ekki fyr en seint. Því næst gekk hann að bóksölustaðnum og rakst þar á mann, sem hann þekti vel. "Komdu sæll Richard!" sagði hann; "nei, ert þú hér? Hvernig líður þér, kunningi? Það er langt síðan við höfum sézt."

Maðurinn, sem hann ávarpaði, var frændi hans,

Richard Victor Sandridge, einkasonur yngri bróður föður hans. Náttúran hafði ekki gætt hann, Richard, eins ríkulegum gjöfum eins og frænda hans. Reggie var hár vexti, svo sem fyr var sagt, en Richard aftur á móti lítill og ósjálegur. Hann var skolbrúnn á hár og hafði alskegg samlitt hárinu, sem hann lét klippa mjög stutt. Honum hafði og fundist nauðsynlegt að brúka nefklípugleraugu og gerðu þau hann einkennilega afkáralegan eins og oft vill verða um menn, sem þau brúka. Hann var þremur árum eldri en frændi hans og virtist vera eldri. Má vera, þó að eg haldi það enganveginn, að það hafi verið því að kenna, að honum hafði gengið háskólanámið heldur erfiðlega. Satt að segja var Richard Sandridge ekki vinsæll. Og það sem var enn undarlegra var það, að enginn gat sagt hvað til kæmi. Meðan hann var í skóla hafði hann verið einrænn og farið mjög vel með vasapeninga sína; þess vegna fékk hann það orð á sig, að hann væri óviðjafnanlega samheldinn. Meðan hann var á háskólanum eignaðist hann enga vini, og átti ekki yfir sex kunningja. Vín smakkaði hann ekki og spilaði aldrei; hann hafði ömun á að koma út á Thamesfljótið — var enginn fimleikamaður — og ósöngvinn.

Þegar hann hafði lokið námi sínu á háskólanum og fékk aðgang að lögmannsstörfum , þá leigði hann sér herbergi þar sem hann beið eftir bréfum sem aldrei komu, og barmaði sér yfir því ranglæti, að hann skyldi hafa þurft að vera sonur yngri bróður en ekki erfingi að Welderhams nafnbótinni og eignunum.

Þeir frændurnir sáust sjaldan, og var það fremur hepni fyrir Richard, því að hann hafði vanalega raun af því klukkustundum saman þegar þeir hittust. Reggie gekk alt að óskum en sjálfur hann, Richard, varð að láta sér nægja mögur lögmannslaun, á að gizka hundrað pund á ári.

"Mér líður vel eins og vant er," sagði hann til svars upp á spurningu Reggie og svo ólundarlega, að manni hlaut að detta í hug að hann væri stórreiður forsjóninni fyrir það að leyfa honum að vera ofanjarðar. "Ertu að fara burt úr borginni?"

"Nei, eg ætla að skreppa til Carlsford," svaraði Reggie. "Eg var að hugsa um að skoða hestinn. Ef mér lízt vel á hann, þá ætla eg að senda þér hann. Nú er að eins ein vika til veðreiðanna í Epsom, og það er ekki óhugsandi að þú fáir orð að heyra að þeim tíma liðnum að einn af okkar ætt hafi unnið fyrstu verðlaun í Epsom.' '

"Það vona eg," svaraði hinn, en án alls innilegleiks. "En eins og þér er kunnugt, þá veðja eg aldrei og sæki aldrei veðreiðar. Blásnauður maður eins og eg hefir ekki efni á þesskyns óhófi."

"Þvættingur!" svaraði Reggie, "þú ert of ómannblendinn. Þú ættir að hafa þig meira frammi en þú gerir, Dick." (Það er ef til vill rétt að geta þess, að Reggie var eini maðurinn, sem nokkurn tíma hafði nefnt hann þessu gælunafni). "Þú ert sannkallaður einbúi."

"Eg uni vel hag mínum, þó að eg hafi hljótt um mig," svaraði Richard. "Það er ekki hægt að búast

við að mikið beri á manni, sem hefir ekki fimm hundruð í árstekjur."

"Það er aldrei nema satt," sagði Reggie og bætti svo við: "Fimm þúsund nægja mér ekki. En eg vona að Knight vinni í næstu viku, og þá skal eg lofa þér því, að þú skalt mega til að borða hjá mér miðdegisverð."

Richard hristi höfuðið. Hann sagðist vera óvanur slíku, hann færi aldrei neitt að heiman.

Rétt í þessu kom Reggie auga á kunningja sína. Þeir komu yfir vagnstöðvarpallinn í móti honum.

"Jæja, vertu sæll Dick," sagði hann og rétti honum höndina. "Mér þótti gaman að sjá þig., og vildi að við gætum sézt oftar."

"Vertu sæll," svaraði Richard, og svo var eins og hann rankaði við sér og bætti við: "Eg held annars að eg ætti að óska þér til hamingju með trúlofun þína, Reggie."

"Eg þakka þér fyrir," svaraði Reggie. "Jæja, svo þú ert þá búinn að heyra það. Það er eins og þetta sé orðið alkunnugt strax Og vertu nú sæll. Kunningjar mínir bíða þarna eftir mér."

Richard horfði á eftir frænda sínum þar sem hann stikaði í móti kunningjunum, sem biðu hans. Hann sá þá ganga inn í fyrsta farrýmisvagn, sem geymdur hafði verið handa þeim, og öfundin æstist í brjósti hans er hann sá þá kveikja í vindlum, og félagana setjast glaða niður til að njóta tveggja klukkustunda ferðalags með járnbrautinni. Richard hafði hitt báða kunningja frænda síns nokkrum sinnum, og sér til

mestu særingar orðið þess var, að þeir litu hann engum vinaraugum. Kunningi þeirra beggja, Richards og unga Dorsetgreifans, sem sat í innra vagninum hjá Reggie, hafði eitt sinn verið svo óvarkár að láta þess við getið að greifinn hefði hæðst að Richard. Það hafði Richard aldrei fyrirgefið honum, því að hann var minnugur á slíka hluti.

"Og hvernig líður fjörmanninum honum frænda þínum?" spurði Sir Harry Bracebridge, um leið og hann strauk ofurlítið ryk af fallegu stígvélunum sínum með fallegum fangamerktum vasaklút.

"Og svona svipað eins og vant er, ræflinum," svaraði Reggie. "Það er alt af sá svipur á honum, sem búast mætti við að væri á manni, sem komist hefir að því, að síðasti fimm punda seðillinn hans er ógildur. Það hlýtur að vera óttalegt, að líta sömu augum á lífið og hann."... ......

"En hvernig í dauðanum stendur á því, að þið skulið vera frændur; það er mér leyndardómur?" sagði Dorset lávarður. "Það er varla hægt að benda á ólíkari menn en ykkur tvo."

"Það mun satt vera," sagði Reggie, "og stundum get eg ekki gert að því, að mér dettur í hug að Richard öfundi mig. Sjáið þið til, ef eg væri ekki þrándur í götu, þá mundi hann verða Weldersham greifi þegar gamli maðurinn andast. Það er hart að standa svo nærri nægtunum en þó svo fjarri þeim samt. Og eg er ekki fjarri því að það mundi nú reyndar allra hluta vegna heppilegast, að hann yrði erfinginn. Hann

mundi hafa gleggri gát á fjáreignunum heldur en eg. Það er eg viss um."

"Hættu!" hrópaði Bracebridge. "Hvaða gagn er að peningunum ef ekki má eyða þeim? Þannig lít eg á það. Hvaða gagn er að því að hafa þrjátíu þúsund á ári, ef maður á að lifa eins og nirfill, og ímynda sér að maður fari á höfuðið ef maður eyðir tíu pundum á viku? En þannig mundi Richard fara að ráði sínu, og það sem meira er, hann mundi eyða helmingi tómstunda sinna í að hugsa um, hvernig hann ætti að fara að því að minka útgjöld sín. Lítið nú t. d. á Petre frænda minn. Þið þekkið hann báðir. Það er ekki sínsmáræðis ánægja, sem hann hefir af peningum sínum. Eg skal segja ykkur, að hann tekur það eins nærri sér að borga eitt pund eins og láta draga úr sér augnatönn, nema því að eins að hann ætti von á að fá tuttugu og fimm shillings í staðinn. Og sama er að segja, ef þú bæðir hann að lána þér hundrað pund, án þess að yfirfljótanleg trygging fylgdi. Það eru til margar góðar sögur um hann. Eg held eg hafi ekki sagt þér frá því þegar honum tókst að komast yfir fasteign í Ástralíu og að fyrir þremur árum neyddist hann til að fara þangað til að líta eftir henni. Á heimleiðinni sat hann hálfan mánuð hjá Kilfarline, sem þá var landstjóri á Ceylon. Hann ætlaði þar á eftir til Indlands og þá byrjar gamanið. Hann hafði haft aðsetur hjá Kilfarline til að losna við að greiða fyrir sig á gistihúsi, en honum sveið það sárast að þurfa að greiða vinnufólki landstjórans þóknun. Hann vissi vitanlega ekki aura sinna tal, en það

breytti ekki neinu. Hvað haldið þið að hann hafi gert?"

Þeir hristu báðir höfuðin því þeim var ómögulegt að giska á úrræði Petre Davenants lávarðar.

"Jú, hann skifti Ástralíu gullpeningum sínum og töluverðu af enskum bankaseðlum hjá víxlurum úti á strætum, fyrir indverska peninga, og gaf þjónum landstjórans þóknun af því sem hann græddi á skiftunum. Hann hélt því öllum peningum sínum og þóknunin kostaði hann ekkert. Getið þið boðið betur?"

"Eg er hræddur um, að þú sért nú að gera að gamni þínu," sagði Reggie og hristi höfuðið.

"Þú trúir mér ekki," svaraði hinn. "Heldur þú að nokkur mundi dirfast að skrökva á Petre gamla? Veistu það, að þegar hann var í Davenant, þá vildi hann aldrei láta sjóða eitt einasta egg nema hann vissi fyrir víst, að einhver ætlaði að borða það strax."

Meðan þeir voru að rabba svona saman rann eimlestin með drjúgum hraða um Wiltshire hérað, um kalkkendar sléttur og yfir skógivaxnar hæðir, fram hjá gömlum starengjum þar sem nautgripir voru á beit og stóðu hnédjúpt í angandi grængresinu. Loks rann lestin inn á litlu vagnstöðina hjá Carlsford. Þegar út fyrir þorpið kom tóku hæðirnar við aftur og blánuðu síðast út við sjóndeildarhringinn.

Þegar þeir félagar þrír voru komnir út úr lestinni, fóru þeir að þjóðveginum og beið þeirra þar sjálegur lítill vagn, sem uppi í sat ekill, aldraður maður, hvítur fyrir hærum. Þetta var sjálfur tamningamað-

ur Reggie-s, Mr. Bateson, er í vináttu skyni hafði fa
ið að mæta þeim.

"Góðan daginn, herrar mínir," sagði hann
lyfti hattinum kurteislega.

"Góðan daginn Bateson," svöruðu þeir, því
þeir voru honum vel kunnugir. Dorset lávarður se
ist hjá ekilnum, en hinir í aftari sætin á vagninu
og því næst va rekið af stað upp hæðirnar áleiðis
heimkynna hins fræga Knight of Malta, sem nú ha
verið veðjað á stórfé. Vegurinn sem þeir fóru v
sérlega góður, einhver bezti vegur, sem til var á En
landi og þó að hann væri æði gamall var eins og tí
ans tönn hefði lítið getað á honum unnið.

"Hvað segirðu mér af hestinum, Bates?" spu
Reggie þegar þeir voru vel komnir af stað.

"Hann er svo vel búinn undir veðreiðina, s
mögulegt er," svaraði tamningamaðurinn. "Hann
þægur og auðsveipur eins og lamb, og a morgun ætl
við að sjá fyrir víst hvað hann kemst. Eg er ek
vanur að hrósa sjálfum mér, en eg get ekki ímynd
mér, annað, en að við séum nær því að vinna veðre
arnar nú en við höfum verið nokkurn tíma áður."

"Við skulum vona það," sagði Reggie með
herzlu. "Eg hefi nú veðjað á hann svona hér um
því sem hann getur risið undir."

"Eg er viss um, að hann hleypur að minsta ko
fallega fyrir þetta fé," sagði Bateson, "og það verð
hvorki mér né honum að kenna, þó að hann vi
ekki!"

"Það er sjálfsagt dagsatt," svaraði Reggie.

Rétt á eftir fóru þeir að halda ofan eftir hæðunum, og nálguðust nú óðum Burmminster tamningastöðina, sem Bateson átti og stýrði. Hann bjó þar sjálfur í stóru steinhúsi, er stóð í skuggasælum garði, og lá upp að því breið akbraut, og hesthúsin voru svo sem hundrað fet frá húsinu.

Hesthúsin báru þess öll einkenni hvaða hús það voru, skeifuför voru alt umhverfis dyrnar, skeifur festar uppi yfir dyrunum, veggirnir allir settir merkjum og skorum og hrossalyktin angaði á móti manni þegar komið var að dyrunum.

Tamningamenn nú á dögum eru nauða ólíkir tamningamönnum fyrir þrjátíu árum. John Bateson tók einstaklega vel á móti gestum sínum. Næst tamningarstarfinu fékst hann mest við garðrækt og átti fallegri blómagarð en nokkur maður þar í nágrenninu. Kona hans var fríð sýnum og hin vinsælasta. Þau áttu tvær dætur, og var sú eldri nýgift þegar hér var komið.

Til að snúa sér að því sem ómerkilegra er má geta þess, að hesthúsin voru allra vönduðustu byggingar og tóku alt að því hundrað hesta. Hinum megin við hesthúsin sást ofan á toppinn á húsi Mr. Batesons. Mrs. Bateson og dætur hennar voru staddar úti þegar þeir komu og tóku í móti þeim. Reggie Sandridge var vildarvinur þeirra. Hann kom þangað sjaldan að vísu, en var ætíð tekið tveim höndum.

"Hann er hér um bil eini viðskiftavinur minn, sem ekki yglir sig þegar einhver óheppni kemur fyrir," var Bateson vanur að segja. "Viðkvæðið hjá

honum er vanalega að eins þetta: 'Það var leiðinlegt, að við skyldum ekki hafa það, Bateson; kannske við verðum hepnari næst; þess vegna er eg miklu meira áfram um að hestur hans vinni en margra annara."

Þau snæddu kveldverð viðhafnarlaust; léku síðan *billiard* í snotru herbergi, er til þess var ætlað í húsi Bateson's, og ræddu síðan um hitt og þetta, og að því búnu var gengið til sængur á þeim tíma, er gamlir Lundúnabúar telja kveldbyrjun.

Það var árrisult fólk í Burminster. Klukkan hálfsjö voru þeir félagar kallaðir til morgunverðar, og stigu síðan upp í léttivagn með tamningamanninum, er fylgdi þeim á þann stað þar í grendinni, sem koss inn hafði verið til að reyna veðhlaupahestana undir kappreiðina. Veðrið var hið ákjósanlegasta og þeir þrír félagarnir voru í bezta skapi. Dorsett lávarður var hinn mesti sportsmaður. Hann hafði óbilandi trú á því að hestur vinar sins mundi vinna og var engu óhugfangnari af veðreiðunum, sem voru að fara í hönd, heldur en Reggie sjálfur. Tamningasviðið í Burminster er frægara en flest önnur á Englandi. Það er heldur varla hægt að hugsa sér æskilegra tamningasvæði en rennslétta harðlenda grund, sem er hörð undir fæti af kalklagi og þrjár til fjórar mílur ummáls, þar sem loftið er hressandi eins og bezta kampavín, þar sem enginn runni er sjáanlegur nokkursstaðar, eða nokkur hola þar sem froskur gæti falið sig eða hestur fest fót í.

Þegar þeir komu að tamningarsviðinu, sáu þeir langa röð af hreinkynjuðum hestum, búnum til hlaups

undir stjórn hestasveina formannsins. Þegar þeir félagar komu á ákveðinn blett þar sem hvitur staur hafði verið reistur upp, nam vagn þeirra staðar.

“Jæja, herrar mínir,” sagði Bateson og kallaði á þá afsíðis svo að hestasveinarnir heyrðu ekki til þeirra; “nú skal eg segja ykkur hvað eg hefi verið að útbúa. Eins og ykkur er kunnugt þá er Catseye sá hesturinn, sem bezt er taminn og mest orð fer af. Eg þekki hann fyllilega. Við höfum reynt hann til þrauta og vitum upp á hár hvað hann kemst.”

“Þér eigið náttúrlega við Knight og Wild Violet. Knight hefir 98 pund að bera, Catseye sex vetra 94 og Wild Violet 104 pd. Eg held að þarna sé býsna jafnt á komið, og ef Knight verður fljótastur nú þá held eg að við megum gera okkur beztu vonir í veðreiðunum í Epsom.

“Það vona eg líka,” svaraði Reggie, “og hvar eru hestarnir nú?” Bateson rétti upp höndina og voru þá teymdir fram þrír hestar úr hrossaröðinni sem fyr var nefnd. Allir voru þeir klæddir ábreiðum. Hrúgur af ábreiðum lágu á brautinni þar sem hlaupið skyldi byrja og fór Bateson að taka þær til handargagns.

Næstu tíu mínúturnar var verið að því og að leggja á hestana og lét tamningamaðurinn gera það með mestu varfærni. Síðan sagði hann fáein orð við hestasveina formanninn og því næst var þeim þremur reiðmönnum gefið merki, er ríða skyldu völdu hestunum fyrnefndu, að vera til taks.

“Svona, herrar mínir,” sagði tamningamaðurinn,

"nú skuluð þið koma með mér að markinu og þá getum við glögglega séð hversu þessar reiðar takast."

Þeir félagar voru rétt nýsestir niður og tæpast búnir að taka upp sjónpípur sínar, þegar tamningamaðurinn æpti til reiðmannanna og gaf merki til þess að þeir hleyptu af stað. Wild Violet varð fyrst til og fast á eftir henni kom veðreiða keppinauturinn Knight. Eftir að hestarnir höfðu hlaupið eina mílu var Knight kominn á undan; þaðan af var enginn vafi á því hversu fara mundi; Knight varð fyrstur á markið og var hrópað fagnaðaróp yfir honum, og nokkrar hestlengdir á eftir honum var Catseye, brúni fallegi hesturinn.

"Það fór rétt eins og mig grunaði," sagði Bates og neri saman höndunum. "Knight refir farið undarlega fram síðustu vikurnar."

"Ef þessi veðreiðarraun er nokkuð að marka," sagði Reggie, "þá er óhætt að hita þeim betur, sem lagt hafa fé fram til að veðja á móti Knight. Hvað sem öðru líður sé eg ekki eftir því fé, sem eg hefi veðjað á hann."

"Þó að það komi mér ekki við að vera að skifta mér af því hvað viðskiftamenn mínir gera, þá langar mig til að skjóta því að ykkur, að þið ættuð að fara varlega í að leggja undir afar mikið fé við þessa veðreið," sagði Bateson. "Það er svo margt sem kemur til greina við þessar veðreiðar og maður veit aldrei hvað fyrir kann að koma."

Reggie hló mjög góðlátlega.

"Eg held að við verðum að treysta áhamingjuna

í þetta sinn." Síðan brá hann tamningamanninum á eintal og sagði: "Meðal annara orða, berið þér ekki fylsta traust til Bassage?"

"Jú, eg ber fylsta traust til hans," svaraði Bateson. "Hversvegna eruð þér að spyrja að því? Hafið þér heyrt nokkuð misjafnt um hann?"

"Ekkert sérlega alvarlegt," svaraði Reggie, "en eg verð að játa það, að eg hefi heyrt ýmsar kynlegar sögur um hann. Og eg ætla að bæta því við, að eg var alls ekki ánægður með það, hvernig hann reið Hargrave í Kempton."

"Eg held, að þér þurfið ekki að bera kvíðboga hans vegna," svaraði Bateson. "Eg veit það, að ýmsir hafa horn í síðu hans, en eg hefi þekt hann býsna lengi og eg trúi því ekki, að hann fari að gera okkur nokkurn grikk. Hann mundi ekki hafa annað en óhagnað af því."

"Ef þér eruð ánægður, þá er eg það."

Knight of Malta var allra fallegasta skepna og fyrirmyndar veðreiðahestur hvar sem á hann var litið", eins og Bracebridge komst að orði. Það var naumast hægt að benda á nokkurn galla á honum, og nú var hann nýbúinn að hlaupa af sér tvo aðra eins gæðinga eins og Catseye og Wild Violet. Hann hafði verið taminn af einhverjum bezta tamningamanni í Englandi. Honum reið einhver nafnfrægasti reiðmaður þar um slóðir, svo að það virtist ekkert óeðlilegt, þó að eigandinn gerði sér miklar vonir um hann. Hestur þessi hafði þegar gefið hina beztu raun á sér í veðreiðum. Tvævetur hafði hann unnið verðlaun í

kappreiðum við Newmarket og Middle Park Plate, og þrevetur verðlaun við Leicester og hafði að eins einu sinni tapað í veðreiðunum við Epsom og munaði það sára litlu.

Þegar þeir félagar höfðu skoðað alla hesta Bateson's héldu þeir aftur áleiðis til járnbrautarstöðvarinnar, og þeir þóttust vera þess fullvísir, að þeir hefðu skilið við veðhlaupahest er ynni fyrstu verðlaun í árlegu veðhlaupunum við Epsom.

Þegar Reggie kom aftur til borgarinnar símaði hann erindsreka þeim er annaðist um veðreiða starfsmál hans. Hann var lítill maður vexti og skarpleitur og áþekkastur kaþólskum presti: hann var rólegur í fasi og hægur en staðfastur og áræðisgóður hvað sem að höndum bar.

"Gott kveld, Beton," sagði Reggie þegar eirindsrekinn kom til híbýla hans í Mount stræti. "Eg er nýkominn frá því að skoða hestinn í dag."

"Og hvernig leizt yður á hann?" spurði hinn er manna kunnugast var um það hve skjólstæðingur hans hafði veðjað miklu á hestinn. "Eg vona, að yður hafi litist vel á hann."

"Mér gat ekki litist betur á hann en mér gerði," sagði Reggie og lýsti veðreiðar rauninni með fám orðum.

"Þetta virðist mjög álitlegt," svaraði litli maðurinn, "en ef þessi saga verður heyrinkunn þá verður andvelt að fá veðjað á hann meira en nokkurn annan veðhlaupahest."

"Hvað er veðjað hæst nú?"

"Fimm á móti einum og svo fimm á móti tveimur næst.."

"Jæja, eg held að yður sé óhætt að hækka veðfé mitt um fimm hundruð eftir þessa raun, sem eg fékk á honum í morgun. Maður verður að hamra járn meðan heitt er, og eg verð að reyna með öllu móti að hafa mín tvö þúsund upp úr þessum veðreiðum."

Litli maðurinn ritaði eitthvað í vasabók sína og tók því næst hatt sinn og kvaddi.

Þegar hann fór ofan stigann tautaði hann fyrir munni sér: "Það er enginn maður sem eg vinn fyrir með jafngóðu geði eins og Mr. Sandridge, en því er miður að það er mjög erfitt að vinna fyrstu verðlaun í veðreiðunum við Epsom, og ef Knight of Malta vinnur ekki í næstu viku þá hugsa eg að þetta verði í síðasta sinni, sem eg annast veðreiðarfjármál fyrir Mr. Reginald Sandridge og þykir mér ilt til þe að vita."

En þegar hinn var farinn kveikti eigandi hestsins í vindlingi hægt og rólega og þegar það var búið tók hann upp veðjanabók sína og fór að reikna eitthvað, sem enginn óviðkomandi mundi hafa botnað í.

"Þetta verður tölverð áhætta, en eg vona að alt fari vel á endanum," sagði hann við sjálfan sig. "En ef það mishepnast—" hann þagnaði og fór að slá blýantinum með léttum höggum á framtennurnar á sér.

Það var auðséð, að ef svo færi, þá var hann í vafa um, hvað gera skyldi. Sú hafði verið tíðin, að helzt leit út fyrir að það fé mundi aldrei ganga til

þurðar, sem hann hafði erft eftir föður sína, en nú var öðru vísi á statt.

"Jæja, það verður að hafa það, eg verð að treysta á hamingjuna," sagði hann um leið og hann lagði aftur litlu, snotru morocco-bókina og stakk henni á sig.

Rétt í því var hurðin opnuð og þjónn hans kom inn í herbergið með símskeyti á bakka. Reggie opnaði umslagið og las skeytið. Það var á þessa leið:

"Frændi er veikur, langar til að hafa tal af þér—komdu strax. Dorothy."

Á yngri árum sínum hafði frændi Reggie's, greifinn af Weldersham, verið kallaður "stálgreifinn" bæði af vinum sínum og almenningi yfirleitt. Viðurnefni þetta var honum gefið vegna þess hve hann var óvenjulega hraustbygður og var maður sem ekkert virtist bíta á. Og þó að hann væri nú orðinn áttatíu og tveggja ára gamall var viðurnefnið alls ekki enn orðið rangnefni. Þess vegna átti Reggie bágt með að ímynda sér, hvað honum gengi til að gera boð eftir sér, þó að hann væri sjúkur.

"Gáttu frá farangri mínum," sagði hann við manninn, sem færði honum skeytið, "en útvegaðu mér fyrt farbréf eftir járnbrautarlestinni; eg ætla til Waldersham í kveld."

Að hálfri klukkustund liðinni var hann kominn á fleygiferð með eimlestinni áleiðis til hinna fornu heimkynna, þar sem allar líkur voru á, að hann settist að einhvern tíma þegar hann væri orðinn lávarður.

---

Arnljótur B. Olson

## III. KAPITULI.

Mér er það enn í barnsminni, þegar eg sá Weldersham kastalann í fyrsta sinni. Eg var á ferð á reiðhjóli mínu, um hásumar að kveldlagi, eitthvað kringum klukkan átta. Þjóðvegurinn var þur mjög og lá á honum nærri þumlungsþykt ryk. fyrri uppskeran var búin og eg neyddist hvað eftir annað til að hrökklast ofan af brautarhryggnum til þess að verða ekki fyrir þunghlöðnum vögnum, sem verið var að aka að Heimabúgarðinum. En á því varð breyting þegar eg kom að Suður-Hliðhúsinu og kom inn í skemtigarðinn á Heimagarðinum. Um mína daga hefi eg átt kost á að skoða óðalseignir allmargra aðalsmanna á Englandi, en engan þeirra, sem eg hefi séð, komast í samjöfnuð við höfðingjasetrið sem eg ætla nú að fara að lýsa..

Fyrst fór eg yfir ofurlitinn plantteig, þar sem ræktuð voru ung lárviðartré, og varð sígræni liturinn á þeim í fögru samræmi við þéttvöxnu grasbalana, og rétt á eftir kom eg að gamalli steinbrú, sem lá yfir dálitla á, og blasti þá við mér fegursta sýn, sem eg hefi nokkurn tíma séð á Englandi. Til vinstri handar við mig lá yndislega fagur sketmigarður, og við yztu rönd hans tóku við merkurnar, sem blánaðu út í sjóndeildarhring við heiðan kveldhimininn. Til hægri handar við mig í svo sem hundrað feta fjar-

lægð, stóð kastalinn, umgitur af ánni. Það var tilkomumikil bygging, og svo einkennileg, að sá sem hafði séð hana einu sinni hlaut að muna eftir henni alla æfi. Varmir geislar kveldsólarinnar léku um kastalann, og efast eg ekki um að Truner mundi hafa fýst að mála þá mynd. Turn tók við af turni, og veggsúla af veggsúlu, húsálma af húsálmu, en hægra megin rann lygn áin hátignarlega í hægðum sínum út til sjavar. Um skemtigarðinn lágu breiðir gangstígar, óviðjafnanlega fagrir grasbalar og fágætar standmyndir; en það var hátignarblærinn og hið dásamlega snið bygginganna, áin, merkurnar og hin töfrakenda ró, sem yfir öllu hvílri, er hreif mig meira en alt annað. Eg stðð kyr á brúnni alt a ð því hálfa klukkustund og dáðist að þeirri dýrðlegu sýn, sem eg sá fram undan mér, og hafði þá litla hugmynd um, hve mikinn kunnugleik eg mundi öðlast á þessu höfðingjasetri síðar meir. Síðan steig eg aftur á reiðhjól mitt, hélt áfram ferðinni, fór út um norðurhliðið og var að hálfri klukkustund liðinni kominn vel áleiðis alla heim til mín.

Það var orðið býsna áliðið um kveldið, þegar Reggie Sandridge sté út úr eimlestinni, sem næst var Weldersham. Stöðvavörðurinn þekti hann og lyfti hattinum kurteislega.

"Fyrirgefið, en eg býst við að góðar horfur séu með hestinn, er ekki svo?" sagði hann. "Hér í nágrenninu gera allir sér miklar vonir um hann."

"Eg er viss um að hann mun hlaupa vel," svaraði

Reggie. "En hafið þér annars ekki heyrt, hvernig frænda mínum líður?"

"Eg hefi heyrt, að hann væri mjög máttfarinn," svaraði stöðvarvörðurinn. "Okkur var sagt í morgum að hann væri sáraumur."

Reggie fór út og upp í vagninn, sem beið eftir honum. Hann hafði þekt hestasveininn og ekilinn frá því að hann var barn og taldi þá kunningja sína.

Frá stöðinni yfir að kastalanum voru eitthvað þrjár mílur, og þó þekti Reggie svo að kalla hvern stein, hverja þúfu og hvert tré á allri þeirri leið. Hann mundi séstaklega vel eftir einum stað við brautarsýkið, þar sem hann hafði ætlað yfir það á óþægum hesti, og hafði viðureignin endað á því að hesturinn setti hann af sér í sýkið. Enn fremur mintist hann þess, hvar hann hafði einu sinni mætt flökkumanni, sem hafði spáð honum því að hann mundi verða mesti auðmaður, og hafði hann þá sérstaklega vonast eftir að það mundi merkja það, að hann eignaðist móröndóttan hund, sem hann hafði ágirnst a trídögum sínum. Hann þekti nákvæmlega alt sem fyrir augu bar, eins og eg hefi áður sagt, og þegar hann var að renna augum yfir þessar stöðvar sem hann þekti svo vel, þá fékk hann hálft í hvoru samvizkubit af því að hafa ekki komið þarna í mörg ár.

"Eg er óviss um nema sveitalífið sé nú betra þegar öllu er á botninn hvolft," sagði hann. "Við erum helzt til léttúðugur, sem lifum dag eftir dag og viku eftir viku án þess að láta okkur koma í hug hinstu skuldina, sem við verðum allir að greiða."

Síðan datt honum í hug gamli maðurinn júki, sem hann ætlaði nú að fara að sjá, og sagði við sjálfan sig: "Ég held að það hefði verið nokkuð réttara af mér að hafa sýnt honum meiri alúð og umhyggjusemi, svo að honum hefði getað þótt vænna um mig, en samt sem áður hefir alls ekki verið kalt í milli okkar. Þó að hann hafi ekki viljað við það kannast, þá held eg að gamla manninum sé nokkuð hlýtt til mín."

Loks kom hann inn í lystigarðinn og var ekið hér um bil tvær mílur um hann, en þar var eitthvert hið fegursta landslag, sem eg hefi séð á Englandi, eins og eg gat um hér að framan. Þeir óku yfir brúna sem eg lýsti fyr og síðan beint að hinum fögru dyrum kastalans. Rétt í því sló klukkan á hesthústurninum sex. Hann sté niður úr vagninum, og fór inn í fordyrið, sem var með fornu sniði en mjög fagurt, prýtt skjaldmerkjum forfeðra hans, og myndum af ýmsum merkum atburðum í sögu þeirra.

"Hvernig líður frænda mínum, Somes?" spurði hann gamla brytann, sem hafði verið þrjátíu og fimm ár í þjónustu frænda hans.

"Mér þykir vænt um að geta frætt yður á því að hann er betri, Mr. Reginald," svaraði gamli maðurinn. "Hann var býsna lasinn þegar Miss Dorothy sendi yður símskeyti. Læknirinn er rétt nýfarinn og hann kemur aftur klukkan tíu."

"Og hvar er Mrs. Maddison?"

"Í bláa gestasalnum. Viljið þér gera svo vel og koma með mér?"

Reggie fylgdi manninum eftir inn í salinn, sem nefndur var. Þegar hann kom inn risu tvær konur upp í móti honum. Sú eldri var mjög góðleg, gráhærð og á að giska fimtug. Hin, sem með henni var, dóttir hennar, Dorothy, var ljómandi falleg stúlka á tvítugsaldri, hraustleg og djarfleg í framgöngu, og gjörn á að segja meiningu sína, þó að það yrði henni oft til óþæginda. En það var samt óvenjulegt að neinn gæti verið Dorothy reiður nema í svip. Mrs. Maddison var frænka Waldersham greifa. Maður hennar hafði einu sinni verið ráðsmaður landeigna greifans, og þegar hann andaðist hafði hún tekið boði greifans um að setjast að í kastalanum með dóttur sína, sem þá var á barnsaldri.

Og þeim hafði báðum orðið þetta til ánægju. Mrs. Maddison öðlaðist þarna gott heimili fyrir sig og dóttur sína, og hann fékk þar ráðskonu, er gat tekið á móti kvenfólki sem til kastalans kom.

"Ég er því fegin, að þú skyldir koma til kastalans," sagði eldri konan. "Hann hefir verið að spyrja eftir þér."

"Ég vona, að hann sé ekki hættulega veikur," svaraði Reggie.

"Ég er aftur á móti hrædd um að það sé hættulegt," svaraði hún. "Dr. Browndow gat okkur ekkert góðar vonir um hann í morgun. En nú sýnist hann heldur betri en í kveld. Ef þú vilt, þá skal eg nú skreppa upp og segja honum að þú sért kominn."

Hún fór fram, en þau Dorothy og Reggie voru ein eftir.

"Manstu það," sagði hann, "að það eru nærri því átta mánuðir síðan eg sá þig seinast?"

"Það er sjálfum þér að kenna, að hafa aldrei komið oftar," sagði hún glaðlega. "Fyrir eina tíð þótti þér eins og veiðar og skotferðir væru skemtilegar eins og eimlestarferðirnar. En nú er eins og þú hafir skift um skoðun."

Þau voru falleg þar sem þau stóðu bæði tvö við arninn. Hann var Englendingur í húð og hár, ungur og efnilegur, en hún einhver sú yndislegasta stúlka, sem hægt er að hugsa sér. Og það sem enn betra var, hún var góð og ástúðleg stúlka, og jafn kurteis við lítilmótlegasta vinnumann frænda síns eins og þó að hún hefði átt tal við prinz af konungaættum kominn, og var því hvers manns hugljúfi bæði æðri og lægri. Hún hafði dáðst að Reggie frænda sínum í mörg ár, frá því að hann var ungur drengur í Eton-treyju og hafði verið að segja henni til hvernig ætti að fara að veiða fisk í ánni, rétt við kastalann. Hún hafði gefið nánar gætur að framförum hans, og þó hafði henni satt að segja ekki geðjast vel að síðustu þroskaárum hans. Hún hafði búist við því, að hann mundi ganga í herinn, því að hann hafði einu sinni sagt, að hann mundi gera það. Þá hafði og einu sinni verið tiltal um, að hann færi að gefa sig við stjórnmálum. Faðir hans hafði verið duglegur stjórnmalamaður, en ekkert varð þó af því.

"Menn segja, að eg sé latur," hafði hann einu sinni sagt við kunningja sinn, "af því að eg skuli ekki fara í herinn, eða velja mér einhverja ákveðna

lífsstöðu. En það er að eins vottur um vanþekkingu þeirra. Á sumrin eru skemtanirnar alstaðar. Þá sé eg ekki út úr veizluboðum, danssamkomum á hverju kveldi fyrir utan allar myndasýningar og hestasýningar og leikhúsin; á haustin og vetrin, þá er ekkert hlé á dýraveiðum og fiskiveiðum. Og hvernig heldurðu að færi ef ekkert væri af mönnum líkum mér til að gera það sem eg hefi minst á? Hvað heldurðu að yrði um tamningamennina, skógarverðina, bændurna, hestakaupmennina og þjónana? Hvað heldurðu að yrði um þá, ef ekki væru menn líkir mér? Og hættu svo allri vitleysu."

Eftir það mintist vinur hans aldrei á slíkt við hann framar.

Litlu síðar kom Mrs. Maddison með þann boðskap, að gamli aðalsmaðurinn vildi finna frænda sinn og bæði hann að koma upp til sín.

"Þú þekkir auðvitað herbergið?" sagði hún.

Og Reggie þekti það líka undur vel. Oft hafði hann verið kallaður þangað þegar hann var ungur drengur, til að yfirheyrast, og spurði þá hinn aldurhnigni frændi hans mjög alvarlega um ýms barnabrek sem hann hafði verið sakaður um; og stundum hafði honum líka verið gefnir skildingar þar áður en hann fór í skólann á morgnana. Hann gekk svo upp breiða riðið, sem lá upp að löngum gangi og að hurð, sem var inst í honum. Hann bankaði á þá hurð og opnaði þá fyrir honum hjúkrunarkona, og bauð honum kurteislega að koma inn. Það var fallegt herbergi, sem honum var fylgt inn í, vitnandi að ýmsu

leyti um manninn, sem hafði búið í því um háfia öld. Húsgögnin voru sterk og vönduð, myndirnar fáar en fram úr skarandi vel málaðar, og úr gluggunum var svo fallegt útsýni, sem framast er auðið að fá á öllu Englandi.

Reggie gekk yfir að rúminu og heilsaði frænda sínum. Það þurfti ekki nema dómgreind til að sjá að hann átti ekki mörg ár eftir ólifað.

"Mér þykir fyrir, að eg skuli sækja svona illa að þér," tók Reggie til máls. "Eg mundi hafa komið hingað fyr, ef eg hefði vitað, að þú værir svona veikur."

Gamli maðurinn vísaði honum til sætis á stóli við rúm sitt.

"Þakka þér fyrir," svaraði hann með þeirri kurteisi, sem eiginleg var aðalsmönnum fyrri tíma. "Seztu hérna hjá mér. Mig langar til að segja við þig fáein orð."

Reggie gerði sem hann var beðinn.

"Eg sendi eftir þér til þess að geta talað ofurlítið við þig meðan svo væri ástatt fyrir mér, að eg gæti sagt þér hvað mér byggi í brjósti."

"Eg vona, að mér geti alt af orðið ánægja í að hlýða á það, sem þú kant að vilja segja við mig," svaraði Reggie kurteislega, en hálf kveið þó fyrir því sem í vændum var.

"Mér þætti vænt um, ef þú gætir sagt þetta sama síðar," sagði Weldersham lávarður. "En nú get eg ekki orðabundist um það, að ýmsar fregnir hafa bor-

ist mér til eyrna, sem mér hefir síðar en svo geðjast að:"

"Það þykir mér ilt að heyra," svaraði Reggie. "Mundirðu vija segja mér, hvers kyns fréttir að það voru?"

"Þó að mér þyki það aldrei skemtilegt, þá hefi eg samt ekkert á móti því að gera það," svaraði frændi hans. "Eg hefi góðar heimildir fyrir þeim fréttum, ef þú ert í þann veginn að ganga að eiga konu, sem um nokkurn tíma hefir fengist við leikhús-störf. Og hefi eg heyrt sagt" — kuldalegt kýmnis-bros kom nú á varir hans — "að fríðleiki hennar sé hér um bil það eina, sem hún hefir til síns ágætis. En eg bið þig forláts, ef þetta er tómur *uppspuni*."

Áður en hann svaraði leit Reggie út um gluggann. Einn vinnumaðurinn var að fara yfir brúna og bar á bakinu þriggja ára gamlan son sinn. Hann mintist þess nú hve oft hann hafði sjálfur skemt sér vel við að láta þenna mann bera sig svona yfir brúna, þegar hann var sjálfur kornungur og vinnumaðurinn á fermingaraldri.

"Um þessar fréttir er það að segja, að þær eru ósannar að því leyti að eins, sem viðkemur leikhúss-störfunum. Mrs. Dartrell, sem nú hefir heitist mér, hún hefir aldrei á leiksvið komið."

"Eg óska þér til hamingju með það atriði að minsta kosti," svaraði frændi hans. "Úr því að við erum að tala um þetta, þá ætla eg að minnast á það, að svo virðist sem hún muni vera allvel fjáð. En svo hefir mér verið sagt, að þú hafir á þrem kveldum

tapað fimm þúsund pundum á heimili hennar. Kannske hún kunni að geta hjálpað þér til að vinna þetta aftur. — Má eg spyrja, hvað eru skuldir þínar nú orðnar miklar?"

Enn þá hafði Reggie ekki runnið í skap.

"Mér finst að það muni naumast rétt að ónáða þig með slíkum smámunum. Það má semja um þær skuldir síðar."

"Það eru ekki eins miklir smámunir og þú virðist ímynda þér," svaraði greifinn. "Eg get ekki ímyndað mér, að þú hafir gleymt því, að þú átt í vændum að verða Weldersham greifinn, sá áttundi í röðinni?"

"Eg vona að þú sért svo sanngjarn að ætla mér það, að mig langi til þess."

"Það er annað mál," svaraði frændi hans. "Það sem mig langar til að láta þér skiljast er það, að það hefir fengið mér töluverðar órórsemi, síðan eg heyrði um trúlofun þína."

Reggie roðnaði ofurlítið. Honum mundi hafa orðið erfitt að skýra frá hvernig á því stóóð.

"Eg hefi beðið Mrs. Dartrell um að verða konuna mína," svaraði hann eins og það eitt út af fyrir sig nægði til að þagga niður órósemi frænda hans.

"Og með því að þú hefir nú gert það, þá ertu að hugsa um að halda áfram með það?"

"Það er ekki vanalegt, að menn biðji sér stúlku, án þess að ætla sér að eiga hana," svaraði Reggie.

"Þú verður að fyrirgefa mér, þó að eg kunni að leggja rangan skilning í þessa trúlofun þína," svaraði greifinn og strauk óþolinmóðlega hendinni eftir rúm-

ábreiðunni. "Við Weldershamarnir höfum verið býsna varkárir með að velja okkur kvonfang. Og satt að segja man eg ekki eftir nokkru dæmi sem komist í samjöfnuð við þessa trúlofun. Eg vona að þú misvirðir það ekki við mig að eg segi, að eg á bágt með að hugsa mér Mrs. Dartrell húsmóður í þessu húsi. En því miður er eg ekki fær um að koma í veg fyrir það, eins og þú veizt. Það er viðtekin venja — þú ert erfingi og verður það."

"Mér þykir fyrir því, að þér skuli mislíka þetta," svaraði Reggie.

"Það er líklega enginn vegur til þess að komast hjá þessum ráðahag, býst eg við?"

"Nei, því fer fjarri. Þú hlýtur að geta séð það."

Síðan kom löng þögn og meðan á henni stóð sýndist hörkusvipur færast yfir andlit gamla mannsins. Á vísifingri á hægri hendi bar hann einkennilegan hring, það voru tveir höggormar, sem vöfðust hvor utan um annan. Augun í þeim voru rúbínar og Reggie sýndist ekki betur en ormarnir væru að hvessa á sig augun með illilegu háðglotti.

"Það er mjög óheppilegt, að þetta skuli hafa komið fyrir, einmitt nú," sagði greifinn loksins. "Mér hefði þótt mjög svo vænt um það, ef þú hefðir annað hvort getað hætt við þessa trúlofun, eða dregið hana þangað til eg gat ekkert um hana heyrt. Mér hefir verið sagt, að þú eigir þér enga viðreisnar von í fjárhagsefnum, nema að hestur þinn vinni í veðreiðunum við Epsom í ár. En ef honum mistekst, hvernig fer þá?"

Nú í fyrsta sinni meðan á samtali þessu stóð kom hörkusvipur um munninn á Reggie.

"Mér finst, sem þetta muni vera afleitlega leiðinleg samræða fyrir okkur báða," sagði hann." Heldurðu að rétt sé að halda henni áfram?"

"Ef til vill ekki," svaraði frændi hans. "Ef þú ert fastráðinn í að halda við þetta áform þitt, þá hefi eg litla von um að geta haft þig ofan af því. Eg ætla samt að segja þér frá því, að eg hefi lagt svo fyrir, að Margetson skuli koma hingað inn til mín eftir eina klukkustund, og að viðtal okkar nú mun ráða miklu um það, hvað eg segi honum. Eg þarf ekki að taka það fram, að í þinn hlut kemur nafnbótin, landeignirnar, bústaður ættarinnar í Lundúnum, Berham og Fieldham. En yfir mínum eigin eignum hefi eg sjálfur full ráð. Tekjurnar af þeim eru eitthvað þrjátíu þúsund pund sterling á ári. Finst þér ekki nokkuð hart að missa af öllu þessu fé?"

Reggie stóð á fætur og gekk yfir að glugganum. Vinnumaðurinn var að hverfa með öllu með drenginn sinn inn í skóginn hinu megin við skemtigarðinn Þegar þeir voru horfnir, sneri hann sér við og gekk yfir að rúminu. Gráu augun gamla mannsins fylgdu honum fast eftir.

"Þú mátt trúa því," sagði Reggie, "að mér fellur það frámunalega illa, að þurfa að sýna þér mótspyrnu, sérstaklega eins og nú stendur á og viðvíkjandi því efni, sem nú er um að ræða. En þú hlýtur hins vegar að sjá það, að eg get ekki farið öðru vísi að heldur en eg geri."

"Ef þú hefir fastráðið þetta, þá ætla eg að biðja þig að hafa ekki fleiri orð," sagði gamli maðurinn. "Og nú ætla eg að biðja þig að yfirgefa mig. Þú verður samt náttúrlega hér í nótt."

"Mér þykir vænt um að mega það," sagði Reggie og fór út úr herberginu. "Eg sé ekki betur en að eg sé kominn í ljótan bobba," sagði hann um leið og hann fór niður stigann. "Ef hann ætlar að láta fé hinna ganga og þessara annara og Knight skyldi ekki vinna, þá er eg sama sem gjaldþrota. En það dugir ekki að fást um það, það er búið sem búið er, og ef eg get nokkuð getið mér nærri um hugarfar manna, þá breytir hann ekki fyirætlan sinni, svo að það er gagnslaust að fárast um þetta."

Þegar hann kom aftur inn í gestasalinn litu báðar konurnar til hans forvitnisaugum. Þær höfðu eitthvert veður af því, að ilt væri í vændum.

"Viltu ekki koma út og ganga ofurlítið með mér Dorothy;" sagði hann við yngri konuna. "Veðrið er svo dæmalaust gott í kveld."

Hún var til með það, og svo fóru þau af stað, og gengu niður að ánni, því að þar þótti þeim báðum gott að vera. Sólin var gengin undir skóginn og blómin hneigðu höfuð sín og bjuggust að njóta næturhvíldarinnar. Eftir að þau höfðu gengið stuttan spöl, námu þau staðar og hölluðu sér fram á brjóstriðið, og fóru að horfa ofan í vatnið, því að þar sáu þau speglast myndina af kastalanum, eins og þau hefðu séð hana í bezta spegli. Dorothy vissi, að

eitthvað olli förunaut sínum ógleði, og hún gat vel getið sér til, hvað það mundi vera.

"Af því að frænda mínum er orðið svo vel kunnugt um trúlofun mína, þá hlýtur þú að hafa heyrt eitthvað um hana, Dorothy," sagði Reggie eftir litla þögn. "Þú hefir ekki óskað mér til hamingju enn þá!"

Það kom ofurlítið hik á stúlkuna.

"Eg þekki Mrs. Dartrell ekki neitt," sagði hún í einhverju fáti, "en eg veit að þú veizt það, að eg vildi að þú yrðir hamingjusamur. Eg vona að frændi þinn hafi ekki verið mjög reiður við þig," ætti hún við.

"Þú ættir að geta farið nærri um það," svaraði Reggie. "Hann var að vísu einstaklega kurteis, en það lét hann mig skilja á sér, að ef eg gengi að eiga Mrs. Dartrell, þá ætlaðist hann svo til, að eignir sínar lentu annarsstaðar en hjá mér."

"Ó, Reggie!" það er óttalegt," hrópaði hún upp yfir sig, "mér þykir fjarskalega fyrir því."

"Það er ekki álitlegt. Finst þér það?" En eg get ekki við því gert. Það er sama sem að eg verði blásnauður lávarður í stað þess að verða forríkur."

Hann tók vindling upp úr vindlingaveski sínu og kveikti í honum. Hann var sannarlega gæflyndur unglingur, því að þrjátíu þúsund dollara fjármissir ári gat ekki raskað rósemi hans nema um stundarkir. Að vísu gat hann ekki annað en hugsað um, það unnusta hans mundi segja, þegar hún heyrði þessi tíðindi. Síðan leit hann á stúlkuna við hlið

hans. Dorothy hafði alt af verið honum fremur eins og systir en frænka. Hann hafði sagt henni leyndarmál sín, hrekkjað hana og sleikt úr henni aftur, en aldrei hafði honum komið til hugar, að honum þætti vænt um hana. En nú um kveldið, þegar þau voru þarna saman, virtist nokkuð öðruvísi ástatt. Hann gat ekki annað en játað það, að hún var mjög falleg stúlka, og hann vissi ekki fyrri til en hann var farinn að jafna þeim saman, Mrs. Dartrell og henni, og ef satt skal segja, græddi Mrs. Dartrell ekki á þeim samanburði. Því varð ekki neitað, að önnur þeirra var hefðarkona úr stórborg, en hin sveitastúlka, saklaus og ósnert af skaðvæni ills umtals og horfandi á lífið fram undan sér með vonglöðu trúnaðartrausti. Hún lagði handlegginn á öxl hans og sagði:

"Reggie, mér þykir fjarskalega fyrir því, að frændi skuli hafa gert þetta. Eg vildi að eg gæti hjálpað þér."

"Eg veit, að þú værir fús til þess, ef þér væri það mögulegt, Dorothy," svaraði hann, "en eg er hræddur um, að það sé ekki hægt. Eg verð einhvern veginn að hafa mig fram úr þessu."

Svo varð þögn aftur, og því næst sagði hún hálf feimnislega:

"Heldurðu að þú reiðist mér, Reggie, ef eg segi dálítið við þig? Það var nokkuð, sem eg heyrði í samtali hjá Quecketts. Það var ekki ætlast til þess að eg heyrði það. George Queckett yngri, þú manst eftir honum, var að tala við mann nokkurn frá

Lundúnum, sem eg held að hafi heitið Mr. Vandeleur."

"Og hvað hafði sá herra um mig að segja?"

"Hann sagði, að þú hefðir tapað öllum eigum þínum, og ef Knight of Malta ynni ekki í þessum árlegu veðreiðum v iðEpsom, þá yrðir þú öreigi."

Hún þagnaði og leit á hann spurnaraugum.

"Eg er hræddur um, að þetta hafi ekki verið fjarri sanni sagt," svaraði Reggie. "Eg hefi verið aumi álfurinn, Dorothy, og eg býst við að eins og aðrir álfar, verði eg að gjalda heimsku minnar. En hver er þetta?"

Vagn var að nálgast og kom frá Suðurhliðshúsunum. Þegar hann kom á brúna sáu þau, að í honum sat aldraður maður, nýrakaður, rjóður í andliti og hvítur fyrir hærum.

"Þetta er Margetson," sagði Dorothy. "Eg vissi, að frændi gerði honum orð að koma."

Gamli lögmaðurinn steig niður úr vagninum og heilsaði kurteislega ungu stúlkunni, sem frammi fyrir honum stóð.

"Hvernig líður yður, Miss Dorothy?" spurði hann. "Það er annars óþarfi að vera að spyrja að því, af því að andlitið á yður ber þess ljósan vott, að yður líður ágætlega. Gott kveld, Mr. Reginald, eg vona að frænda yðar líði engu ver en áður?"

"Hann virðist jafnvel vera betri," svaraði Reggie. "Eg sá hann fyrir hálfri klukkustund."

Síðan gengu þau stundarkorn framan við kastalann, en svo var kallað á lögmanninn til að fara inn

til sjúka mannsins. Eftir svo sem hálfa klukkustund kom hann aftur og var þá mjög alvarlegur á svip.

"Má eg fá að tala við yður fáein orð, Mr. Reginald " spurði hann.

"Já,. sjálfsagt, við skulum koma inn í *billiard*-stofuna. Þar verður okkur ekki gert ónæði."

"Sjálfsagt inn í billiard-stofuna,' svaraði hinn og fór inn þangað á undan Reggie.

"Eg vona að þér vitið, hvers vegna eg er hingað kominn?" spurði hann.

"Frændi minn minntist á það, við mig, að hann hefði sent eftir yður," svaraði Reggie, "og þó að hann væri ekki margorður um það, skildist mér ekki betur, en hann hefði ætlað að breyta erfðaskrá sinni."

Lögmaðurinn kinkaði kolli.

"Já, það er satt," svaraði hann. "Og mér er óhætt að bæta því við, að breytingin hefir að ýmsu leyti síður en svo orðið yður í vil."

"Hafið þér heimild til að skýra mér nánara frá því?"

"Já. Eg hefi heyrt, að þér séuð að hugsa um að ganga að eiga konu, sem Dartrell heitir?"

"Rétt er það," svaraði Reggie. "Haldið þér áfram"

"Vitanlega hefir mér ekki veizt sá heiður, að kynnast þeirri konu, en svo virðist, sem frænda yðar geðjist ekki að þessum ráðahag, einhverra orsaka vegna. Eg verð að biðja yður að fyrirgefa bersöglina."

"Já, hann gaf mér það fyllilega í skyn," svaraði

Reggie kuldalega. "Hann gaf mér það í skyn, að eg yrði að kjósa um þessa konu og auð hans. Staðfestir ekki breytingin á erfðaskránni einmitt það?"

"Mér þykir fyrir því að verða að játa það," svaraði lögmaðurinn. "Mér hefir verið falið að semja nýja erfðaskrá, sem sé á þá leið, að ef þér kvænist þessari konu, þá skuli fé greifans skiftast milli Richards frænda yðar og Mrs. Maddison og dóttur hennar, en góðgerðastofnanir fá nokkurn skerf. Eg get ekki með orðum lýst því, hvað mér fellur þetta illa. Eg vona að þér trúið mér þegar eg segi yður, að eg gerði alt, sem í mínu valdi stóð til að hafa frænda yðar ofan af þessu."

"Það var fallega gert af yður, en eg er hræddur um að þér hafið ekki verið búinn að læra að þekkja stálgreifann Weldersham til fullnustu, þrátt fyrir langa viðkynningu, ef þér hafið ímyndað yður, að auðið mundi að fá hann til að breyta fyrirætlunum sínum."

"Mér er vel kunnugt um það, að greifinn er gæddur frámunalega staðföstu lunderni," sagði lögmaðurinn, "svo að mjög torvelt er að fá hann til að hætta við það, sem hann hefir á annað borð ásett sér að gera."

"Og með því að þetta er fastráðið fyrir fult og alt, þá held eg að óþarfi sé að vera að ergja sig lengur yfir því.'

"En kæri Reginald, hafið þér gert yður það fyllilega ljóst, hvað þetta hefir í för með sér fyrir yður? Ef þér takið að erfðum greifanafnbótina af

Waldersham, þá hljótið þér að halda við kastalanum og eignunum. En hafið þér gert yður það ljóst, að það er mjög kostnaðarsamt að halda honum við, og að afurðirnar mundu tæplega nægja til að greiða helminginn af viðhaldskostnaðinum? Það mundi verða ómögulegt fyrir yður að búa hér og halda við byggingunum í borginni, þó að viðhaldi á öllum hinum eignunum sé slept, nema að þér hefðuð að minsta kosti tuttugu þúsund punda tekjur á ári. Eg býst við að þér hafið hugsað um það?"

"Þvert á móti. Eg hefi aldrei um það hugsað; og það virðist líka vera þýðingarlaust að vera að hugsa um það nú. Meðal annara orða, Margetson, hafið þér ekki heyrt sögur þær, sem ganga um fjárhagsástand mitt?"

Lögmaðurinn fór að hósta ráðaleysislega.

"Eg get ekki neitað því, að eg hefi heyrt einkennilegan ávæning um það," svaraði hann, "og vegna þess tók eg það enn nær mér, sem fyrir kom í dag. Eg og ættingjar mínir hafa þjónað ætt yðar um margar aldir, og eg þarf ekki að taka það fram, að eg væri fús til að ljá yður þjónustu mína. En hvað get eg gert? Ef eg mætti bera upp fyrir yður eina spurningu, án þess að þurfa að vera hræddur um að móðga yður, þá mundi mér verða stórum hughægra."

"Berið upp fyrir mig hvaða spurningu, sem yður sýnist, kæri Margetson," sagði Reggie. "Við höfum þekst svo lengi, að eg veit að þér viljið mér ekki annað en alt hið bezta."

"Mér þykir vænt um, að þér skulið líta á þetta þessum augum," svaraði gamli maðurinn, "eg vil yður líka alt hið bezta, og vildi gjarnan geta sýnt yður það í verkinu." Hann þagnaði ofurlítið en sagði svo: "Mr. Reginald, eg hefi ekki átt kost á þeim heiðri að kynnast Mrs Dartrell, en þó að eg sé að eins lögmaður til sveita, þá hefi eg heyrt einkennilegar sögur um hana. Eg—"

"Eg ætla að eins að biðja yður að muna eftir því, Margetson, að eg hefi fastráðið að hún skuli verða konan mín."

"Ef svo er, þá skulu varir mínar vera sem innsiglaðar. Það er margt, margt, sem amar að í þessum heimi."

Reggie fanst þetta tæplega geta talist til hamingjuóska, en hann hafði samt ekki orð á því. Hann vissi að Margetson vildi honum vel, en þó gat hann ekki neitað því, að honum virtist því eins og vera hvíslað að sér, að Margetson hefði ekki allskostar rangt fyrir sér. Ýmislegt í framferði Stellu bæði í Lundúnum og á skipaferðum eftir fljótinu, virtist sanna það og honum fanst eitthvað óviðfeldið að hugsa um ástaratlot hennar, fremur djarfleg en feimniskend, í þessum forna kastala, þar sem alt bar vott um frægð fortíðarinnar, eða að hugsa um fallegu beru handleggina á henni og ilminn af óteljandi reyktum vindlingum — honum lá við að fá ógleði við þá tilhugsun.

Margetson stóð upp.

"Eg er að fara, sagði hann.

"Viljið þér ekki bíða við, og borða með okkur?" spurði Reggie fremur til að segja eitthvað heldur en að hann langaði til að hafa lögmanninn hjá sér.

"Nei, þakka yður fyrir," svaraði hinn. "Eg hefi alvarleg störf að leysa af hendi, sem eg verð að koma í verk áður en eg sofna í kveld."

Reggie brosti . Hann þóttist geta farið nærri um hvað það væri. Síðan fylgdi hann honum til dyranna, þar sem vagn hans beið fyrir utan. Þeir tókust í hendur og gamli lögmaðurinn steig upp í vagninn. Þegar hann var lagður af stað fór Reggie upp til snæðings, og hann var ekki í neitt sérlega góðu skapi eins og við var að búast. Hann haðfi enn ekki haft neina ánægju af því að gerast málsvari Mrs. Dartrell.

Yfir borðum var alt fremur rólegt. Reggie var að reyna að vera skemtilegur, en mistókst það. Mrs. Maddison var að eðlisfari rólynd kona, en Dorothy skrafhreyf; samt var hún einhverra orsaka vegna fremur þögul í þetta skifti. Þegar snæðingi var lokið færðu þau sig yfir í gestasalinn, og þar fóru þau Reggie og Mrs. Maddison að spila *besique,* en Dorothy settist við pianoið og fór að spila ýmislegt eftir Chopin, Mozart, Beethoven og Paderewski.

Klukkan tíu kom læknirinn; og er hann hafði skoðað sjúklinginn vel og vandlega lét hann þess við getið, að hann væri á góðum batavegi.

"Það lítur helzt út fyrir, að honum hafi létt við það, að svifta mig arfi," sagði Reggie við sjálfan sig, þegar hann heyrði þetta. "Það er líklegast að hon-

um fari nú dagbatnandi og að hann komist á fætur aftur."

Daginn eftir var gamli greifinn enn þá betri og nú var engin ástæða fyrir Reggie að dvelja lengur í kastalanum. Áður en hann lagði af stað lét hann spyrja um, hvort hann mundi geta fengið að tala við frænda sinn aftur. Honum var gerður kostur á því, og fór hann þá rakleitt upp í herbergi gamla greifans.

"Góðan daginn," sagði hann þegar hann kom inn í herbergið. "Mér þykir vænt um að heyra að þú sért betri."

"Þakka þér fyrir," svaraði sjúklingurinn. "Þú munt nú vera að leggja af stað til borgarinnar?"

"Já, eg ætla að fara með miðdegislestinni," svaraði Reggie. "En ef eg get gert þér eitthvað til þægðar, þá skal eg hvergi fara."

"Það er fallega sagt af þér. Eg vil samt ekki vera að halda í þig. Þú þarft sjálfsagt víða að koma og marga að hitta í borginni, og ekki vil eg koma í veg fyrir það. Eg ætla að biðja þig að misvirða ekki þó að eg hreyfi enn einu sinni málefni, sem er viðkvæmt fyrir okkur báða. Hvenær á brúðkaup þitt að fara fram?"

"Það hefir ekkert verið fastráðið enn því viðvíkjandi," svaraði hinn.

"Eg býst við að það sé að miklu leyti undir því komið hvernig hesti þínum tekst við veðreiðarnar í næstu viku?"

"Já, það verður að *miklu leyti* undir því komið,"

svaraði ungi maðurinn.

"Hafðirðu ekki tal af Margetson í gærkveldi?"

"Jú."

"Og hann fullvissaði þig á ný um ásetning minn?"

"Já."

"Og þér hlýtur að vera orðið það kunnugt, að eg fell aldrei frá áformum mínum?"

"Já, mér er kunnugt um það."

"Jæja, þá ætla eg að kveðja þig. Eg get ekki óskað eftir því að hesturinn þinn vinni. Ef öðruvísi hefði á staðið mundi enginn hafa orðið því fegnari heldur en eg."

"Eg get vel trúað því," svaraði Reggie. "Og nú ætla eg að kveðja þig. Eg var búinn að lofa því, að eg skyldi ekki ónáða þig lengi. Eg ætla að eins að geta þess, að eg mun alt af vera þér þakklátur fyrir velvild þá, sem þú hefir sýnt mér, og það án þess að taka nokkuð til greina fé það, sem þú varst að hugsa um að arfleiða mig að."

Ofurlitla stund horfði gamli maðurinn á frænda sinn mjög blíðlega. Þeir tóku saman höndum þegjandi og því næst gekk Reggie yfir að dyrunum. Hann hafði kvatt Mrs. Maddison í ganginum fyrir framan svefnherbergi frænda síns. Dorothy beið hans í forbyrginu fyrir neðan breiða riðið. Hún var yndislega kvenleg þar sem hún stóð í hvíta sumarbúningnum sínum upp við dökkan eikarvegginn.

"Vertu sæll, Reggie," sagði hún og rétti honum höndina. "Ef við sjáumst ekki aftur áður en veð-

reiðarnar verða, þá óska eg þér til hamingju með þær."

"Þakka þér fyrir, Dorothy," sagði hann. "Eg er viss um, að hamingjuóskir þínar gera það að verkum, að Knight vinnur, og það vafalaust."

Síðan gengu þau fram að dyrunum og út. Hann steig upp í léttivagn sinn og ók hart niður akbrautina. Þegar hann fór yfir brúna leit hann við og sá þá ungu stúlkuna standa kyrra í sömu sporum og horfa á eftir sér. Hún veifaði til hans hvítum vasaklút og hvarf svo rétt á eftir. Og þó undarlegt megi virðast, og eg skilji ekki hvað því olli, þá stundi hann þungan og hélt svo leiðar sinnar.

Á leiðinni til borgarinnar reyndi hann að sökkva sér niður í að lesa bréf sín og blöð, en átti örðugt með að festa hugann við það. Það var eins og einkennilega fallegt kvenandlit með sakleysislegum bláum augum kæmi í sífellu fram á milli hans og blaðadálkanna, sem hann var að lesa. Og þó að undarlegt megi virðast var það ekki andlitið á Mrs. Dartrell!



---

## IV. KAPITULI.

Nú voru að eins þrír dagar þangað til veðreiðarnar margumræddu áttu að fara fram, þessar veðreiðar, sem Reggie Sandridge og vinum hans stóðu á svo fjarska miklu.

Carrickfergus var einhver mesti gæðingurinn, sem átti nú að reyna. Hann hafði áður unnið tvö þúsund gínea verðlaun, en næst honum var veðjað mest á Knight of Malta; Whissendine var hryssa, sem nú var komið stórmikið álit á, og Pride of Pit var önnur hryssa, sem talin var mjög líkleg til að vinna verðlaun.

Veðjanirnar voru svo sem hér segir:

| | |
|---|---|
| Carrickfergus.. .. .... .. | 5 á móti 3 |
| Knight of Malta.. ...... .. | 5 á móti 2 |
| Whissendine.... .. .. .. | 7 á móti 1 |
| Pride of Pit.... .. .. .. | 10 á móti 1 |

Reggie hafði rétt nýskeð borist bréf frá Bateson þar sem sagt var, að hestur hans væri í allra ákjósanlegasta ástandi undir veðreiðarnar, og væru allar líkur til að hann mundi vinna.

Frá Weldersham komu þær fréttir, að frændi Reggies væri alt af að hressast. Og Reggie þótti vænt um þær fréttir.

"Hvers vegna ætti eg að bera nokkurn kala til hans?' 'sagði hann við sjálfan sig. "Hann er gamaldags í skoðunum og hann um það, þó að honum geðjist ekki að trúlofun minni." Og svo bætti hann við rétt á eftir og hristi höfuðið: "En eg veit ekki hvernig það fer, ef Knight vinnur ekki."

Þá um kveldið hitti hann Stellu, því að þau höfðu mælt sér mót og riðu þau saman um listigarð nokkurn. Á því ferðalagi varð hann ýmislegs vísari. Reggie hafði að vísu orðið þess var að vinir og kunningjar hans höfðu sýnt honum alt annað atlæti eftir

að hann trúlofaðist, heldur en áður. Fallegar giftar konur, sem fám dögum áður höfðu kepst við að draga eftirtekt hans að sér, horfðu nú í aðra átt þegar þær sáu til ferða hans. Ungar og fríðar stúlkur, sem áður höfðu feginsamlega tekið umsjá hans við skemtanir, köstuðu nú kuldalega á hann kveðju eins og þær vildu segja: "Við þektum þig einu sinni, en nú hefir þú tekið þessa kerlingarálft fram yfir okkur, svo að nú langar okkur ekki til að halda áfram kunningsskapnum við þig." En Reggie ætlaði sér alls eggi að láta þær sjá, að honum gremdist framkoma þeirra hið minsta. Hann var orðinn talsmaður Stellu, og hann ætlaði sér að halda áfram að vera það hvað sem á gengi. Hvað gerði það honum til, sem fólk kynni að segja um hann? Hann hafði kosið, og ætlaði ekki að breyta til um það kjör. Hann leit framan í unnustu sína. Hún virtist ekki neitt glöð í bragði. Loks komu þau á svæði, þar sem umferð var lítil sem engin. Þar stigu þau af baki og bundu hesta sína, og þegar þau voru sezt niður tók Stella til orða mjög alvarleg á svip og sagði:

"Nú hlýtur þú að sjá, Reggie, hvað kvenfólkinu er illa við mig. Þú mátt vera viss um, að eg tók eftir því, hvernig þær gláptu á okkur og hvískruðu sín á milli þegar við vorum að fara fram hjá. Þær voru að segja: "Þarna fer Reggie Sandridge með konuna, sem kemur honum á kaldan klaka."

"Kæra Stella," sagði hann. "Þú mátt ekki taka þér það nærri, sem fólk kann að segja. Þú ert mikils til of viðkvæm."

"Það mundir þú líka vera, ef þú værir í mínum sporum,' svaraði hún. "Líttu á hvað eg á mikið í húfi, ást þína og allan unað lífs míns. Það mundi svifta mig því ef það þyrði. En eg býð þeim byrginn — bíð þeim öllum byrginn!"

"En hvers vegna heldurðu að fólki sé altaf svo illa við þig?" spurði hann.

"Vegna þess að eg veit það," svaraði hún. "Og trúðu mér, fólki er nú enn ver við mig, eftir að það er orðið hljóðbært, að eg eigi að verða konan þín. Áður höfðu menn horn í síðu minni vegna þess að svo vildi til, að eg var lagleg og af því að eg gekk í augu á karlmönnunum; þar við bætist nú, að eg á að verða kona Reggie Sandridge — væntanlegs greifa af Weldersham; því er sjálfsagt að fjandskapast enn meir gegn mér fyrir það. Þú hlýtur að vita, að það er talið álitlegt að verða konan þín?"

Reggie varð eitthvað órótt við þessa viðræðu. Gat það verið, að Stella hefði tekið honum að eins til þess að öðlast greifafrúar nafnbótina?"

"Hvers vegna heldur þú að það sé svo alitlegt að giftast mér?" spurði hann .

"Sjálfs þín vegna," svaraði hún. "Eg hefi að minsta kosti alt af heyrt þetta. En láttu þér ekki detta í hug að eg taki tillit til þess. Alls ekki. Eg mundi elska þig eins innilega þó að þú værir jarðyrkjupiltur!"

Hann þagði stundarkorn og sagði svo:

"Stella, eg hafði ætlað að segja þér nokkuð þegar eg kom frá Weldersham, en eg gleymdi því aftur."

Hún leit kvíðandi framan í hann. Af reynslunni hafði hún lært það, að launungarmálum fylgja vandræði. Þess vegna vaknaði hjá henni óþægileg grunsemd.

"Hvað er það, sem þú ætlaðir að segja mér?" spurði hún.

"Eins og þú veizt, þá fór eg til Weldersham um daginn af því að frændi minn var veikur og vildi fá að tala við mig."

Hún kinkaði kolli og strauk svipunni um makkann á hesti sínum.

"Jæja, mér fanst helzt á honum, að 'ann ekki vera sem ánægðastur yfir atferli mínu nú upp á síðkastið. Hann var mjög bituryrtur — og — já, í stuttu máli; hann gerði mig arflausan. Vitanlega hlýt eg greifa nafnbótina og landeignirnar, en allar eigur hans lenda til annara, en án þeirra verður kastalanum og landeignunum ekki haldið við."

Á meðan hann var að tala hafði andlitið á Stellu orðið öskugrátt og virtist sem hún ætti erfitt um andardrátt, og þegar hún tók til máls fann Reggie að rödd hennar var mikið breytt.

"Eg hugsa að eg skilji þetta," sagði hún. "Hann hefir gert þetta vegna þess, að hann hefir heyrt um trúlofun okkar. Honum geðjast ekki að henni, og hann er að sýna það í verkinu með því að svifta þig arfinum. Þú sér, að þú getur ekki neitað þessu."

Reggie var eins og milli steins og sleggju. Hann hafði ekki brjóst á því að segja Stellu, að hún

hefði getið rétt til, en vissi ekki hverju hann átti að svara öðru.

"Eg sé það á andlitinu á þér, að grunur minn er á rökum bygður," hélt hún áfram. "Frændi þinn hefir breytt erfðaskrá sinni og gert þig arflausan af því að honum geðjast ekki að mér. Þarna verður annað dæmið upp á almenningsálitið. Æ, það er sorglegt að hafa fæðst í þenna harma-heim! Það væri engu líkara en að eg væri afhrak allra kvenna í Lundúnum, eftir því að dæma hversu með mig er farið. Og hvað sagðir þú?"

"Eg sagði honum, að hann yrði að gera það sem honum sýndist gerlegast. Eg lét hann skilja það á mér, að eg væri búinn að fastráða við mig, hvað eg ætlaði að gera í þessu efni."

"Reggie!" hrópaði hún og sneri sér að honum, "Þetta var drengilega gert af þér. Þessu bjóst eg við af talsmanni mínum, og eg segi þér satt, að þú skalt ekki sjá eftir því. Látum hann arfleiða hvern sem honum sýnist að auð sínum. Við getum komist af án hans. Eg ætla að sýna þeim öllum saman hvernig kona eg ætla að verða þér, og þegar vegur okkar er orðinn sem mestur, ætla eg að hefna mín á þeim. En við erum búin að tala helzt til lengi um þetta óskemtilega efni. Nú skulum við tala um eitthvað, sem gaman er að."

Þau gerðu það, og stigu því næst á bak hestum sínum og hleyptu á harða stökki út um Grosvenor-hliðið og stefndu til Piccadilly. Þegar þau komu að heimili Stellu, stöðvuðu þau hesta sína og Reggie

hjálpaði henni til að stíga af baki. "Þótti unga kvenfólkinu andspænis í strætinu það góð skemtun, það hafði heyrt getið um trúlofun Stellu en aldrei séð unnusta hennar fyrri.

"Ef þú getur ekki komið til miðdegisverðar þá vonast eg til að sjá þig seinna," sagði Stella þegar þau námu staðar á svölunum úti fyrir húsi hennar.

"Eg er hræddur um að mér verði það ómögulegt," svaraði Reggie. "Eins og þú veizt hefi eg lengi dregið það að fara í miðdegisveizlu í Eaton Square, og þangað verð eg að fara í kveld. Ef eg get komið því við að losna þaðan snemma, þá skal eg samt koma."

"Eg vonast eftir að fá að sjá þig. Vertu sæll!"

Reggie kvaddi hana, fékk hestasveini hest hennar og reið síðan hægt til herbergja sinna í Mount stræti.

Miðdegisveizlan í Eaton Square var hátíðleg athöfn með gamla sniðinu. Annað hefi eg ekki um hana að segja. Reggie leiddist þar fram úr öllu hófi og vildi hafa gefið stórfé til að geta sloppið þaðan sem fyrst; en með því að þeir, sem veizluna héldu voru gamlir góðkunningjar hans varð hann að sitja lengur en hann hafði búist við. Klukkan var orðin nærri ellefu þegar hann komst á stað.

" Það er kannske hægt fyrir mig að líta þar inn sem snöggvast," sagði hann við sjálfan sig er hann nam staðar á steinlögðu gangstéttinni frammi fyrir húsinu í Brook stræti. "Eg lofaði henni að koma, ef eg gæti."

Að svo mæltu sté hann upp í léttivagn og bað að aka sér til húss Stellu. Þegar þar kom var honum sagt að Stella væri heima, og bauð brytinn sem hann hitti að máli, ungur maður, honum að koma með sér inn í gestasalinn. Þegar þeir voru á leiðinni upp stigann, heyrðu þeir að verið var að syngja uppi. Þeir þektu karlmannsrödd, rödd Devereux ofursta — en kvenröddin var rödd Stellu. Söngurinn, sem þau voru að syngja, var úr *Geisha* og ef mig minnir rétt, var hann leiðarvísir í því hversu menn ættu að fara að kyssast.

Þegar þeir komu að gestasalnum opnaði brytinn hljóðlega hurðina, og Reggie gekk inn án þess að vekja eftirtekt þeirra, sem fyrir voru. Hann furðaði sig á því, að sjá þar hvorki Mrs. Bennett stallsystur ekkjunnar, eða frænkuna frá Bandaríkjunum.

Hann settist á stór út við opinn gluggann, því að heitt var inni, og beið þess að þau lykju við sönginn. En aldrei hafði hann fundið jafnglögt til þess, hvað honum geðjaðist illa að ofurstanum eins og þá.

"Mjög fallegt," sagði hermaðurinn með mikilli kurteisi, þegar söngurinn var á enda. "Eg held samt að það hafi verið að, að kossarnir hafi ekki heyrst nógu vel!"

"Eg held, að lagið hafi farið ágætlega," sagði Reggie með mestu hægð "Eg bið afsökunar, ef eg hefi gert ykkur ónæði. Það ætlaði eg ekki að gera," mælti hann er þau litu framan í hann, ofurstinn og Stella.

"Hvað er þetta, Reggie?" sagði Stella. "Eg átti

enga von á því að þú værir hér inni. Þú hefir hlotið að læðast hingað eins og köttur."

"Eg vona, að eg hafi ekki spilt söngnum," svaraði hann með uppgerðar hlátri. "Eruð þið ekki til með að syngja eitthvað annað?" spurði hann. "Raddir ykkar ofurstans samhljóma svo einstaklega vel."

En Stella vildi ekki heyra það nefnt. Hún kvaðst vera svo þreytt, að sér væri ómögulegt að syngja eða spila nokkuð meira.

"Eina hljóðfærið, sem syngjandi er með er *guitar*," sagði ofurstinn, "en nú heyra menn sjaldan guitarspil hér á Englandi á þessum dögum. Æ, það er munur að yndislegu kveldunum á Spáni, þegar guitarspilið hljómar um þögul strætin, og fögur ástmey situr innan við gluggaskýluna og hlýðir á hugfangin."

"Og faðirinn bíður við næsta götuhorn með rýting upp í erminni reiðubúinn að reka sex þumlunga langt stálblað inn í skrokkinn á unnustanum þegar hann heldur heimleiðis. Já, eg efast ekki um að rómantíska lífið á Spáni sé ekki útdautt með öllu!"

Ofurstinn hvesti augun á unga manninn. Hann þóttist finna það, að hann hefði dregið dár að sér. Því var hann óvanur og þoldi það illa.

Alt í einu bað Stella þá að afsaka sig og fór út úr herberginu. Hún kom aftur eftir litla stund og hafði þá með sér stóran blævæng. Samtalið hófst þá aftur á ný og þau ræddu um daginn og veginn eitthvað í hálfa klukkustund. Þá kom Mrs. Bennett inn og kvaðst nýbúin að skrifa bréf til frænku sinnar í

Ástralíu. Síðan settist hún þar í legubekk og féll í nokkurs konar millisvefns- og vöku ástand, og vaknaði eigi úr þeim dvala fyr en Reggie stóð upp og bjóst að leggja af stað.

"Ef við eigum samleið þá getum við orðið samferða," sagði ofurstinn og stóð upp um leið.

"Já, sjálfsagt," svaraði Reggie þó að hann langaði alls ekki til samfylgdarinnar.

Mrs. Dartrell fylgdi þeim fram í forstofuna.

"Eigum við að ríða út annað kveld?" spurði hún unnusta sinn.

"Já, sjálfsagt, ef þig langar til þess," svaraði hann. "Eg skal koma að sækja þig á venjulegum tíma."

"Eg skal þá vera tilbúin," svaraði hún.

Síðan lögðu þeir báðir á stað.

Þeir gengu hvor við annars hlið eftir þögulu strætinu og sá Reggie eftir því að hann skyldi hafa sent vagn sinn heim. Honum var ekkert um ofurstann og stóð á sama þó að hann kæmist á snoðir um það. En ofurstinn lét það ekki á sig fá. Þegar hann vildi það við hafa gat hann verið svo óhörundssár að ætla hefði mátt að nashyrningshúð væri á honum. Hann reyndi að vera stimamjúkur og alúðlegur, en varð þess skjótt vísari, að það var árangurslaust. Á götuhorninu námu þeir staðar og ofurstinn rétti honum hönd sína. Reggie lét eins og hann sæi það ekki, og fór að stritast við að kveikja í vindli sínum. Þegar hann var búinn að því bauð hann samferðamanni sínum góðar nætur og stikaði á brott.

"Eg treysti þessum manni ekki til nokkurs skapaðs hlutar," sagði Reggie við sjálfan sig á heimleiðinni. "Eg skal jafna um hann, þegar eg er giftur."

Þegar hann kom til herbergja sinna kveldið eftir og ætlaði að fara að hafa fataskifti til útreiðarinnar, fann hann bréf frá Stellu. Það var á þessa leið:

"Elsku vinur minn!

Eg hefi óþolandi höfuðverk í kveld og ætti nú jafn óhægt með að sitja á Satanellu eins og að fljúga í loftinu. Þú verður því að afsaka það, þó að eg geti ekki farið út að ríða með þér. Eg þykist samt vita, að þér þyki það *stórum* miður. En gleymdu því samt ekki, að við eigum að borða saman kveldverð á Carolus í kveld.

Þín ávalt elskandi Stella."

"Eg held annars að réttast væri fyrir mig að fara, hvort sem hún fer eða ekki," sagði Reggie við sjálfan sig. "Eg hefi ekkert sérstakt að gera og eg kann að finna einhvern kunningja minn í lystigarðinum."

Þess vegna steig hann á hest sinn og lagði af stað. Þegar hann kom að hliði lystigarðsins rakst hann á tvo kunningja sína og fylgdist með þeim inn og var þar saman kominn múgur og margmenni, vegna þess að heyrst hafði, að konungsfólkið mundi fara um lystigarðinn þetta kveld. Hvervetna sá Reggie kunnug andlit, og með hrygð í huga sá hann að þeir heilsuðu honum vingjarnlegar nú, en þeir höfðu gert kveldið fyrir.

Alt í einu vakti hópur fólks, sem á undan honum

fór, athygli hans. Það voru þrjár stúlkur og einn karlmaður, og reið karlmaðurinn á bleikum hesti, en það var konan, sem næst honum var, sem Reggie varð starsýnast á.

"Sjálfsagt getur þetta ekki verið," sagði hann við sjálfan sig, "en þó þyrði eg nærri því að sverja, að þetta er vöxtur hennar og höfuðlagið hennar."

Þegar hann kom nær sá hann, að tilgáta hans var rétt. Stúlkan, sem um var að ræða, var engin önnur en Dorothy frænka hans. Maðurinn, sem með henni var, hét George Derrington, og stúlkurnar hinar tvær voru systur hans. Derrington-ættin átti fallegar landeignir skamt frá Weldersham, og faðir systkina þessara var þingmaður héraðsins.

"Ekki bjóst eg við að sjá þig hér," sagði Reggie um leið og hann reið á hlið við þau. "Eg átti enga von á því að þú værir komin til borgarinnar. Þú mintist ekkert á það við mig."

"Eg vissi þá ekki, að eg mundi koma, og hefði líklega hvergi farið, ef Mrs. Derrington hefði ekki boðið mér að dvelja hjá sér veðreiðavikuna. Fyrst var eg á báðum áttum, því að eg var ófús á að yfirgefa frænda minn, en hann vildi ekki annað heyra en að eg færi."

"Og hvernig líður honum?" spurði Reggie. "Eg fékk þær fréttir af honum seinast, að hann væri miklu betri."

"Það má heita svo, að hann sé nú orðinn jafngóður," svaraði stúlkan; "læknirinn er mjög ánægður yfir bata hans."

George Derrington fann nú ástæðu til að dragast aftur úr og lofa þeim frændsystkinum að verða einum sér. Reggie leit á Dorothy með aðdáun. Þegar hann sá hana í fordyrinu á Weldersham kastalanum í hvíta kjólnum, hafði hann kveðið upp þann dóm um hana í huga sér, að hún væri einhver sú fallegasta stúlka, sem hann hefði séð lengi; nú fanst honum hún yndisleg. Hann mintist þess nú með töluverðu stolti, að það var hann, sem hafði kent henni að halda í við hest, og hann gat ekki annað en brosað, þegar hann mintist litla og lubbalega hestsins ,hans Punch, sem hún hafði brúkað fyrst þegar hún var að læra að sitja á hesti.

"En hvað tíminn virðist líða fljótt," sagði hún nærri því með raunasvip. "Manstu nú eftir því þegar mér var leyft í fyrsta sinni að koma á hestbak í lystigarðinum? Punch varð óþægur, því að honum leiddist kenslan og vildi komast heim í hesthús. Það var ljóta stríðið."

"Og eg man fjarska vel, hvað eg var reiður," sagði Reggie. "Eg þvældi honum fram og aftur yfir lækinn. Og þú ætlar að vera hér við veðreiðarnar?"

"Já," svaraði hún glaðlega, "og eg vona að eg fái að sjá Knight of Malta vinna. Sjáðu, Reggie, þarna er Lady Reynsley og hárkollan hennar er enn þá hrikalegri en vanalega. Manstu eftir því þegar við komum saman til dýraveiða hjá Crisply Wood og hesturinn hennar fældist og rakst með hana á tré svo að hárkollan þeyttist af henni? Þú vorkendir aum-

ingja gömlu konunni ekki minstu vitund, en eg gerði það."

"Nei, blessuð Dorothy, hættu við að segja mér þessa sögu, því að þú veltist svo um í hlátri þegar þú sást þetta, að þú varst rétt að segja dottin af baki af Perkin gamla. Við skulum reyna, að láta ekki gömlu frúna sjá okkur, því að annars megum við eiga það víst að hún slæst í för með okkur, og þá heldur fólk að hún sé móðir okkar."

"Eg skal segja mömmu þetta, og lofa þér svo að vita hvað hún segir. Ef nokkur manneskja er til sem hún hefir ógeð á, þá er það Lady Reinsley. Hún sagði það nýlega, að eg hefði ekki eins gott af nokkrum sköpuðum hlut eins og að komast í skóla þar sem mér væri sýnd hæfileg harka, því að framkoma mín væri í fylsta máta ókvenleg. Hvernig lízt þér á "

"Það var rétt eftir henni, kerlingarálftinni. Eg hefi aldrei orðið þess var, að mér væri jafnilla við hana eins og mér er nú."

Þegar hér var komið, hafði fólkið sem á undan var, hvatt sporið og var nú komið góðan kipp á undan þeim.

"Nú skulum við rabba saman í næði og skemta okkur," sagði Reggie. "Það eru mörg ár síðan við höfum tekið tal saman."

Þau slógu í hesta sína og riðu hvatlega spottakorn. Hestur Dorothy hljóp út undan sér, því að hann hafði orðið hræddur við eitthvað, en hún sat hann prýðilega og gat loks stilt hann alveg.

"Bravó!" hrópaði Reggie. "Þetta var snildar-

lega gert, Dorothy, eg sé að leiðbeiningar mínar hafa ekki orðið árangurslausar." Hann litaðist um til að sjá hverjir hefðu horft á þetta, og hrökk þá ofurlítið við, því að hann sá andlitið á Stellu andspænis sér. Og svipurinn á því var ekkert ánægjulegur. Hún hafði riðið á eftir þeim um lystigarðinn og séð hve vingjarnlega og glaðlega þau höfðu ræðst við, og hafði nú í fyrsta sinni frá því að þau trúlofuðust, fundið til reglulegrar afbrýði.

"Nei, ert það þú Stella!" hrópaði Reggie. "Ekki átti eg von á að sjá þig hér. Þú sagðir í bréfi til mín, að þú ætlaðir hvergi að fara í kveld."

"En mér snerist hugur," svaraði hún. "Eg sendi strax með annað bréf til þín, en eg vona að það hafi ekki náð þér fyrst þú fórst hingað."

Röddin var þóttaleg, eins og hún hálft í hvoru grunaði hann um að hafa skelt skolleyrum við óskum hennar, og metið það meira, að ríða með stúlkunni sem nú var með honum.

"Mér þykir leitt, að eg skyldi ekki fá það bréf," sagði hann. "En leyfðu mér nú að gera þig kunnuga frænku minni, Miss Maddison, sem ætlar að dvelja hér í borginni fram yfir veðreiðarnar. Eg hefi oft minst á hana við þig."

Þær hneigðu sig hvor fyrir annari. Síðan sneru þau við hestum sínum og riðu aftur sömu leið eins og þau komu, en voru í mjög ólíku skapi. Stella var ólundarleg, Dorothy óánægð og öll kátinan farin af Reggie. Hann reyndi að gera að gamni sínu til þess að fólk ímyndaði sér ekki að þeim hefði

sinnast. Það er eitt af sameiginlegum einkennum vor á meðal, að vér ímyndum oss að annað fólk sé alt af með augun á oss.

Þegar þau komu að götuhorni einu kvaddi Dorothy þau og bar það fyrir, að hún yrði að fara í hóp samferðafólks síns, og er hún hafði kinkað glaðlega kolli til Stellu reið hún brott. Reggie og Mrs. Dartrell héldu áfram og riðu áfram leiðina sem þau komu.

"Og er þetta frænka þín, sem á heima hjá frænda þínum í Weldersham?" sagði Stella. "Hún er sérstaklega falleg. Fin t þér það ekki?"

"Eg vissi ekki af því fyrri en rétt nýlega,, að hún væri orðin svona falleg stúlka. Eg hafði ekki séð hana um langan tíma, þegar eg fór að finna frænda minn um daginn."

Þetta var óhyggilegt tal og árangurinn af því eins og olíu væri kastað á eld.

"Reggie," sagði Stella loksins, "finst þér það ekki dálítið einkennilegt, að enginn ættingja þinna skuli hafa skrifað okkur og óskað þér til hamingju með trúlofun þína? Eða ef þeir hafa skrifað þér, þá hefir þú ekki sýnt mér bréfin."

Og sannleikurinn var, að enginn af frændfólki hans, annar en Bertram hafði óskað honum til hamingju, og um leið hafði hann krafið hann um tíu punda lán, sem hann átti hjá honum.

"Ó, það hafa fjölda margir óskað mér til hamingju," svaraði hann drýgindalega. "Eg býst við að þú getir sagt hið sama."

"Já, eg hefi fengið hamingjuóskir svo hundruðum skiftir," svaraði hún háðslega. "Allar aðalsmannafrúr á Englandi hafa látið í ljós ánægju sína. Bréf streyma að með hverjum pósti, og helmingurinn af frítíma mínum fer í að svara þessum bréfum."

Reggie vissi ekkert hvaða skilning hann ætti að leggja í atferli hennar. Fám dögum áður hafði hún verið hógværðin sjálf, en síðan að þau trúlofuðust var hún gersamlega breytt.

"Eg er hræddur um, góða mín," sagði hann, "að þú sért meir en lítið lasin í höfðinu enn þá. Heldurðu að það væri ekki bezt fyrir þig að fara heim?"

Hún leit til hans grunsamlega.

"Viltu koma heim með mér?"

"Já, auðvitað, ef þú vilt," svaraði hann. "Hvers vegna ekki?"

"Eg hélt kannske að þú vildir heldur vera hér kyr," svaraði hún. "Það er svo langt síðan þú hefir séð frænku þína, eins og þú sagðir áðan."

"Stella!" hrópaði hann gremjulega, "eg er farinn að halda að þér hafi þótt það, að þú skyldir sjá okkur Dorothy saman. Getur það átt sér stað?"

"Eg kæri mig ekkert um að neita því, að eg sé afbrýðissöm," svaraði hún og horfði beint framan í hann. "Eg verð afbrýðissöm í hvert skifti, sem eg sé stúlku tala við þig. Og það verð eg alt af. Eg vil hafa þig fyrir mig, fyrir mig eina! Og sástu hvernig hún horfði á mig? Slúðurhyskið, sem er að níða mig niður, hefir eitthvað hlotið að segja henni um mig!"

"Það er ekkert að segja, góða mín," sagði Reggie. "Og auk þess þori eg að fullyrða, að Dorothy er of vinveitt mér til að trúa nokkru illu á konu sem eg ætla mér að eiga."

"Að eins vegna þess að eg á að verða konan þín. Það er einmitt þetta, sem eg set fyrir mig. Hún mundi trúa því, ef eg ætti að halda áfram að vera Mrs. Dartrell. Sérðu það ekki? En af því að þú hefir kosið mig fyrir konuefni handa þér, þá er hún fús á að bera fult traust til mín."

"Hún veit, að eg mundi ekki hafa kosið þig mér fyrir konu, nema þú værir mér samboðin."

Hún svaraði engu, og þau riðu áfram spottakorn þegjandi, fóru síðan út um Grosvenor-hliðið og riðu sem leið liggur að Brook stræti og þar afhenti hann hestasveini Stellu hest sinn. Hjá brytanum fréttu þau að Mrs. Bennett og Bandaríkja-frænkan væru úti að kaupa ýmislegt í búðunum og þótti Reggie það stórum miður.

Þegar þau komu inn í borðsalinn var búið að bera á borð fyrir þau miðaftans-teið. Stella var í þungu skapi og Reggie bjóst við að hún færi að gráta á hverri stundu. Hún skenkti Reggie bolla af te og bauð honum síðan að ná sjálfum í ýmsar kökutegundir með því. Hann þóktist gerla sjá, að hún þjáðist af miklu hugstríði. Það gat ekki lengi dregist að hún misti taumhald á tilfinningum sínum. Og litlu síðar stóð hún upp af stólnum, sem hún sat á, lagði sér á hnén frammi fyrir honum og greip utan um hendurnar á honum.

"Elskan mín!" hrópaði hún innilega, "þú hlýtur að sjá hvað eg á bágt. Eg hefi verið svo einmanaleg, og þetta hefir þreytt mig svo fjarskalega. Fyrirgefðu mêr, Reggie, ó Reggie, fyrirgefðu mér. Eg ætlaði ekki að gera þér gramt í geði."

"Eg hefi ekkert að fyrirgefa," svaraði hann og komst við af innileiknum í rödd hennar. "En mér fellur þungt að sjá þig í svona skapi. Eg man aldrei eftir, að eg sæi liggja svona illa á þér áður en við trúlofuðumst. Ertu ekki ánægð? Segðu mér eins og er."

"Eg er ánægð, meðan þú elskar mig," svaraði hún. "Ef eg héldi að þú gerðir það ekki, þá held eg að eg mundi fyrirfara mér undir eins. Þú hefir enga hugmynd um hvers virði þú ert mér. En þú verður að elska mig af öllu hjarta og allri sálu þinni. Þú mátt aldrei hugsa um nokkra aðra stúlku, eða gera mig afbrýðissama. Með því einu móti get eg haldið áfram að vera með réttu eðli."

Hún fól andlitið í höndum sér og fór að hágráta. Reggie, gerði alt sem hann gat til að hugga hana, en góð stund leið áður en það hepnaðist.

"Nú sérðu bezt, hvað eg er barnaleg,' sagði hún og stóð á fætur. "Nú verð eg að fara inn í herbergi mitt og þvo á mér augun, því að annars heldur Mrs. Bennett að við höfum verið að þrátta eitthvað."

Meðan hún var burtu var Reggie að hugsa um atferli hennar. Síðan lauk hann af kökudiski með þeirri matarlyst, sem þeir einir geta haft, er aldrei hefir dottið í hug ólag á meltingunni. Síðan drakk

hann fullan bolla af sterku tei og gekk því næst út að glugganum.

Þaðan sá hann tvo strákhnokka vera að berjast út af ofur litilli flyksu af *banana-hýði*, og því næst varð honum litið á lubbalegan mann líkastan hestasveini, sem slangraði fram með gangstéttinni og nam staðar við luktarstaur skamt þar frá.. Innan skamms voru götudyrnar, sem hann stóð framan við, opnaðar og brytinn kom út. Hann litaðist um á strætinu til beggja handa, gekk síðan til hestasveinsins hjá luktarstaurnum og fór að tala við hann með mikilli ákefð. Litlu síðar afhenti brytinn honum peninga, og að því búnu lagði hestasveinninn af stað og hélt í alt aðra átt en hann hafði farið. Reggie var að furða sig á hvað þetta ætti að þýða, þegar Stella kom aftur, eftir hálfrar klukkustundar burtuver.u Hann var mjög ánægður af að sjá að hún sýndist nú rétt eins og hún átti að sér, og þegar hún kom inn vafði hún handleggjunum um hálsinn á honum og kysti hann.

"Reyndu að fyrirgefa mér, Reggie, hvað eg er þreytandi," sagði hún. "Eg var svo dæmalaust hrygg og óstilt. Það skal ekki koma fyrir aftur."

Reggie kysti hana aftur, og leiddi hana því næst að stóli við borðið. Það var undrunarsvipur eða jafnvel hryllingarsvipur á andlitinu á honum. Hann reyndi að vera eins og hann átti að sér, en honum tókst það ekki. Honum vafðist tunga um tönn. En um Stellu var alt öðru máli að gegna. Alt hennar forna fjör var nú komið aftur, og hún hló

nú og gaspraði eins og léttúðugur unglingur. Hún ámælti elskhuga sínum fyrir hvað hann væri daufur, lofaði honum öllu fögru í framtíðinni og var nú jafn ólík konunni, sem rétt áður hafði kropið fyrir honum grátbænandi um fyrirgefningu, eins og ljósið er ólíkt myrkrinu.

Svo sem áður var sagt höfðu þau fastráðið að borða á Carolus veitingahúsinu síðar um kveldið og því næst að fara í Folley leikhúsið. Þegar Reggie kom á veitingahúsið tveim stundum síðar, rétti ráðsmaðurinn honum bréf nokkurt. Það var frá Stellu, og sagði hún, að hún hefði fengið höfuðverkinn aftur og þess vegna gæti hún ekki komið til Carolus gistihússins, en að hún mundi hitta hann seinna um kveldið í leikhúsinu. Hann snæddi og fór síðan til leikhússins, og sá þá að Stella hafði ekki þar komið. Hann beið því í fordyrinu. Fimm mínútum áður en leikurinn byrjaði var vagni hennar ekið að leikhúsinu.

"Mér þótti leiðinlegt að þú skyldir ekki geta komið til kveldverðar," sagði hann um leið og hann hjálpaði henni ofan úr vagninum. "Eg vona, að þú sért betri?"

"Miklu betri," svaraði hún. "Miklu betri."

Hann leiddi hana inn í leikhúsið eftir gangi lögðum mjúkum ábreiðum og að dyrum á stúku sem hann hafði beðið um. Hún hné niður í sæti sitt og stundi þungan eins og hún hefði dauðþreyzt á því að ganga þangað inn utan frá vagninum. Hún lokaði augunum sem snöggvast og Reggie horfði á

hana kvíðafullur; honum datt ekki annað í hug en það mundi líða yfir hana.

"Líður þér illa, góða " spurði hann.

"Nei, nei! Mér líður vel," svaraði hún. "Eg er bara þreytt, fjarska þreytt."

Til allrar hamingju voru slökt ljósin rétt í þessu og tjaldið var dregið upp. Stella opnaði augun og horfði upp á leiksviðið eins og hún væri í óvissu um hvað þar fór fram.

Eg er sannfærður um, að það hefði orðið erfitt fyrir Reggi að segja frá því þegar leiknum var lokið, um hvað hann hefði verið. Hann fylgdi Stellu heim; neitaði að fara inn með henni og bar það fyrir, að orðið væri of framorðið, en bauð henni góða nótt á steintröðinni framan við hús hennar og gekk heimleiðis til Mount strætis.

Sá illi grunur, sem vaknað hafði hjá honum kveldið fyrir, var að ágerast. Guð hjálpi honum. Hvað átti hann að gera?

Arnljótur B. Olson

## V. KAPITULI.

Árlegi veðreiðadagurinn við Epsom var runninn upp! Til þess dags höfðu þúsundir manna hlakkað, og jafnvel miljónir. Til þessa dags hlökkuðu allir jafnt, ríkir sem fátækir, háir og lágir. Á þeim degi komu saman veðreiðavinir úr austri og vestri, úr norðri og suðri. Sá dagur skar úr því, hvort

menn fengu fullnæging þess metnaðar, sem þeir höfðu þráð alla æfi sína. Sá dagur skar úr því, hvort langþráðar vonir manna fengu að rætast eða hvort loftkastalarnir hrundu allir niður til grunna eins og blæfeyktar spilaborgir. Þeir sem kunnugir ættu að vera segja að nú sé veðreiðamóðurinn orðinn lítill í Englendingum við það sem áður var, og að eftir að eimlestin var fundin upp hafi horfið ánægjan af að fara ríðandi og akandi til veðreiðanna í Epsom. Öldruð prúðmenni, sem fyrrum óku með háum lúðra þyt til veðreiðanna, ferðast nú þangað í viðhafnarmiklum eimlestarsölum og þykir skömm til breytingarinnar koma. Það er eins og þeir sakni slysahættunnar á leiðinni, ryksins, mælgi ekilsins, spásagna flökkufólksins o. fl., o. fl. En við þykjumst vita fyrir víst, að þetta eru ekkert nema látalæti.

"Æ", sagði Greystairs gamli lávarður og hristi höfuðið þar sem hann sat við einn bogagluggann í klúbbherbergjum sínum og var að gefa ungum manni ofanígjöf, "þið ungu piltarnir vitið ekki hvað lífið er."

Það vildi bróðursonur hans, Marmaduæe Lackless, ekki viðurkenna; hann átti marga veðhlaupahesta, *polo*-hesta, kappsiglingasnekkjur og margt fleira til unaðsbóta og þæginda. En af því að hann þurfti á peningum frænda síns að halda, gætti hann þess vandlega, að móðga hann ekki.

"Hundarnir hlaupa ekki eins vel og hér fyrrum," sagði gamall veiðimaður. "Veðreiðarnar eru

nú orðnar einskis virði," sagði feitur veðreiðamaður á fertugsaldri. "Nú er tíðin alt önnur en þegar eg kom fyrst til Lundúna," sagði gráhærður maður á sjötugsaldri.

En þetta er víst útúrdúr frá efni sögunnar, sem eg var að segja. Eg var að lýsa veðreiðunum við Epsom og þátttöku Reggie Sandridge í þeim.

Dagurinn mikli rann upp, eins ákjósanlegur og frekast hefði mátt vænta. Fyrst um morguninn kom ofurlítill skúr, og bleytti í rykinu á skeiðvellinum og þvoði það af laufblöðunum við girðingarnar svo að sólin gat skinið á þau iðgræn og í allri sinni dýrð. Þrátt fyrir óánægju manna, sem eg mintist fyr á út af því hvernig veðreiðarnar væru orðnar, sóttu nú til þeirra múgur og margmenni; til veðreiðastaðarins komu menn á léttivögnum, almenningsvögnum, bifreiðum, reiðhjólum og hverju því flutningsfæri, sem nöfnum tjá'r að nefna, og fólksfjöldinn var afarmikill, ef til vill ennþá fleiri en við veðreiðarnar ári áður, eins og sagt var í blöðunum næsta dag. Karlmennirnir sem veðjað höfðu, stóðu í hópum. Þar var Jack Gates frá Birmingham, er aldrei veðjaði, nema þegar hann þóttist vera viss um að vinna; þar var gamli Ned Sykes frá Sheffield, sem alt af var fús á að leggja út í töluverða áhættu eða vildi láta menn ímynda sér, að hann gerði það, og margir, margir fleiri. Þangað hafði og safnast allskonar flökkulýður og trúðar. Þar voru farandsalar, sem buðu varning sinn með háum köllum; þar voru spásagnamenn og konur, fjárhættuspilarar, og hinir ómiss-

andi gosdrykkjasalar hver við sitt borð, með fingurinn á krananum og stautandi "gosdrykki í hitanum."

Reggie hafði ákveðið að fara akandi til Epsom og í för með honum voru Stella, Mrs. Bennett, Bandaríkja frænkan, Stukeley litli, Dorset lávarður og Sir George Welbroke. Eftir tilmælum Stellu þá hafði ekki verið farið með vagninn inn í meðlimakvína, heldur á þægilegan stað við grindurnar þaðan sem sjá mátti alt sem gerðist, án þess þó að mikið bæri á manni.

Á leiðinni til veðreiðastöðvanna fanst Reggie Stella enn þá fegurri en hún hafði verið nokkurn tíma áður. Þau höfðu nú sæst fullum sáttum, þó að Reggie gæti ekki algerlega útrýmt úr huga sínum þeim illa grun, sem komist hafði inn hjá honum, og legið hafði á honum eins og martröð. Þau komu til skeiðvallarins í Epsom í tæka tíð, og þegar búið var að fara með hestana burtu, hjálpuðu karlmennirnir kvenfólkinu að stíga ofan úr vagninum. Þetta var í fyrsta sinni sem Mamie Monson, Bandaríkja frænkan, kom á þenna fræga sögustað, og lét hún mikið yfir því, hvað henni litist þar vel á sig. Mrs. Bennett hefði helzt viljað sitja upp í vagninum kyr, en af því að allir aðrir gerðu það, þá varð hún að fylgja með straumnum. Tvö og tvö gengu þau inn í stúku sína. Reggie var vel þektur, og urðu margir til að spyrja hann um hest hans. Hvernig horfurnar væru með hann? Hvort nokkur hæfa væri fyrir því, að tognað hefði í fætinum á honum? Reggie svaraði þessum spurningum eftir því sem hann vissi bezt, og

sagði að hesturinn væri í bezta standi og kvaðst gera sér miklar vonir um að hann mundi vinna.

Loks rakst Reggie á Bateson. Hann gerði hann kunnugan Stellu og spurði síðan eftir hesti sínum.

"Hann hefir aldrei verið betur fyrir kallaður," svaraði tamningamaðurinn. "Eg hefi ekki betra álit a neinum öðrum hesti, sem nú er um að gera, og varð fyrstur allra hestanna þegar þeir voru reyndir í morgun."

"Og hvað er að segja um Bassage?"

"Hann er hinn vonbezti engu síður en eg," svaraði Bateson. "Við þurfum ekki að efast um að hann geri fyrir okkur það, sem hann getur, og eg skil ekki hvers vegna hann ætti ekki að leggja sig fram því að eg veit ekki betur, en að hann eigi meir en litla fjárupphæð í vændum ef hann vinnur."

"Það þykir mér vænt um að heyra og nú býst eg við að fyrsta veðreiðin fari að byrja."

Þeir gengu nú í sæti sín.

Fyrstu tvær veðreiðarnar fóru fram eins og vanalega með litlum ákafa af áhorfenda hálfu. Gæðingarnir, sem mest álit var á, urðu tíu til tólf hestlengdir á undan hinum. Að því búnu var gefið merki til miðdegisverðar, og rétt á eftir fóru hnífar og gafflar að glamra við diskana og kampavínsflösku tapparnir að skjótast úr flöskuhálsunum með háum smellum. Að snæðingi loknum var farið að snúa sér að skemtunum aftur, sem nú fóru að verða áhrifamiklar. Gæðingar stóðu sér. Á meðal þeirra var

Knight of Malta, og stóð hópur manna utan um hann og voru að dást að honum.

"En hvað hann er fallegur," sagði Stella og augun í henni tindruðu af ánægju. "Það getur ekki átt sér stað, að svona hestur bíði ósigur, Reggie; eg hefi aldrei séð jafn fallegan hest."

Hesturinn átti sannarlega slíkt hrós skilið. Hann lagði kollhúfur og sló glettnislega til þeirra sem aftan við hann stóðu. Það var enginn vafi á því að hann var algerlega með eðli sínu, og ef hann reyndist jafnfljótur eins og hann var fallegur þá mátti ganga að því vísu að hann sigraði.

"Hann er líkur til að hlaupa þangað til hann springur," sagði Welbroke.

"Eg held eg þyrði að hækka veðféð," sagði Dorset lávarður. "Þetta verður merkisdagur fyrir þig, Reggie."

Í þessum svifum bar Belton veðreiðaformanninn að. Reggie hafði einmitt verið að litast um eftir honum.

"Hvað er að frétta, Belton " spurði hinn síðarnefndi.

"Þeir hafa loks veðjað meira á hann en nokkurn hinn. Carrickfergus er orðinn annar í röðinni. Þeim þykir hann heldur þungur."

"Ivað er veðjað á Knight nú orðið?"

"Sex á móti fjórum, og mér þætti ekki mikið þó að á jöfnu fé léki eftir að hestarnir hafa verið leiddir nokkra hringi."

"Þá held eg að þú ættir að hækka veðfé mitt um hundrað pund," sagði Reggie.

"Eg segi sama," sagði Dorset lávarður, og eg hækka mitt veðfé um fimtíu pund,' 'sagði Stella.

Nú var fjórðungur stundar eftir þangað til byrja átti, og hávaðinn umhverfis skeiðvöllinn var orðinn afskaplegur.

"Hvar er Bassage?' 'spurði Bateson reiðulega. "Eg skil ekkert hvað af honum er orðið."

Hann hafði naumast slept orðinu þegar þessi alkunni hestasveinn kom og gekk letilega inn að skeiðvellinum.

.. "Heyrðu Bassage," sagði Reggie og brá honum á eintal, "eg hugsa að hesturinn sé mjög líklegur til að vinna. Hvað heldur þú?"

"Eg er viss um það," svaraði hinn. "Eg vona að það reynist svo að loknum veðreiðunum."

"Þakka þér fyrir óskina; nú er líklega kominn tími til að byrja."

Bassage tróð sér í gegn um mannþröngina, sem var utan um hestinn, snaraðist úr treyjunni og rétti hana að manni, sem á eftir honum kom. Þegar Bassage var kominn á bak rétti Bateson hestasveininum tauminn og tók hann að teyma hestinn um skeiðvöllinn.

"Viltu ekki gera svo vel og fylgja kvenfólkinu í sæti sín, Dorset?" sagði Reggie. "Eg þarf að bregða mér ofurlítið frá."

Dorset lávarður játaði því og Reggie fór inn á áhorfendapallana til að leita að einhverjum, sem

hann þóttist eiga víst að finna þar. Og honum brást heldur ekki það hugboð.

Derringtonfólkið tók honum fegins hendi.

"Eg vildi óska, að þér yrðuð sigurvegarinn," sagði gamli maðurinn.

"Hesturinn yðar er ljómandi skepna," sagði elzta dóttirin.

"Við höfum veðjað á hann stórfé," sagði elzti sonurinn.

Dorothy var þögul. Hún var fölari en hún átti að sér og mjög áhyggjufull.

"Eg óska þér til hamingju af alhuga, Reggie," sagði hún lágt.

"Þakka þér kærlega fyrir," svaraði Reggie, "og nú verð eg að fara til fólks míns."

Hamingjuóskir kváðu við á eftir honum þegar hann fór.

Þegar hann kom þar að sem samferðafólk hans var, hófst hringleiðing gæðinganna. Rétt í því að hann settist í sæti sitt tóku fallegu gæðingarnir að fara fram hjá, hver á eftir öðrum í skipulegri langfylkingu. Fimtán voru þeir talsins, sem þar voru leiddir fram, en það voru að eins fjórir þeirra, sem áhorfendunum var ant um. Whissendine var leidd fyrst. Hún var móbrún að lit áþekk Knight of Malta, og ljómandi skepna. Þeir sem kunnugir voru vissu, að hún var skaphross, og ekki laus við kergju,
vissu, að hún var skaphross, og ekki laus við kergju,
þó að engum, sem nú sá hana hefði getað dottið það í hug. Á eftir henni komu nokkrir hestar, sem lítill

gaumur var gefinn, og á eftir þeim Carrickfergus, hesturinn, sem mest hafði verið veðjað á fáum mínútum áður. Hann var ekki eins fallegur álits eins og hann var vanur að vera — sýndist hálfskeptur. Næst á eftir honum kom Pride of the Pit, falleg brún hryssa nokkuð langvaxin. Hún hvinaði óróleg og voru augnaskýlur á henni þegar hún var leidd fram. Þá kom Knight of Malta, og kvað þá við ánægjukliður mannfjöldans. Hesturinn bar sig vel og tígulega eins og hann skildi hver heiður honum bar. Hann var og svo léttstígur að hann sýndist naumast snerta jörðina Aldrei þóttust menn hafa séð fallegri hreinkynjaðan hest sporna enska grund.

Þegar Knight var farinn fram hjá voru hestarnir leiddir að markinu þar sem leggja átti af stað. Tíu næstu mínúturnar voru langur biðtími fyrir Reggie og hóp hans; í því að byrjað var að raða hestunum til hlaups kom gömul flökkukona þar að sem Reggie og samferðafólk hans sat, og mælti við Reggie:

"Leyfið mér, göfugi herra, að segja yður forlög yðar; þér eruð svo einstaklega svipfallegur maður."

Hestarnir voru ekki nærri því komnir á réttan stað enn þá, svo að alt sýndist Reggie betra en að bíða auðum höndum.

"Það er yður velkomið, kona góð, komið hingað upp til okkar", sagði Reggie.

Gamla konan klifraði upp hjólið á vagninum, sem þau sátu í og rétti fram höndina eftir hálfri enskri krónu, sem Reggie rétti að henni. Stella og hitt fólkið hallaði sér áfram til að heyra hvað hún væri að

segja . Hún dró silfurpeninginn eftir lófanum á honum, og tók síðan til máls og sagði:

"Þér eruð ungur og góður maður. Eg get séð það án þess að líta í lófann á yður. Eg sé líka að kona ein elskar yður, en yður er ókunnugt um það, en hana munuð þér þó eiga að lokum. En óhöpp skilja ykkur að — djúp vötn og miklar hættur, en hamingjusamur verðið þér að lokum. Þér munuð fá að sjá börn yðar og barnabörn, verða gamall maður og deyja á sóttarsæng, virtur og elskaður af öllum sem til yðar þekkja."

"Að undanteknum óhöppunum og hættunum er þetta ekki svo afleitt, þegar öllu er á botninn hvolft," svaraði Reggie. "En hvað merkja þessi djúpu vötn "

Hún hristi höfuðið. e

"Það er ekki mitt að skýra frá því," svaraði hún. "Þetta er í línunum í lófa yðar og eg segi að eins það sem eg sé."

"Og viljið þér nú segja mér forlög mín?" sagði Stella og rétti henni sömu peningaupphæð og Reggie hafði gefið henni og sagði við unnusta sinn: "Eg verð að komast að raun um hvaða samband er milli æfikjara okkar."

Hún retti spákonunni hönd sína, og beygði hún sig ofan að henni og hugði vandlega að henni um hríð. Hún var svo lengi að skoða hana, að Reggie var hræddur um að hestarnir yrðu roknir af stað áður en hún yrði búin. Loks leit gamla konan upp og framan í Stellu.

"Þér verðið að fyrirgefa mér, frú mín góð,"

mælti hún, "æ flökkukonur geta ekki lesið í lófa yðar."

"Þvættingur!" tautaði Stella gletnislega. "Það er ómögulegt annað, en að þú getir búið til einhverja sögu um mig. Annað er spádómurinn ekki."

"Ó, jú, eg get gert það, frú mín góð," svaraði flökkukonan og leit aftur á hönd hennar. Eftir ofurlitla stund mælti hún "Þér hafið verið giftar og haldið að þér elskið mann í annað sinn. Þér þráið hamingju, en hún flýr yður." Hér þagnaði hún eins og hún væri að leita að einhverju. "Þér fáið hvergi fullan frið nema í hjónabandi, en varið yður á djúpu vötnunum. Nú getur flökkukona ekki sagt meira."

Stella kipti að sér hendinni reiðulega.

"Djúp vötn aftur!" hreytti hún út úr sér. "Ef eg hefði vitað, að þú mundir vera svona óskammfeilin, þá mundi eg ekki hafa eytt hálfri krónu handa þér."

Þó var eitthvað það í svip hennar, sem bar þess vitni, að henni hefðu komið illa ummæli flökkukonunnar, en hún varðist að láta sjá það samt, og Reggie óskaði þess einlæglega með sjálfum sér, að hann hefði aldrei leyft flökkukonunni að koma upp í vagninn. En hrakspá sú, sem Stella hlaut, gleymdist skjótt fyrir þeim gæðum sem Stukeley var heitið. Spákonan sagði honum, að hann ætti að kvongast áður en árið væri á enda, ríkri ekkju, og sýslan hans mundi eflast og aukast. Ennfremur, að hann mundi verða bæjarráðsmaður og líklegast borgarstjóri í Lundúnum.

Flökkukonan litaðist um til að sjá hvort nokkura meiri fjárvon væri þar að fá, en rétt í því var kallað: "Þeir eru komnir af stað", og enginn veitti flökkukonunni frekari eftirtekt, og allir sem í vagninum sátu beindu sjónaukum sínum að skeiðvellinum.

En þetta hafði samt ekki verið rétta byrjunin á veðreiðunum. Einn hesturinn, sem lítið kvað að, hafði hlaupið af stað, og komist góðan kipp af skeiðvellinum áður en þeim, sem á honum sat, tókst að stöðva hann. Síðan skokkaði hann aftur hnarreistur yfir því að hafa tekist að vekja þessa athygli á sér. Í annað og þriðja sinn hljóp þessi sami hestur af stað á röngum tíma og vakti almenna óánægju.

"Þetta er aumi hestskrattinn," sagði Reggie reiðulega. "Ef hann heldur þessu áfram, þá ímynda eg mér að hann trylli Knight, og hver veit þá hvernig kann að fara?"

"Vertu ekki að bera kvíðboga fyrir því, hann mun ekki tryllast," svaraði Dorset og lagði höndina á öxl Reggie. "Vertu nú rólegur fáeinar mínútur og að þeim liðnum muntu fá að leiða hann brott allra manna státnastur yfir honum, sem nú eru á Englandi."

"Eg hugsa að réttast sé fyrir okkur að geyma það að telja ungana þangað til þeir eru skriðnir úr eggjunum," svaraði Reggie. "Það er gamalt máltæki, að enginn geti verið öruggur um sigurvinningu í Ephom veðreiðunum fyr en hesturinn er kominn á skeiðsenda."

Stukeley sat að baki Stellu og hann sá það glögglega að óstyrkur var á höndunum á henni, er hún hélt á sjónauka sínum. Ef hún hefði vitað, á hve miklu það stóð, sem gerðist nokkrum mínútum síðar, þykir mér óvíst að hún hefði haft kjark til að líta í sjónaukann, þó að ekki hefði verið nema svipstund. Æ, sem betur fer, er oss ekki auðið að skynja hvað fram við oss á að koma á ókomnum tíma. Ef oss væri auðið að sjá ókomið mótlæti vort og harma í einhverskonar töfraspegli, þá ímynda eg mér, að fæstir af oss hefðu kjark til að ganga í móti því.

Hávaðinn umhverfis leiksviðið þagnaði snöggvast, hófst aftur, þagnaði á ný rétt áður en lostið var upp þessu ópi margrödduðu: "Þeir eru komnir af stað." Og í þetta skifti var það ekkert gabb.

"Charmer er á undan," sagði Reggie. Goldielocks næstur og Whissendine aftan til við hann á hlið. Knight var fjórði fremstur.

Það var feiknaferð komin á hestana. Þegar þeir nálguðust hæðina var Pride of the Pit kominn á undan og hélt vel sprettinum. Whissendine var næst en Knigt of Malta á hlið við þau. Carrickfergus var í hóp langt á eftir og vonlaust um að hann ynni. Nú hélt Bassage að tími væri kominn til að herða á hesti sínum. Hann gerði það líka og smátt og smátt þokaðist hann fram úr Whissendine. Og rétt á eftir hrópaði mannfjöldinn sem á horfði: "Knight of Malta vinnur!" "Nei! Nei! Whissendine hefir það!" "Knight of Malta vinnur! Bravó fyrir Knight of Malta!" Nú átti han ekki eftir nema

svo sem hundrað yards á markið, og þau Whissendine voru nú hér um bil samsíða, en í þessum svifum náði þeim mexikanskur hestur brúnn að lit og virtist ætla að komast fram úr þeim. Knight of Malta herti þá enn á sér og komst nú svo sem hálfa hestlengd fram fyrir Whissendine.

"Nú er alt búið, þú hefir unnið gamli vinur!" sagði Dorset lávarður og klappaði á öxlina á Reggie. "Eg hefi aldrei verið jafnglaður á æfi minni."

En hann var of bráður á sér, því miður! Enn í dag veit enginn fyrir víst hvernig það atvikaðist; sumir segja að hann hafi stígið sig, en aðrir að hann hafi hnotið um stein, en þau urðu úrslitin, *að Knight of Malta datt svo sem sex hestlengdir frá markinu.*

Þetta gerðist svo algerlega óvænt og með svo sviplegum hætti, að þeir sem á horfðu ætluðu varla að trúa sínum eigin augum. Bassage hentist langan veg af hestinum. Til allrar hamingju var hann nægilega langt á undan til þess að þeir sem á eftir komu gátu sveigt hesta sína fram hjá honum, því að annars hefði hann orðið troðinn undir hestafótum til dauða. Á eftir var lýst yfir því, því að enginn virtist hafa tekið eftir því, að mexikanski hesturinn hefði unnið fyrstu verðlaunin, Whissendine önnur og annar lítt þektur hestur hin þriðju. Í nokkrar sekúndur fetir að slysið vildi til, hreyfði sig enginn sá er í vagninum var, en loks sneri Reggie sér til Stellu og sagði mjög rólega:

"Bíddu hérna, eg verð að fara til að sjá hvað hægt er að gera!"

Hann stökk niður úr vagninum og rauk í gegn um mannþröngina yfir á opna sviðið, sem lögreglan hélt auðu. Læknir var kominn til hestasveinsins og beygði sig ofan að hinum og flýtti Reggie sér þangað.

"Er hann mikið meiddur?" spurði Reggie. "Það er eg, sem átti hestinn."

"Það er ómögulegt að segja, sem stendur," svaraði læknirinn. "Eg ætla að láta flytja hann beint héðan, svo fljótt sem auðið er. Það er verið að sækja sjúkrakörfu handa honum."

Reggie gekk yfir til hestsins. Mennirnir tveir, sem hjá honum stóðu, þektu hann og lyftu höttum sínum.

"Þetta var ljóta tilvikið," sagði annar. "Menn taka sér almennt nærri þetta óhapp yðar."

"Það stendur á minstu, ef hestasveinninn kemur til aftur. Hvað haldið þið að gangi að hestinum?"

"Eg er hræddur um, að annar framfóturinn á honum sé brotinn," svaraði maðurinn. "En dýralæknirinn kemur hingað rétt strax og hann getur sagt okkur hvað að er."

Litlu síðar kom dýralæknirinn. Hann fullyrti að grunur mannsins væri á rökum bygður. Þetta var síðasta veðreið Knight of Malta. Aldrei átti hann aftur að heyra skrjáfið í silkitreyjum hestasveinanna eða hróp æstra áhorfenda. Reggie kraup niður hjá honum og strauk um mjúkan hálsinn á honum.

"Hvað eigum við að gera við hann?" sagði dýralæknirinn. "Eg er hræddur um, að erfitt verði

að færa hann úr stað, og þó það verði gert, er vonlaust um bata."

"Ef svo er, þá er ekki um annað að gera en að stytta kvalastundir aumingja skepnunnar; eg vil ekki að Knight lifi við örkuml."

Reggie beið ekki eftir að sjá Knight of Malta skotinn, en fylgdist með Dorset lávarði til herbergisins þar sem hestasveinninn hafði verið lagður.

Þegar þeir komu þangað lá Bassage enn þá í öngviti, en læknirinn sem stundaði hann, sagði við Reggie:

"Þér þurfið ekki að kvíða hans vegna. Hann hefir fengið ljóta skrokkskjóðu, en er hvergi hættulega meiddur."

"Eg ætla að biðja ykkur að hjúkra honum eins vel og mögulegt er,"

Alt að þessu hafði Reggie haft svo mikið að hugsa bæði um hestinn og manninn ,að hann hafði engan tíma haft til að gera sér fulla grein fyrir sínu eigin fjártjóni. Nú fór það smátt og smátt að ryfjast upp fyrir honum. Honum duldist eigi að nú var hann orðinn algerlega öreigi. Það gat verið, að eftir yrðu svo sem tvö til þrjú hundruð pund, eða rúmlega það, þegar búið væri að greiða allar skuldir, að minsta kosti mundi það verða of lítið til þess að hann gæti haldið áfram að lifa því lífi sem hann hafði lifað að þessu. Og nú var hann að velta því fyrir sér hvað hann ætti að gera.

"Eg hugsa að réttast væri að fara aftur að vagn-

inum," sagði hann við vin sinn, er þeir komu út úr mannþrönginni.

"Það er kannske réttast," svaraði hinn. "Eg er með því að láta beita fyrir vagninn og fara heim."

"Við skulum vita hvað hitt fólkið segir," svaraði Reggie. "Eg kæri mig ekki um að spilla skemtun þess."

En uppástunga Dorsets lávarðar var samþykt umsvifalaust, og þegar þeir komu að vagninum var búið að færa hann úr stað, og verið að beita hestunum fyrir hann.

"Þú hefir látið gera þetta, góða," sagði Reggie við Stellu. "Það var fallega gert af þér."

"Okkur fanst það öllum réttast," svaraði hún. "Við vissum að þér mundi ekki vera um að vera lengur við veðreiðarnar, eftir að þetta hafði gerst. Við skulum reyna að fara héðan sem fyrst. Eg fæ enga ró fyr en við erum komin heim."

Þegar búið var að koma öllu í lag til heimferðarinnar, steig Reggie í vagnsætið og tók í taumana. Önnur veðreið var nú að hefjast, en ekkert þeirra fýsti að bíða eftir að sjá úrslit hennar.

Ferðin heim til Lundúna var mjög ólík ferðinni um morguninn til veðreiðanna. Þá hafði alt þetta fólk verið í bezta skapi og hugsað gott til sigursins, sem það bjóst við að fá í veðreiðunum. Nú var ekki framar um slíkt að ræða, og allir loftkastalar hrundir til grunna. Alt samferðafólkið hafði tapað stórfé í veðreiðum þessum — þar á meðal Mrs. Bennett, sem hafði jafnvel veðjað tíu pundum af sínum litlu tekj-

um á Knight of Mata. Og Stukeley litli þorði naumast heldur að hugsa til ókomna tímans. Hann þurfti marga mánuði til að komast úr skuldum sínum.

"Þetta mega sportsmennirnir eiga á hættu," sagði hann við Sir George Welbrooke. "En nú er ekki um annað að gera, en að bera sig karlmannlega. Aumingja Reggie. Miklir dæmalausir bjánar erum við annars, að vera að veðja stórfé á veðreiðarhesta.'

Og af unga manninum, sem þeir voru að aumkva, er það að segja, að hann keyrði hestana aftur til borgarinnar með gætni og varfærni, sem ágætum hestamönnum er eiginleg, og skyldi enginn, sem ekki vissi um það, hafa getað gert sér það í hugarlund, að nokkuð hefði fyrir hann komið.

Reggie hafði þózt svo viss um sigur í þessum veðreiðum, að ráðgert hafði verið að alt samferðafólk hans skyldi snæða miðdegisverð með honum á víðfrægu veitingahúsi í Regent stræti. Átti þar að gleðjast yfir sigrinum. Dorset lávarður og Stukeley lögðu það til að hætt skyldi við þessa miðdegisveizlu En Reggie vildi ekki heyra það nefnt.

"Eg sé enga ástæðu því til fyrirstöðu að við höldum hópinn í dag," sagði hann. "Við höfum þegar þolað nóg andstreymi í dag og erum því vel að því komin að skemta okkur ofurlítið. Hvað finst þér, Stella?"

"Eg er fús til hvers þess, sem þér getur verið ánægja að," svaraði hún. "Við skulum borða saman miðdegisverð ef þú kærir þig nokkra vitund um það."

Þetta varð því fastráðið. Reggie ók með kvenfólkið heim í Brookstræti og karlmennina til klúbbs þeirra, en fór síðan heim til sín í Mount stræti Þjónn hans er hafði fylgt honum, fór með honum inn í húsið, en hestasveinn tók við hestunum. Þessi þjónn hans var einstaklega húsbónda hollur. Honum var orðið ljóst, hve veðreiðarnar stóðu Reggie á miklu, en hann var of vel siðaður til að segja það berum orðum, en hann lét þó húsbónda sinn skilja það á sér eitthvað einu sinni eða tvisvar, hvað hann tók sér nærri óhapp hans.

"Enginn skyldi hafa trúað því," sagði hann við brytann á næsta lofti síðar um daginn, "að húsbóndanum hefði gengið nokkuð á móti; hann var glaður og kátur eins og hann átti að sér. Hvorugur okkar hefði getað borið annað eins óhapp janvel.

"Svona eru þeir alt af, þessir hreinkynjuðu herrar," svaraði hinn. "Þeir láta það aldrei ásannast, að þeir séu yfirbugaðir. Eg kenni í brjósti um húsbónda þinn, því að hann er einhver sá bezti maður, sem eg hefi kynst Hann hefir alt af eitthvert spaugsyrði á hraðbergi þegar maður mætir honum Ef þú skyldir einhverra hluta vegna fara frá honum, þá mundi eg ekki hugsa mig um að bjóða—"

"Það er óþarfi fyrir þig að vera að gera ráð fyrir því," svaraði hinn reiðulega, "eg hefi nú verið hjá honum í hálft sjöunda ár og faðir minn hjá föður hans. Láttu þér ekki koma neitt slíkt í hug, mundu það!"

Það kann vel að vera, að sumir lesendur mínir

séu mér ekki sammála, en eg _gg samt að eg haldi engu fram nema því sem satt er, þó að eg segi, að heimurinn mundi verða vistlegri og ánægjulegri bústaður mannanna, ef þeir þjónar væru nokkru fleiri, sem væru jafn húsbóndahollir eins og þessi þjónn Reggies var.

Miðdegisverðarveizlan tókst betur en við hafði verið búist. Gestirnir keptust hver við annan að auka gleðina og árangurinn varð sá, að skemtun varð betri en vant hafði verið. Að eins eitt atvik kom fyrir, sem varpaði skugga á gleði manna. Þegar verið var að bera fram ísrjómann kom einn þjónninn inn með bréf á diski og rétti það að Reggie Hann leit á utanáskriftina, þekti hana og lagði bréfið hjá diski sínum. Bréfið var frá Dorothy.

"Hver kom með þetta?" spurði hann

"Það kom frá herbergjum yðar," svaraði maðurinn.

"Gerðu svo vel og opnaðu það,' sagði Stella.

Reggie gerði það. Bréfið var á þessa leið:

"Kæri Reggie!

Eg get ekki með orðum lýst því hvað eg tek mér nærri óhapp þitt í gær. Það var hryggilegt að vera sjónarvottur að því og eg get vel ímyndað mér hve mikil raun þetta hefir hlotið að vera fyrir þig. Eg vona að hestasveinninn sé ekki mikið meiddur.

Með innilegri hluttekningu er eg þín elskandi frænka. Dorothy Maddison."

Þegar hann var búinn að lesa bréfið braut hann það aftur saman og stakk því í vasa sinn. Hann tók

eftir því að augu Stellu hvíldu á honum meðan hann var að því. Hann þóttist vita fyrir víst að hún vissi frá hverjum bréfið var og bjóst við að hún færi eitthvað að hefja máls á því. En hún gerði það ekki, heldur hélt áfram að tala við Sir George, er var að segja henni frá háttum nokkurra villimannaþjóðflokka sem hann hafði kynst á ferðum sínum um Meginlandið Myrka.

"Hlustið þið nú á mig," sagði Dorset lávarður, þegar gestirnir voru orðnir einir ser og þjónarnir farnir burtu. "Eg ætla að bera upp eina uppástungu. Við vitum það öll, að þessi síðasta vika hefir verið sannkölluð leiðindavika. En eins og þið vitið á eg gamla skemtisnekkju, sem heitir *Wandering Minstrel.*"

"Já, og vitum, að það er allra skemtilegasta skip," sagði Stukeley litli, er hafði átt marga góða stund úti á þessu skipi og hlakkaði til að ferðast á því á ný.

"Skipið liggur nú í Southampton og bíður mín þar. Það er gott farþegarými þar fyrir tólf manns, og enda fimtán, ef á þyrfti að halda. Hvað segið þið nú um að hrista af ykkur óhapparykið eftir síðustu vikuna með því að sigla ofurlítið við Englandsströnd á skipi mínu næstu viku? Við gætum farið til Dieppe — þaðan til Cherbourg og eyjanna í sundinu og heim aftur með fram suðurströndinni."

"Þetta er alls ekki slæm uppástunga," sagði Sir George Welbrooke glaðlega. "Hvað finst yður, Mrs. Dartrell?"

"Mér þætti ekki nema gaman að því," svaraði hún. "Eg er alt af fús á að fara í skemtiferðir á sjó."

Hitt kvenfólkið tók sömuleiðis mjög vel undir þetta, sérstaklega Bandaríkja frænkan. Stukeley litli kvaðst einkar fús á að vera með í förinni, ef hann fengi leyfi til þess hjá yfirmönnum sínum.

"Þeir verða fegnir að losna við þig," svaraði Dorset lávarður. "Þér er það eins kunnugt og mér, að þú gerir alldrei nokkurn skapaðan hlut á skrifstofunni. En þú hefir ekki sagt hvað þér sýnist, Reggie."

"Mér mundi þykja gaman að fara," svaraði hann án alls feginleiks. "Það er þó allt af einhver tilbreyting."

Stella leit til hans áhyggjufull. Hún átti bágt með að skilja hversvegna hann tók þessu svona dauflega, og datt í hug, að bréfið sem hann var nýbúinn að fá ætti einhvern þátt í því.

"Fyrst að svo er, þá tel eg það afráðið að við förum," sagði ungi lávarðurinn. "Ef ykkur er það mögulegt, þá ætla eg biðja ykkur að koma til South ampton á laugardagsmorguninn. Eg ætla að síma skipstjóranum á morgun, og þegar við komum aftur úr þessari ferð vonast eg til að við verðum búin að gleyma síðustu veðreiðunum fyrir fult og alt. Eg er viss um, að við skemtum okkur ágætlega."

"Eg vona að eg verði ekki sjóveik," sagði Mrs. Bennett og stundi við. "Það er ekki nema rétt að taka það fram, að eg er engin sjóhetja."

"Berið engan kvíðboga fyrir því,' 'svaraði Sir George. "Þér verðið vel frísk, sannið þér til."

Klukkan ellefu fóru þau burt úr veitingasalnum og kvöddust á steinstéttinni úti fyrir. Mrs. Bennett og Bandaríkja frænkan óku heim einar sér, en en Rggie fór með Stellu í strætisvagni.

"Kæri Reggie,' 'sagði unnusta hans þegar þau voru orðin ein, "skelfing hefi eg þráð þessa stund. Hvað get eg sagt til þess að létta þér þau miklu vonbrigði, sem þú hefir orðið fyrir, vinur minn?"

"Vertu ekki að taka þér það nærri," svaraði hann hálfkuldalega. "Það er satt, að eg hefi orðið fyrir töluverðum vonbrigðum, en mig langar til að geta gleymt því öllu sem fyrst."

"Heldurðu nú ekki, að það sé samband okkar, sem leiðir yfir þig þessa ógæfu? Eg hefi verið að hugsa um það," sagði Stella og lagði hendur um háls honum. "Eg vona að þú vitir það, að eg er fús að gera fyrir þig hvað sem mér væri mögulegt."

"Já, eg veit það," svaraði hann, "en eins og eg sagði þér rétt áðan, þá skulum við reyna að gleyma þessu, þó ekki væri nema í kvöld."

Svo varð stutt þögn, og tók hún þá utan um hönd hans.

"Reggie,' 'sagði hún, "manstu eftir því þegar við vorum á bátnum á ánni, kveldið góða, þegar eg spurði þig hvort þú vildir lofa mér að hjálpa þér, ef vonir þínar rættust ekki í dag? Viltu lofa mér það nú? Þú getur ekki ímyndað þér hve ósegjanleg ánægja mér væri það, ef eg gæti að einhverju ofur-

litlu leyti stuðlað að því að bæta úr böli sem þér ber að höndum."

"Þú ert góð stúlka, Stella," svaraði hann, "en eg held að þetta síðasta óhapp mitt sé ekki svo mjög ískyggilegt."

"Viltu þá ekki lofa mér að hjálpa þér " spurði hún óþolinmóðlega. "Og hvers vegna?"

"Aðeins vegna þess, að sem stendur er ekki þörf á því," svaraði hann. "Eg er þér jafnþakklátur samt eins og þú hefði lánað mér tíu þúsund pund."

"En ef Dorothy frænka þín hefði boðið þér hjálp sína? Hvað mundir þú þá hafa sagt?"

"Reggie hrökk saman. Hann gerði sér ekki grein fyrir hvers vegna taugar hans komust í æsing við það eitt að heyra nafn Dorothy nefnt. Hann svaraði spurningunni beint.

"Aumingja Dorothy litla," sagði hann. "Hún mundi hafa verið fús til að hjálpa mér eigi síður en þú. En hún á ekkert fé til þess."

Þegar þau komu til heimilis Stellu í Brook stræti bauð Reggie henni góða nótt í forstofunni og fór síðan heim til sín. Á heimleiðinni hvarflaði hugur hans til Dorothy og bréfsins, sem hann hafði fengið frá henni um kveldið. Hann vissi að það sem hún hafði skrifað vart ritað af heilum hug.

"Jæja, jæja," sagði hann við sjálfan sig. "Eg hefi notið lífsins meðan eg gat. Eg býst við að fimm til sex hundruð verði eftir þegar allar skuldir eru greiddar. En hvað verður þá?" Honum duldist ekki að Stella vissi að hann var öreigi. Og honum

datt um leið í hug að segja henni eins og var. Hann hafði gaman að vita, hvað hún mundi segja.

"Hamingjan hjálpi mér," sagði hann við sjálfan sig með óvenjulegri alvöru, "skelfingar ræfill get eg annars verið. Mér er næst að ætla, að það yrði öllum hlutaðeigendum fyrir beztu, ef eg hyrfi að skeiðvellinum—eins og aumingja Knight of Malta. Ef svo færi, þá mundi Dick fá bæði nafnbótina og peningana. Einn hlutur er viss og það er það, að gamli maðurinn mundi ekki geta fengið ástæðu til að gera hann arflausan vegna þess, að hann giftist konu sem "stálgreifinn" gæti verið óánægður með. Og það yrði líklega stór hagur fyrir ættina og landeignirnar."

Af þessum ummælum mátti sjá, að Reggie þekti frænda sinn ekki eins vel og margir aðrir.

Látum okkur nú lítilsháttar virða þann mann fyrir okkur. Þegar hér var komið sat hann í herbergjum sínum í Temple og var að fletta bankabók sinni og harma það, að frænda hans hefði hlotnast svo æskileg lífskjör sem auðið væri, en hann væri sviftur öllum lífsþægindum.

"Það er ekkert líklegra, en að hann hafi unnið fyrstu verðlaun í veðreiðunum við Epsom og sé nú fimtíu þúsund pundum ríkari en hann var í morgun."

Loks stóð hann upp o glét bankabók sína inn í öryggisskápinn í horninu á herberginu.

Alt í einu vaknaði hjá honum löngun til að vita hversu veðreiðarnar hefðu farið. Í þeim erindagerðum fór hann til herbergja kunningja síns, sem var sportsmaður. Þar fékk hann að vita alt hversu farið

hefði. Þá gat enginn efi leikið á því. Þessi Reggie, sem barst svo mikið á sem hann væri konungborinn, þessi Reggie sem hreykti sér up pyfir hann, og kallaði hann Dick, sem hafði boðið honum í miðdegisveizlu, ef veðreiðarnar gengju að óskum — hann var nú orðinn öreigi.

"Nei, hann er ekki algerlega öreigi," sagði Richard við sjálfan sig og stundi við. "Hann fær alt fé frænda síns, og gamli maðurinn liggur nú á banasænginni. Það er eins og hamingjan elti alla nema mig."

Á þessu má sjá hversu ókunnugt honum var um hvernig kringumstæðunum var háttað í raun og veru. Meðan frændi hans var í þessum hugleiðingum hélt Reggie áfram leiðar sinnar heim. Hann reykti góðan vindil, fór svo að hátta og svaf jafn rólega eins og hann hefði verið nýbúinn að vinna hundrað þúsund pund í stað þess að hann hafði tapað nærri því öllum eigum sínum. Það er ekki einskis virði að vera rólegur og kjarkgóður.

Arnfinnur B. Olsen

## VI. KAPITULI.

Lystisnekkja Dorsets lávarðar var eitthvert ásjálegasta skipið, sem flotið hefir á Southampton-víkinni. Hún bar eitthvað um fimm hundruð tonn. Mjög glæsilegur gestasalur var í lystisnekkjunni, tíu loftgóðir svefnklefar og öll voru herbergi skipsins gerð

af hinni mestu snild, og ekkert til sparað að g ra þau sem þægilegust og vistlegust. Skipið hafði i fyrstu verið bygt handa frönskum aðalsmanni ,en svo óheppilega vildi til að þessi aðalsmaður skoraði ritstjóra einn í Parísarborg og hólm, og lauk þeirri hólmgöngu svo, að aðalsmaðurinn féll. Sá er lystisnekkjuna hafði gera látið varð að taka við henni aftur og þannig atvikaðist það, að Dorset lávarður keypti hana.

Regg'e hafði oft ferðast á þessu skipi og var vel kunnugur öllluf skipshafnarmönnum.

Það var sannarlega glaðlegur hópur, sem safnaðist saman á Waterloo stöðvarpallinum laugardagskveldið næsta á eftir slysið í veðreiðunum við Epsom. Stukeley litli var sá eini, sem efamál var um hvort að gæti komið, en þegar sá herra kom stikandi fram á stöðvarpallinn í glæsilegum veiðimannafatnaði, var ekki um það að villast, að hann hafði fengið fararleyfi.

"Eg má vera að heiman þangað til á fimtudagsinn kemur," sagði hann, "en ekki klukkustund lengur. Eg verð þá að fá að komast í land, hvað sem tautar. Það er mesta skömm til þess að vita hve mikið við erum látnir vinna, og það einmitt nú þegar eg finn að mér væri bráðnauðsynlegt að hressa mig í sjóloftinu. Hvar er Dorset?"

"Hann fór út í skipið í gærkveldi,' 'svaraði Welbrooke. "Hann ætlar að vera þar fyrir og taka í móti okkur."

Og Dorset lávarður lét ekkert tilsparað að taka

vel á móti kunningjum sínum og hafði þegar gert allar nauðsynlegar ráðstafanir til þess. Skrautvagn beið eftir þeim og var ferðin ofan til skips hin skemtilegasta. Skipseigandi var fyrir þegar gestirnir komu að lystisnekkjunni, og sagði þeim að ýmsir kunningjar væru þegar komnir út í skipið.

"Mrs. og Miss Cranleigh og Devereaux ofursti ætla að verða okkur samferða," sagði Dorset lávarður.

"Svo " sagði Stella. "En hvað það verður gaman."

En satt að segja var enginn gleðiblær á rödd hennar.

Það var enginn vafi á því, að Stellu þótti sér hafa verið mjög misboðið. Ekki þó vegna þess að ofurstinn yrði samferðamaður þeirra, heldur yfir því að Dorset lávarður skyldi hafa boðið Miss Cranleigh. Henni var það vel minnisstætt að Reggie hafði sýnt þessari ungu stúlku óvenjulega mikla eftirtekt sumarið fyrirfarandi og Stellu langaði nú ekki til þess að þau fengju færi á að ryfja upp þann kunningsskap.

Og Reggie fann hins vegar vin sinn að máli og spurði hann hvað hefði komið honum til að bjóða Devereaux ofursta.

"Eg gat ekki komist hjá því," svaraði Dorset lávarður. "Hann kom og beiddist þess beinlínis að fá að vera með. En hvað gerir það til. Hann getur verið nógu skemtilegur, þegar hann vill það við hafa,

og það er ekki svo lítilsvirði þegar út á skip er komið."

"Eg gæti trúað því, að hann mundi ræna mann eða jafnvel drepa fyrir fimm punda seðil. Á því sérðu hvaða traust eg ber til hans."

En Stella var óvenjulega broshýr við hermanninn Það er ekki ósennilegt að hana hafi langað til að kveikja ofurlítinn afbrýðisneista í brjósti Reggies. En ef svo hefir verið, þá átti henni ekki að hepnast það.

Ákveðið hafði verið að þau skyldu leggja af stað klukkan þrjú til Dieppe, og halda þaðan suður sundið þegar þeim sýndist. Mrs. Bennett spurði hvort vel væri spáð fyrir fyrsta hluta sjóferðarinnar.

"Sundið er alt spegilslétt," svaraði Dorset lávarður, "þér megið vera óhræddar. Skipið haggast ekki fremur en stofugólfið heima hjá yður í Brooke stræti."

En frúin hristi höfuðið. Hún hafði oft heyrt slíkar fullvissanir og hafði marksinnis brugðist þær, en Bandaríkjafrænkan var hin kátasta. Hún hafði aldrei séð aðra eins lystisnekkju, jafnvel ekki í New York. Frændi hennar Mortimer Cave Dodbridge, sem hún nefndi að minsta kosti einu sinni á hverri klukkustund, átti ekkert þvílíkt skip. Að svo mæltu leit hún niður fyrir sig á borðið við diskröndina sína og sagði:

"En hann er heldur ekki annar eins smekkmaður eins og þér, Dorset lávarður."

Þær Mrs. og Miss Cranleigh litu hvor til annarar þegar hún sagði þetta.

"Vertu varkár, kunningi," sagði Stukeley litli, þegar Dorset og hann voru orðnir einir. "Bandaríkja frænkan er farin að gefa þér hýrt auga og ef þú sérð ekki við henni, þá veiðir hún þig eins og hin veiddi Reggie veslinginn."

"Eg vorkenni Reggie," svaraði lávarðurinn. "Hvernig í dauðanum stendur á því, að hann skyldi fara að trúlofa sig þessum kvenmanni? Eg þyrði að veðja fimm hundruð pundum á móti *halfpenny* um að hann vildi gefa aleigu sína (sem ekki er nú reyndar mikil), til þess að vera laus allra mála við hana. Ímyndarðu þér kannske að hann elski Stellu þó að hún sé fögur?"

"Nei, eg held síður," sagði Stukeley, "og henni er jafnkunnugt um það eins og honum."

"Og því spyr eg aftur, hvers vegna gerði hann þetta þá Reggie er ekki vanur að hlaupa á sig, og mér hefði ekki dottið í hug að hann mundi geta gert annað eins glappaskot eins og þetta."

"En veiztu nema Stella hafi komið því svo fyrir, að honum hafi verið nauðugur einn kostur?" spurði hinn. "Eg hefi heyrt að dæmi séu til slíks þó að eg, sem betur fer, hafi ekki haft af því að segja."

Klukkan var orðin nærri fjögur um kveldið þegar skipið lagði af stað. Á síðustu stundu var gætt að því, að farangur Mrs. Bennett hafði ekki verið fluttur út á skipið. Varð því að senda eftir honum og fór í það fullur klukkutími. Þvínæst var stiginn

dreginn upp og blásið til brottferðar og nú hófst sjóferð, sem öllum raut að verða minnisstæð sem hana fóru.

Mér hefir alt af fundist að hvergi á Englandi væri fallegri landsýn á siglingu en fram undan Southampton. Netley spítalinn, skógivöxnu Hampshire hæðirnar á Isle of Wight, sem sjást í fjarlægð, — alt þetta festist venjulega svo fast í minni ferðamanna er þeir sigla fram hjá, að eigi líður aftur úr minni manns.

Þau mættu gufuskipum og lystisnekkjum, sem voru að halda til hafnar, og loks stóru hafskipi. Það var heitt í veðri um kveldið og alla langaði eftir hafgolu. Eg hugsa, lesari góður, að þú hafir einhverntíma tekið eftir því, hve stuttan tíma þarf til þess að farþegaflokkur skiftist í hópur þegar út á skip er komið. Farþegaflokkurinn, sem hér er um að ræða, hafði ekki verið meir en þrjár stundir úti í skipinu þegar hann fór að greinast í sundur. Mrs. Granleigh, dóttir hennar og Sir George Welbrooke höfðu farið aftur á skipið og sezt þar undir sóltjald og töluðu saman um hitt og þetta. Mrs. Bennett , Bandaríkja frænkan, Stukeley og Devereaux ofursti höfðu hópað sig saman undir stjrónpallinum, en Stella, Reggie og eigandinn uppi á honum. Reggie horfði með mikilli athygli á stóra millilanda gufuskipið, sem fram undan þeim var. Hann þóttist vera viss um, að í farþegagrúanum, sem þetta stóra skip var að flytja til annarlegrar heimsálfu, mundu vera margir, sem álíka raunalega var ástatt fyrir eins og honum

sjálfum. Lítill vafi var á því, að þeir lögðu nú frá feðraheimkynnum sínum, vongóðir um að öðlast auð og metorð í ókunnu landi. Gæti hann ekki gert hið sama? Eins og til svars þessum spurningum hans tók Stella nú til máls og sagði:

"Þegar við erum gift, Reggie, skaltu taka mig með þér í langa sjóferð umhverfis alla jörðina. Við skulum skoða alla afskekta staði og ekki snúa heim aftur fyr en við höfum skoðað allan jarðarhnöttinn svo vel, að við rötum um hann eins og Bond stræti"

Reggie hafði þá rétt í bili gleymst það, að forlög hennar voru svo nátengd honum. Það vissi hann vel að hún var rík, og hann vissi líka að hún mundi vera fús að leyfa honum að njóta auðsins með henni. En hvernig yrði þá ástatt fyrir honum. Hann yrði þá að vera auðmjúkur þjónn auðugrar húsfreyju, sem bæði yrði konan og húsbóndinn. Við þessa hugsun var því líkast sem rekinn væri í hann hnífur. Og hversu margir voru þó ekki þeir kunningjar hans, sem þannig var ástatt fyrir. En svo kom rólyndi hans aftur til sögunnar og hann sannfærðist um, að það væri ekkert vit í að eyða frídögum sínum í að hugsa svo sorglegar hugsanir. Og hann ásetti sér að hugsa sem minst um þetta efni þangað til hann kæmi aftur til Lundúna.

Klukkan hálf sex var sezt að tedrykkju í gestasalnum á skipinu. Bandaríkja frænkan var í bezta skapi og sömuleiðis Mrs. Cranleigh.

"Eg ætla að biðja yður að skenkja teið, Mrs. Dartrell," sagði Dorset lávarður og benti á auðan

stól aftan við tebakkann.

Stella tók því fúslega, því að úr svip hennar virtist mega lesa þetta: "Það stendur engum nær en mér, sem er opinberlega trúlofuð Weldersham greifanum tilvonandi." Að lokinni máltíð stigu þau upp á þilfarið og sáu þá að Southampton var nærri horfin og þau stefndu til Spithead. Spádómur Dorsets lávarðar um að þau fengju logn alla leið átti ekki að rætast. Undir eins og þau komu vel ut á rúmsjó, kom mikill alda svo að lystisnekkjan tók að rugga allmikið og óþægilega, svo að Mrs. Bennett varð að setjast niður á stól, en hafði þó að þessum tíma borið sig allvel og verið að ganga um þilfarið með Dorset lávarði, og eins og Devereaux ofursti komst kuldalega að orði við Stukeley: "Að nú yrði hver stundin síðust fyrir henni uppi á þilfarinu." En nú var Bandaríkja frænkan hin allra kátasta og beiddi nú skipseiganda að fræða sig um ýmislegt. Hann fór með henni upp á stjórnpallinn, sýndi henni símaútbúnaðinn, leiðarsteininn, útskýrði fyrir henni ýmsar sjómensku reglur og margt og margt fleira. Henni gazt mjög vel að skýringum hans og var auðheyrt á henni að hana langaði til að sjóferðin stæði sem allra lengst. Þær Mrs. Bennett og Mrs. Cranleigh voru báðar sjóveikar, sérstaklega hin fyrnefnda og var hún naumast komin inn í svefnklefa sinn þegar hún fleygði sér á rúmið og neitaði að hrærast þaðan. Því hún þóttist hafa gert vel að vera jafnlengi á þilfarinu eins og hún hafði verið. En Stella sagði að ruggið ætti vel við sig og hún gekk um þilfarið ó-

hikað og án þess að skrika fótur, rétt eins og víkingadæturnar til forna.

Það var glatt á hjalla undir borðum um kvöldið þó að snekkjan ruggaði æði mikið og tvær gömlu konurnar vantaði í hópinn.

"Aumingja mamma,' 'sagði Miss Cranleigh, "hana langar a't af til að komast á sjó, en aldrei getur hún þó verið uppi á þilfari óveik nema svo sem þrjár til fjórar klukkustundir. En eg vona að hún nái sér nú aftur, ef hún fengi glas af kampavíni og hveitibrauð í rúmið."

Sjúklingunum var sent vín og hveitikökur og var því tekið þakksamlega, en hvorug gamla konan kom samt upp á þilfar aftur það kveld. Þegar staðið var upp frá borðum var skipið komið langt fram hjá Isle of Wight. Nokkru síðar fór fólk inn í gestasalinn. Þar skemti ofurstinn með því að segja smáskrítlur. Miss Cranleigh las upp mjög áhrifamikla sögu um ást og hernað, Stella söng, Bandaríkjafrænkan lék á hljóðfæri en hitt fólkið klappaði lof í lófa eins og því bar að gera.

Þegar kvenfólkið gekk til hvílu fóru karlmennirnir inn í reykingasalinn og stakk Devereaux ofursti þar upp á að spila. Skipseigandi tók þvert fyrir það. Hann sagði sér væri mikil ánægja að hafa Devereaux í förinni, en hann kvaðst leggja blátt bann fyrir að hann fengi að vinna fé af samferðamönnum sínum. Þeir sátu því kyrrir og röbbuðu saman þangað til klukkan ellefu að þeir tóku á sig náðir.

Þegar farþegarnir vöknuðu morguninn eftir og

litu út um skipsgluggana, sáu þeir að snekkjan var komin til Dieppe. Þar lá hún við atkeri pallstöðug og hreyfðist ekki. Þess vegna gátu sjóveiku konurnar báðar komið til morgunverðar. Þær voru auðvitað nokkuð lúrlegar en kváðust fúsar til að taka þátt í glaðværð unga fólksins. Það var að ráði gert að þær skyldu fara í land og skoða bæinn strax eftir morgunverð, og ef þær hefðu tíma til fara og skoða gamla sögustaðinn Arques. Þetta varð úr og þegar þær komu aftur út á snekkjuna um kveldið léku þær við hvern sinn fingur og þóttust hafa skemt sér prýðilega í Dieppe.

"Þér látið ekki sigla af stað strax, Dorset lávarður," sagði Mrs. Bennett áhyggjufull þegar hún kom upp stigann á skipshliðinni.

"Nei," svaraði hann. "Nú ætlum við að lofa yður að hvílast vel í nótt. Við ætlum að leggja af stað í dögun, svo að við komumst til Tecamp um morgunverðar leyti. Þér getið þess vegna lagt yður rólega til hvíldar."

"Þakka yður fyrir," sagði gamla konan innilega. "Það var óttaleg nótt, sem við áttum síðast."

Þetta kveld virtist skaplyndi Stellu vera að komast í mikið ólag. Hún kvaðst vera þreytt. En það var þó ekki satt sagt. Hún hafði fengið eitt það afbrýðiskast, sem hún átti vanda til. Henni gat ekki liðið það úr minni, að Reggie hafði áður fyrri sýnt Miss Cranleigh vinsamlegt viðmót, og það kveld þóttist hún með vissu vita að hann væri á báðum áttum með að vera sér trúr. Hún hafði vitanlega að

eins verið kurteislega vingjarnlegur við Miss Cranleigh, en Stella miklaði það fyrir sér unz hún misti nærri því alla stjórn á sér. Hana langaði til að koma Reggie í eins aumgvunarvert ástand eins og hún var í sjálf og tók að daðra ósmátt við Devereaux ofursta. Það jók enn meir á gremju hennar, að Reggie virtist ekki taka slíkt neitt nærri sér, og eins og við var að búast var það eins og að kasta olíu í eld skapsmuna hennar. Aldrei hafði Reggie séð hana slíka frá því að hann kyntist henni st. Dorset lávarður og hinir gestirnir sáu atferli hennar ig var því líkast sem þeir sætu við rönd á eldgjá.

"Hvernig í dauðanum stendur á að hún skuli láta svona " sagði Dorset lávarður. "Hefir hún alt í einu mist vit ð Eg vildi óska, að eg hefði aldr- tekið það í mál að Devereaux færi þessa ferð. Af honum stafa öll þessi ósköp."

Enn var svo að sjá, sem Reggie tæki ekkert eftir atferli unnustu sinnar. Það var eins og honum fyndist það ekki nema sjálfsagt, að hún daðraði við ofurstann ef hana langaði til þess. Hann sat því hinn rólegasti og reykti vindil sinn eins og ekkert væri að. Þó að þau Stella hefði ekki verið trúlofuð nema skamman tíma var hann orðinn vanur dutlungum hennar og var ekki farinn að taka þá nærri sér.

"Hvaða gagn er að því að reiðast og gera hávaða?" sagði hann við sjálfan sig. "Það mundi ekki leiða til neins góðs. Eg verð að hvílast svo sem eg hefi um mig búið. Mikill einstakur álfur hefi eg

annars verið," bætti hann við í hálfum hljóðum.

Klukkan tíu kvaðst Stella vera orðin svo þreytt að hún gæti ekki setið lengur uppi á þilfari.

"Eg hefi svo mikinn höfuðverk, að eg þoli ekki við," sagði hún við fólkið. "Það er því að kenna að við höfum verið að skoða þessar ólukku fornmenjar. Það er undarlegt að nokkur skuli hafa gaman af því."

Af því að enginn svaraði, bauð hún fólki góða nótt og bjóst til að ganga til sængur. Reggie stóð á fætur og fylgdi henni eftir. Við dyrnar sneri hún sér við í móti honum og sagði:

"Góða nótt! Vertu ekki að ómaka þig með mér. Eg ra'a dæmalaust vel sjálf. Snúðu attur til vina þinna. Það væri sérplægni af mér að vera að stía þér frá þeim."

"Nei, Stella, mig langar til að koma með þér," svaraði hann "Get eg ekkert gert fyrir þig áður en þú ferð að hátta?"

"Nei, þakka þér fyrir," svaraði hún kuldalega.

"Stella!" sagði Reggie og tók um handlegginn á henni, "þó að eg væri dauður út borinn, þá gæti eg ekki skilið hvernig stendur á atferli þínu í kveld. Eg sé að þú ert reið við mig, en eg veit ekki til að eg hafi gefið nokkurt minsta tilefni til þess."

"Það er svo " svaraði hún. "Þú ert sljóskygnari en eg hélt þú værir. Kannske þér detti það í hug seinna. Þú þarft ekki að fylgja mér lengra. Góða nótt!"

Hún rétti honum jafnvel ekki hondina, en sneri

baki við honum og fór beint inn í svefnklefa sinn. Reggie var í þann vegnn að snúa aftur upp á þilfar, en þá sá hann að gestirnir voru á leiðinni ofan.

"Við hinar konurnar ætlum að fara að dæmi Mrs. Dartrell,' 'sagði Mrs. Cranleigh og rétti honum höndina.

"Við ætlum að hvílast vel í nótt áður en við leggjum af stað aftur."

"Það er rétt," svaraði Reggie. "Eg ímynda mér að við getum ekki betra gert en að fara að dæmi ykkar."

En nú vildi svo til, að Devereaux var sá eini af karlmönnunum, sem strax gekk til hvílu. Má vera, að það hafi verið vegna þess að hann þóttist finna það á sér að eitthvað misjafnt væri í vændum. Stukeley sneri aftur til reykingarsalsins en Reggie og Dorset lávarður gengu afur á skutpall. Báðir voru þeir óvenjulega þögulir. Dorset lávarður tugði endann á vindli sínum í svo miklum ákafa, að auðséð var að honum var mikið niðri fyrir.

"Heyrðu mig, Reggie," sagði hann, "mér er ómögulegt að þola þetta lengur. Eg ætla nú að segja þér meiningu mína."

Maðurinn, sem hann ávarpaði, leit ekki við. Hann horfði stöðugt á fiskiskip, sem lá fimtíu eða sextíu yards frá þeim.

"Um hvað ætlarðu að tala við mig?" spurði hann, eins og annarshugar, því að satt að segja var hann að hugsa um atvik sem hafði komið fyrir við Weldersham kastala.

"Þú munt ekki bera á móti því, að við höfum verið vinir í mörg ár," sagði lávarðurinn.

"Eg skal fúslega játa það„" svaraði Reggie. "Hvað um það?"

"Eg hef alt af litið svo á, að það séu ein af einkaréttindum vinar, að mega tala við vin sinn svo sem manni býr í brjósti."

"Það er alt undir því komið, um hvað á að tala." svaraði Reggie.

"Það er um trúlofun þína, sem eg ætla að tala."

"Þá vil eg mælast til, að þú sleppir því. Það er efni, sem eg vil ekki ræða um."

"En eg verð að gera það. Það er mér meira áhyggjuefni, en eg get frá sagt."

"Eg get ekki skilið í því hvers vegna að þú ert að fá þér það til. Það er sérmál mitt og þér óviðkomandi."

"En þú ert vinur minn. Eins og þú sérð sjálfur hefir það nokkuð að segja."

"Ef um annað væri að ræða, þá hefir það að vísu mikið að segja En að því er þetta atriði snertir get eg ekki séð að það geti komið hið minsta til greina."

"Eg vona þó, að þú sért ekki staðráðinn í því að ætla að lifa héðan af hamingjulausu lífi?"

Nú leit Reggie í fyrsta sinni meðan á þessu samtali stóð framan í vin sinn.

"Eg er hræddur um, að eg geti ekki skilið hvað þú ert að fara," sagði hann. "Hversvegna skyldi eg ætla að fara að lifa hamingjulausu lífi, þó að eg

ætli að ganga að eiga Mrs. Dartrell?"

"Eg get ekki beinlínis sagt þér hversvegna, en þú veizt sjálfur að þau verða úrslitin," svaraði Dosset lávarður. "Mér geðjast ekki að Mrs. Dartrell. Hún er einstaklega fögur kona og góð heim að sækja."

"Eg þakka!"

"Hún er líka vel mentuð og alt þar fram efitr götunum. En eg ætla ekki að skera utan af því sem eg vildi segja, hvort sem þú kant að reiðast af því eða ekki; hún er ekki sú kona, sem þú hefðir átt að kjósa þér."

"Jæja, kunningi," svaraði Reggie; "eg held þá að við verðum að hætta þessu samtali. Þú hlýtur að sjá hvers vegna eg get ekki haldið því áfram. Við skulum aldrei minnast á það framar."

Eftir þessa viðræðu þögðu báðir mennirnir stundarkorn. Dorset lávarður fann að hann hafði verið helzt til berorður, en hinum virtist að harmabyrði sín hafa einhvern veginn þyngst um helming.

"Jimmy!" sagði Reggie við vin sinn, er hann nefndi því gælunafni, "þú ert allra bezta skinn, en þú hleypur á þig stundum. Sannleikurinn er sá, að þú hefir ekki skoðað þetta atriði nógu vandlega. Gakk þú þína götu, en kærðu þig ekki um mig. Mér er óhætt."

"En þú munt sanna það síðar, Reggie, að þarna skjátlaðist þér mikið," svaraði lávarðurinn. "Herra trúr. Skárra er það nú! Að maður skuli ekki mega

segja vini sínum meiningu sína, án þess að hann firtist við."

"Þú ert alt af jafn ósannsýnn, en það gerir minst til," sagði Reggie. "Eg hugsa eg viti hvað það er, sem þú ert að fikra í kringum, en þú getur verið viss um, að eg hefi ekki gengið blindandi út í þetta."

"Eg er ekki í neinum vafa um hvernig þú hefir gengið út í þetta, og kynoka mér ekki við að segja þér það, þó að þú kunnir að reiðast af því. Þú varst veiddur, það er að segja neyddur til að biðja Mrs. Dartrell, og nú ertu svo góður drengur að þú getur ekki fengið af þér að segja henni upp. Hún vill ekki sleppa þér af því að henni þykir vænt um þig, en aðalástæðan sem hún hefir til að vilja eiga þig er það, að hún verður þá lávarðsfrú af Weldersham. Þetta er mergurinn málsins."

"Ef svo er, þá er tilgangslaust að ræða þetta meir," svaraði Reggie. "Eg veit að þú vilt mér vel, kunningi, en eg vil ekki heyra þig brjóta aftur upp á þessu tali."

Dorset lávarður sagði eitthvað á þá leið, að hann skyldi aldrei hætta að tala um þetta, en kvaðst nú ætla að finna skipstjóra snöggvast áður en hann færi að sofa.

Reggie sat hugsandi næstu hálfa klukkustundi og eg hefi ástæðu til að ímynda mér að hann hafi ekki verið sem ánægðastur.

"Einstakur aulabárður hefi eg verið," sagði hann. "Aumingja Dorothy litla! Eg ímynda mér að henni þyki vænt um mig."

Um leið og hann sagði þetta bjóst hann við að fara inn í svefnklefa sinn í þungu skapi.

Þau lögðu af stað frá Dieppe skömmu eftir miðnætti og komu til hins fagra fiskiþorps Fesamp laust fyrir morgunverðartíma. Það voru ekki margir sem sátu að morgunverði í það skifti. Mrs. Cranleigh og Mrs. Bennett kusu heldur að fá morgunverðinn inn í svefnklefa sína, og Stellu var enn ilt í höfði að henni var ómögulegt að fara á fætur. Þessvegna voru þær Ella Cranleigh og Bandaríkjafrænkan þær einu af kvenfólkinu, sem til borðs sátu og þessvegna kom það ekki til mála að fara í land að svostöddu. Veður var hið bezta, en farþegarnir sátu upp á þilfari í næðissömu iðjuleysi. Það var komið fram undir miðdegi þegar konurnar létu sjá sig. Stella varð þeirra þriggja fyrst til að koma upp á þilfarið. Hún var prýðilega vel búin í drifhvítum kjól alsettum kniplingum; hún sýndist nærri því gyðjuleg í þeim búnini, og eigi síður af því að hún var föl mjög og þreytuleg til augnanna. Hún kvaðst hafa átt óttalega nótt, og var það helzt á henni að sjá, að svo hefði verið. Augnaráðið var blíðlegt og látbragð hennar auðmjuklegt og undirgefnisfult, svo að jafnvel þeir sem höfðu reiðst henni fyrir atferli hennar kveldið fyrir gátu nú ekki annað en kent í brjósti um hana.

"Eg er hræddur um, að þér sé enn ilt í höfðinu," sagði Reggie, settist við hlið hennar og tók upp blævæng hennar. "Get eg gert nokkuð fyrir þig?"

"Ekkert nema að fyrirgefa mér," sagði hún með

titrandi vörum, "eg hefi ekki verið með sjálfri mér í nótt af því hvað eg sé eftir að hafa breytt illa vig þig."

"Við skulum ekki minnast á það," sagði hann. "Eg sá það að vísu gerla að þú varst ekki með sjálfri þér og það hrygði mig meir en mér gramdist það. Eg hefði átt að fara öðru vísi að."

"Þetta máttu ekki segja," sagði hún; "eg veit ekki hvað eg á að gera af mér þegar eg heyri þig tala svona. Gerðu það ekki — góði."

"Jæja, ekki vil eg að þú tryggist af því sem eg segi," svaraði hann, "mig langar til að sjá þig aftur eins og þú átt að þér að vera."

Þetta kveld sagði Stella að hún væri öldungis eins og hún ætti að sér og kvaðst vilja fara með þeim í land og skoða ýmsa merka sögustaði frá þrettándu öld. Þegar þau komu aftur út á lystiskipið var eins og öllum væri úr minni liðin óþægindin, sem höfðu komið fyrir kvöldið áður, og Stella brosti og lék við hvern sinn fingur. Þau sátu um kveldið lengi uppi á þilfari, en af því að þau voru þreytt eftir gönguna í landi um daginn var farið að hátta í fyrra lagi.

En það vildi nú einhvern veginn svo til, að Roger var ómögulegt að sofna þetta kveld. Þó að svefnklefinn hans væri búinn öllum hugsanlegum þægindum fanst honum óverandi þar inni fyrir kæfandi [illegible]. Blæjalogn var úti, og honum var í fersku minni samtalið sem þeir höfðu átt Dorset lávarður og hann og hafði oft dottið það í hug um daginn.

Hann hefði mikið viljað gefa til að geta gleymt því alveg.

Lystisnekkjan hafði verið komin af stað þegar hann fór inn í svefnklefa sinn og var svo til ætlast að hún yrði komin til Cherbourg um dagmál. Hann heyrði að skipsklukkan sló átta og síðan eitt og tvö á fyrstu vöku. Loks fanst honum hann mega til að draga að sér hreint loft, því að ómögulegt væri að að haldast við inni í svefnklefanum, og hann einsetti sér að fara upp á þilfar. Hann klæddi sig svo sem honum fanst að þurfa og fór fram í gestasalinn og þaðan upp á þilfar. Það var notalegt að koma út í kveldkulið. Þegar hann var að fara upp káetustigann kom ofurlítil sjóskvetta framan í hann og kældi vinalega á honum kinnina. Hann þerði rólega á sér vangann og fór því næst upp stjórnpallsstigann. Yfirstýrimaður var á verði og heilsaði hann Reggie vingjarnlega þegar hann sá hann koma upp stigann.

"Það er miklu notalegra að vera hér heldur en niðri," sagði Reggie. "Svefnklefarnir eru heitir eins og ofnar í nótt."

"Lofið mér að sækja yður stól," mælti hinn, "eg hefi stól hérna inni í stýrishúsinu."

Hann fór inn að ná í stólinn og þegar hann kom aftur settist Reggie hjá honum við öldustokkinn og tóku þeir tal saman.

"Dorset lávarður hefir sagt, mér, að þér hafið í margar raunir ratað á sjóferðum yðar," sagði Reggie.

"Eg vil ekki bera á móti því," svaraði hinn. "Eg

býst við að fáir hafi lent í einkennilegri æfintýrum á sjó heldur en eg. Eg hefi verið í sjóferðum alla æfi mína, eða síðan eg strauk burt úr skóla þegar eg var á fimtánda árinu. Eg hefi verið á allskonar skipum og býst við að eg hafi stigið fæti á flest lönd jarðarhnattarins. Eg hefi verið fangi Pepper Rajah, var rétt að segja gerður höfði skemri í Dyaks, lá við sjálft að eg væri steiktur lifandi á báli á Salomonseyjum, lenti í skipbroti í Patagoníu, var eini maðurinn, sem komst lífs af þegar skipið William T. Watres rakst upp á grynningar við Nýfundnaland, og var skotinn í herðablaðið og nærri því myrtur þegar skipverjar á Siberian Prince gerðu upphlaup austur í Kínahafi. Samt er eg hingað kominn og er yfirstýrimaður á fimm hundruð tonna lystisnekkju, sem fer skemtiferðir um Englandssund, og ekki dettur mér í hug að finna neitt að slíku né vera óánægður með að eiga lávarðinn fyrir húsbónda."

"Það hlýtur að vera einkennilega skemtilegt þarna suður í höfum,' 'sagði Reggie.

"Ef manni fellur slíkt líf vel á annað borð, þá er ekkert því líkt til," svaraði stýrimaður. "Þægilegt loftslag, heitir réttir af brauðaldinatrjám, viðkunnanlegasta fólk, sem til er í víðri veröld, og sífeld tilbreyting á sjónarsviði, ef maður á skip til að ferðast á."

"Og er þar gott til fjár?"

"Ja, verzlunin í suðurhöfum er ekki orðin eins arðvænleg nú, eins og hún var hér fyrrum, en þó er hægt að græða þar töluvert fé."

"Þetta er býsna álitlegt. Ef eg væri laus og slyppur þá held eg að mig langaði til að reyna hamingjuna þar."

Stýrimaðurinn brosti góðlátlega. Honum fanst það í meira lagi skoplegt að Reginald Sandridge, þessum glaðlynda, vinsæla og vel efnaða unga manni skyldi geta komið til hugar að hætta við að lifa því lífi sem hann hafði vanist og færi að reyna hamingjuna suður í Suðurhafseyjum.

Að hálfri klukkustund liðinni var Reggie búinn með vindilinn sinn og ætlaði þá að fara inn í svefnklefa sinn og halla sér ofurlítið út af. Hann bauð stýrimanninum góðar nætur og fór niður stjórnpallsstigann ofan á þilfarið fyrir neðan og stefndi að káetuganginum. Áður en hann fór ofan nam hann snöggvast staðar og leit út á hafið. Veður var hið ákjósanlegasta, máninn var genginn upp á heiðskíran himininnn og lystisnekkjan klauf öldurnar eins og hún væri lifandi vera. Eftir að hann hafði horft stundarkorn á hafflötinn fór hann niður stigann. Ljós brann í gestasalnum þar niðri eins og vant var. Reggie var rétt í þann veginn að ganga gegnum salin inn að svefnklefa sínum þegar hann varð þess var að hurð var opnuð. Hann litaðist um til að sjá hver það gæti verið, sem væri á ferli um það leyti, og sá þá að hvítklædd vera kom fram í salinn úr einum svefnklefa kvennanna. Hann var ekki lengi í efa um hver þetta væri. Hann þekti skjótt að það var Stella og engin önnur. Hann hirti ekki um að láta hana verða vara við sig, svo að hann dró sig inn í skugg-

ann og veitti henni eftirtekt. Hún stefndi að honum og fór mjög hratt, og steitti hnefana eins og hún væri yfirkomin af hugstríði, en hún þaut þó fram hjá honum, án þess að verða hans vör og upp á þilfarið. Honum leizt ekki á þetta og hljóp á eftir henni. Þegar hún fór fram hjá honum gat hann ekki séð fyrir víst, hvort hún var vakandi eða gekk þetta í svefni. En hvað var hún að fara? Þegar hún kom upp á þilfarið þaut hún aftur eftir skipinu. Um leið og Reggie fór fram hjá svefnklefa Dorset lávarðar, hratt hann upp hurðinni og skoraði a hann að koma sér til hjálpar. Síðan hljóp hann aftur að öldustokknum. En hann varð of seinn. Áður en hann kom þangað hafði Stella klifrað upp á öldustokkinn og með æðisgengnu ópi og án þess að líta um öxl fleygði hún sér fyrir borð. Reggie snaraðist úr treyjunni, stökk upp á öldustokkinn og stakk sér fyrir borð á eftir henni. Hann tók stutt kaf og þegar hann kom upp fór hann að litast um eftir henni. Snekkjan var komin æði langt burtu frá honum, en til Stellu sá hann ekkert. Hann synti fram og aftur, en varð einskis var. Á skólaárum sínum hafði hann fengið orð á sig fyrir það hve hann væri góður sundmaður, en þrátt fyrir það að hann var afbragðs sundmaður gat hann ekki synt svona þyndarlaust. Smátt og smátt fór honum að daprast sundið. Limir hans urðu blýþungir og hann þóttst vita, að bráður bani væri sér vís, ef honum kæmi engin hjálp þvínær samstundis. Loks þraut máttur hans, hann misti meðvitundina og hné í faðm hafsins!

## .. VII. KAPITULI.

Það væri óhugsandi fyrir mig að ætla að lýsa þeirri skelfingu sem greip fólkið á lystisnekkjunni Wandering Minsrtel við þenna atburð. Hvert mannsbarn á lystiskipinu hafði vaknað við ópin og köllin og það að skipið var stöðvað. Karlmennirnir flýttu sér upp á þilfarið, en kvenfólkið þyrptist fram í salinn og spurði hver hvað fyrir hefði komið. Þegar þær fengu að vita hversu ástatt var, störðu þær hver á aðra með hræðslu svip og var varla hægt að fá þær til að trúa þessu. En því miður var það satt. Hálfa klukkustund biðu menn óþreyjufullir. Þá kom Dorset lávarður á bátnum, sem verið hafði að leita.

"Hvað er að frétta?' 'hrópaði Sir George, er hafði orð fyrir hinum. "Hvað er að frétta?"

"Slæmar fréttir," svaraði skipseigandinn. "Við höfum leitað svo sem okkur dettur í hug, en getum ekkert fundið, hvorki Mrs. Dartrell eða Reggie."

Þegar báturinn kom að hliðinni fór Dorset upp stigann og sté upp á þilfarið. Stukeley hafði síðar orð á því við kunningja sína, að sér hefði sýnst Dorset hafa elzt um tíu ár.

"Eg get ekki trúað því,' 'endurtók hann. "Eg get ekki trúað því."

"Eg held að réttara væri fyrir okkur að láta kvenfólkið ekkert um þetta vita fyr en í fyrramálið." sagði Dorset lávarður. "Maður vinnur ekkert með því að vera að hafa orð á því í kveld."

"Ég er samt hræddur um, að það verði að gera það nú þegar," svaraði Sir George. "Það heyrði þysinn uppi á þilfarinu og er nú frammi í gestasalnum og bíður þar milli vonar og ótta."

"Ef svo er, þá þýðir ekkert að fresta því, sem fram á að koma," svaraði Dorset lávarður.

Þeir gengu því undir þiljur og sögðu hvar komið var, og féll Mrs. Bennett í ómegin er hún heyrði söguna. Síðan sneru karlmennirnir inn í reykingarsalinn til að ráðgast þar.

Loks var það að ráði gert, að snúa aftur til Englands þegar í stað til þess að koma í veg fyrir að þessi hræðilega frétt bærist ættingjum Reggie frá öðrum en sjónarvottunum.. Mrs. Dartrell átti enga ættingja nema Bandaríkjafrænkuna, Miss Morrison. Þess vegna var snúið við og skipinu stefnt til Southampton og komu þau þangað skömmu eftir miðjan dag daginn eftir.

Það var fastráðið. að Sir George, ofurstinn og Stukeley litli skyldu fylgja kvenfólkinu til Lundúna, en skipseigandi fara til Weldersham og flytja þangað sorgartíðindin.

Það var ekki fyr en klukkan átta um kveldið að hann náði til kastalans. Hann stökk niður úr vagninum og hringdi dyrabjöllunni. Brytinn þekti hann þegar í stað, því að hann hafði oft séð hann þegar hann kom til kastalans með Reggie.

"Somes!" sagði Dorset lávarður við hann. "Ég vildi fá að tala við þig fáein orð áður en ég hefi tal af nokkrum öðrum."

"Það er sjálfsagt, en eg vona að ekkert hafi komið fyrir."

"Því miður verð eg að játa, að mikið hefir komið fyrir," svaraði hinn. "En við skulum ekki standa hér lengi. Fylgdu mér eitthvað þangað sem við getum talað saman í næði."

"Ef yður þóknast, þá látum oss ganga inn í lestrarsalinn," svaraði gamli maðurinn. "Eg býst ekki við að neinn komi þangað."

Dorset lávarður fór þangað með brytanum og lokuðu þeir hurðinni á eftir sér. Því næst sagði Dorset lávarður hvað fyrir hefði kimið.

"Þetta eru óttalegar fréttir," sagði gamli maðurinn. "Aumingja Reggie drukknður. Það er eins og eg geti ómögulega trúað því. Það eru ekki nema fáir dagar síðan hann var staddur hér í kastalanum!"

"Það veit guð, að eg vildi feginn hafa gefið allar eigur mínar til þess að þetta hefði ekki orðið. Þér hljótið að vita það, Somes!"

"Eg veit það, lávarður minn, og enginn mun efast um það. Drottinn minn! Drottinn minn! Þetta er hræðilegt."

Gamli maðurinn var gagntekinn fa hrygð og hugarangri.

"Hvernig líður Weldersham lávarði?" spurði Dorset lávarður.

"Hann er betri, lávarður minn, "en hann er samt mjög máttfarinn. Eg er ekki fær um að flytja þessar fréttir, en vitið þér, að hann gerði Reggie arflausan fyrir skömmu?"

"Eg heyrði eitthvað á það minst," svaraði hinn. "Þeim hafði orðið sundurorða út af kvonfangi Mr. Sandridge."

"Eg býst við að svo hafi verið," svaraði brytinn, "og nú hefir hann druknað við að bjarga henni! Hamingjan góða-"

"Jæja, Somes! Hvað haldið þér að réttast væri fyrir mig að gera? Á eg að finna Mrs. Maddison og segja henni fyrst frá tíðindunum ,og biðja hana síðan að segja greifanum, eða á eg að fara sjálfur á fund hans?"

Það varð úr, að Dorset lávarður skyldi finna Mrs. Maddison, og fór Somes þvínæst inn í setustofuna. Rétt á eftir kom hann aftur, og bauð Dorset lávarði að koma inn með sér. Hann fann Mrs. Maddison þar eina. Hún varð mjög hissa á að sjá hann koma, og varð mikill harmur að fréttum þeim er hann færði.

"Eg leit svo á, að réttast væri fyrir mig að fara hingað beina leið, áður en þið sæjuð fréttirnar í dagblöðunum," sagði hann þegar þau höfðu heilsast. "Nú verður að segja frænda hans þetta, en hver á að gera það?"

Dorset lávarður bauðst því næst til að gera það, en Mrs. Maddison sagðist halda að betra væri að hún gerði það.

"Eg ætla að tala við læknirinn, sem er nú hjá honum, og vita hvað hann segir. Viljið þér afsaka mig augnablik?"

Síðan fór hún út úr herberginu og upp á loft, og

hann var einn eftir. Hann gekk þvert yfir gólfið og að borði, sem á stóð mynd af hinum látna vini hans. Myndin var mjög vel gerð, og þegar hann virti hana fyrir sér, þá mintist hann Reggie eins og hann hafði kynst honum — djörfum og drenglyndum og vinföstum — og elskuðum af öllum sem höfðu kynst honum.

"Það veit sá, sem alt veit," sagði hann við sjálfan sig, "að eg hefði viljað leggja líf mitt í sölurnar fyrir vin minn." Og hann tók að rifja upp fyrir sér kunningskap þeirra við háskólann og ferðina sem þeir höfðu farið gangandi um meginland Evrópu, og bróðurlegar samvistir um margar vikur og mörg ár. Dorset lávarður var engan veginn bljúglyndur, en hann gat þó ekki að því gert, að honum vöknaði um augu.

Litlu síðar var hurðin opnuð, og inn kom Dorothy. Hún var föl mjög og óstyrkur á vörunum.

"Dorset lávarður!" sagði hún," þér hafið flutt okkur óttaleg tíðindi. Er það satt, að Mrs. Dartrell hafi varpað sér útbyrðis og að Reggie hafi druknað við að bjarga henni? Eg ætla að biðja yður að segja mér sem nákvæmast frá þessu."

"Þetta er nákvæmlega það, sem fyrir hefir komið," svaraði hann; "en haldið þér ekki að það auki á sorg yðar, að heyra öll smáatvik, sem að þessu lúta."

"Nei, segið mér alt, sem gerðist," svaraði hún og lét fallast ofan á stól. "Eins og þér munuð hafa heyrt, vorum við nærri því eins og systkin."

"Það verður ekki annað séð, en að Reggie hafi farið á fætur milli klukkan tólf og eitt í nótt, vegna þess að hann hafi ekki getað sofið, og átti hann þá tal við stýrimann stundarkorn. Síðan bjóst hann að fara niður undir þilur og reyna að sofna aftur. En þegar hann var nýfarinn, varð stýrimanni litið við og sá hann þá hvítklædda manneskju aftur á skipinu. Rétt á eftir sá hann Reggie koma þjótandi upp káetustigann og hlaupa aftur eftir þilfarinu. Þegar hann fór fra mhjá svefnklefa mínum, sem er á þilfarinu, hrópaði hann eitthvað um hjálp. Eg spratt upp úr fasta svefni, en varð of seinn að sjá hvað gerðist. En stýrimaður sá Mrs. Dartrell hoppa upp á öldustokkinn og kasta sér útbyrðis, áður en Reggie náði í hana. Hann fleygði sér úr treyjunni og stökk þegar fyrir borð á eftir henni. Skipið var þegar stöðvað og skotið út báti. Eg sté í hann ásamt stýrimanni og við leituðum þeirra hér um bil hálfa klukkustund, en hepnaðist ekki að finna neitt. Bæði Mrs. Dartrell og frændi yðar voru horfin."

Dorothy svaraði engu. Hún bærði til varirnar, en ekkert hljóð heyrðist. koma út af þeim.

"Miss Maddison," sagði Dorset lávarður, "yður er kunnugt um vináttu okkar Reggie, er ekki svo?"

"Jú," svaraði hún, eins og hún væri neydd til að tala. "Mér er kunnugt um, að þið voruð góðir vinir." Hún þagnaði ofur lítið, og sagði svo: "Viljið þér afsaka mig, þó að eg yfirgefi yður nú?"

Því næst stóð hún upp, rétti honum höndina, og

hann tók í hana. Svo fór hún út úr herberginu án þess að segja fleira.

"Hún hefir elskað hann," sagði Dorset lávarður við sjálfan sig, og eg er viss um, að hann hefir elskað hana líka af öllu hjarta. En því ætli hann hafi farið að bindast hinni konunni!" En svo fanst honum það ljótt, að vera að ámæla dauðri manneskju, svo að hann sagði: "Aumingja Stella!"

Tíu mínútum seinna kom Mrs. Maddison inn í herbergið.

"Frænda minn langar til að tala við yður, Dorset lávarður. Viljið þér gera svo vel að fara upp til hans, honum hefir fallist mjög til um þessar fréttir. Viljið þér koma með mér?"

Hann fylgdi Mrs. Maddison eftir inn í herbergið þar sem gamli lávarðurinn lá.

"Gott kveld, Dorset lávarður," sagði gamli maðurinn þegar vinur frænda hans kom inn. "Þetta eru miklar sorgarfregnir, sem þér flytjið okkur; en eg er yður þakklátur fyrir að hafa komið sjálfur til að segja okkur þær. Frænka mín Mrs. Maddison hefir sagt mér aðaltíðindin, eins og hún hafði heyrt þau, en má eg nú spyrja yður um einstök atriði þessu viðvíkjandi?"

Aftur skýrði ungi maðurinn frá sorgaratburðinum. Þegar hann hafði lokið frásögninni ýtti Weldersham lávarður rekkju voðinni ofan af sér með skjálfandi hendi.

"Ef til vill hefir frændi minn getið þess við yð-

ur, að okkur greindi nokkuð á þegar við sáumst síðast?" sagði hann.

"Já, eg skildi það svo, að þér hefðuð verið mótfallinn því að hann gengi að eiga Mrs. Dartrell," svaraði hinn. "En eg heyrði Reggie aldrei minnast á yður nema með einlægri ástúð. Mér var vel kunnugt um það, að honum þótti einstaklega vænt um yður."

"Mér þykir vænt um að heyra það," svaraði gamli herramaðurinn. "Eg hafði ávalt eitthvert hugboð um það, að hann mundi aldrei ganga að eiga þessa konu, er svo vildi til að hann lét líf sitt við að bjarga. En — það er óþarfi að ræða um þetta nú."

"Nei, alls ekki."

Gamli lávarðurinn spurði nokkurra fleiri spurninga og því næst bauð hann að vísa Dorset lávarði til herbergis þar sem hann svæfi um nóttina.

Ungi maðurinn þakkaði það boð, en færðist undan því. Það var nauðsynlegt að komast til Lundúna eins fljótt og mögulegt var.

Hann kvaddi því greifann, og Mrs. Maddison fylgdi honum ofan af loftinu. Dorothy sá hann ekki aftur.

Þegar hann var farinn bað gamli lávarðurinn að færa sér síðustu myndina sem tekin hafði verið af frænda hans, sem nú var látinn. Hann skoðaði myndina vandlega og lagði hana því næst við hlið sína á sængina. Um miðnætti gaf hjúkrunarkonan honum meðal, og fór því næst yfir í næsta herbergi. Þegar hún kom næst inn til hans klukkan eitt, þá

var lávarðurinn andaður og hélt á mynd Reggies milli handanna. Honum hafði fallist þyngra um fréttirnar en menn höfðu búist við.

Og þó að hann hefði ekki það ætlað, þá var Richard Victor Sandridge nú orðinn greifi af Weldersham sá áttundi í röðinni.

Arnljótur B. Olson

## VIII. KAPITULI.

Morguninn eftir að Dorset lávarður hafði farið til Weldersham kom Richard Sandridge í mjög slæmu skapi að morgunveiðarborði í herbergjum sínum í Temple. Hann hafði átt illa nótt, og þá er varla við því að búast, að mönnum líði vel næsta dag. Hann hafði fyrir nokkrum vikum keypt verðbréf, sem hann var nú kominn að raun um að ekki mundu verða líkt því eins mikið gróða-fyrirtæki eins og verzlunarmiðlarnir höfðu þá fullvissað hann um. Þar við bættist það, að kveldið áður hafði einn velþektur lögmaður sagt um hann hnyttiyrði, og þó að það væri græskulaust sagt, hafði hann ekki getað annað en verið að hugsa um það alla nóttina á milli dúranna. Þannig fer smásálum jafnan, ef spaugað er við þær, af því að þær ímynda sér að alt sé til sín talað í illri meiningu og til niðrunar. Hann var lítill fyrir manni að sjá eins og eg hefi áður sagt. Það var eins og fegurðargyðja ættarinnar hefði stað-

næmst hjá gamla greifanum og Reggie. Samt var Richard ákaflega natinn með að klæðast fallegum fötum. Hann var rjóður í andliti og skifti vel litum, alt af nýkliptur, neglurnar kliptar upp í kviku, og skeggið svo jafnt og vel hirt, að þar sást aldrei hár í ólagi.

Þegar hann kom inn í dagstofu sína, settist hann að snæðingi. Samanbrotið morgunblað lá hjá diski hans.

Hann helti kaffi í bolla handa sér með ólundarsvip, því að honum gazt ekki að matnum og fletti því næst sundur morgunblaðinu og fór að hyggja að markaðsskýrslunum. Verðbréfin hans höfðu fallið vitanlega; hann gat ekki við öðru búist. Það var svo sem eftir hepninni hans. Ekkert gat honum hepnast. Engan mann þekti hann sem var jafn slysinn eins og hann. En hvers vegna hafði honum líka komið til hugar að trúa Peter Brown þegar hann ráðlagði honum að kaupa þessi verðbréf? Hann rendi niður mörgum munnbitum áður en hann gat svarað þessari spurningu. Hann fletti blaðinu og leit á fréttir frá Evrópu ríkjum. En honum þótti ekkert gaman að þeim. Hvað hirti hann um Balkanmálið? Hvað kom honum það við þó að Rússar og Serbar væru að gera samninga sín á milli? Þó að Rússar, Frakkar og Spanverjar gengju í bandalag, þá skifti það hann engu. Hann leit á fremri síðurnar, og tók að lesa dánarfergnirnar. Enginn af óvinum hans hafði dáið; ekki sá hann heldur neinn vin sinn í hópi þeirra, sem sagt var frá að giftst hefðu.

Um barnafæðingar datt honum ekk í hug að lesa. Hann fletti við næsta blaði, hljóp yfir ritdóma og íþróttafréttir, og kom svo loks að fréttum hvaðanæfa. Alt í einu varð honum litið á yfirskrift, sem honum varð hverft við, svo að hann hrópaði upp yfir sig. Sú yfirskrift var þannig:

## SLYS Á SKEMTUNAR SIGLINGU.

*Reginald Sandridge druknaður.*

"Herra trúr!" mælti hann fyrir munni sér og hallaði sér áfram til að lesa. Hann gat tæpast gert sér grein fyrir efninu, en hélt þó áfram að lesa, og þegar hann hafði lokið við greinina, stundi hann feginsamlega. Síðan hallaði hann sér aftur á bak í stólnum og starði fram undan sér steinþegjandi.

"Reggei dáinn!" tautaði hann loksins og endurtók orðin aftur, "Reggie dáinn!"

Jafnvel eftir að hann hafði lesið blaðið tvisvar gat hann ekki skilið efnið. Það gat ekki verið satt. Þegar hann sá Reggie seinast var hann hress og kátur. Það var afarólíklegt að hann væri dáinn. Það hlaut að vera ranghermi í blaðinu, hugsaði hann með sjálfum sér, og þó var það afar sjaldgæft a ðdagblöð hlypu á sig þegar um slíka menn eins og Reggie var að ræða. Hann tók blaðið á ný og las greinina enn þá einu sinni mjög ítarlega. Reginald Sandridge hafði druknað í Englandssundi milli Fecamp og Cherburg. Hann hafði hlaupið fyrir borð til þess að

reyna að bjarga kvenmanni og drukknað í þeirri björgunartilraun.

Richard fleygði frá sér blaðinu og gekk út að glugganum. Honum fanst sem verið væri að lemja með sleggjum innan í höfðinu á sér og hann snarsvimaði. Eftir litla stund settist hann aftur við borðið og las grenina enn yfir. Dómgreind hans var nú farin að skýrast til muna. Atburði þessum var lýst mjög vandlega og staðfestur af þeim, sem á skipinu höfðu verið. Richard tók báðum höndum um höfuðið og sat þannig stundarkorn. Nú var honum farið að skiljast hvað af andláti Reggies leiddi honum sjálfum til handa. Ef Reggie væri nú áreiðanlega dauður, þá hlaut hann, hann, Richard, sem allir fyrirlitu, að verða erfingi að lávarðartigninni af Weldersham og öllum eignunum. Það gat engum vafa verið bundið, hvað margir sem vildu rengja það. Þessi hugsun var honum ofurefli samt. Hún var svo mikilfenglega æskileg, fanst honum. Oft hafði hann dreymt áþekt þessu, en aldrei hafði honum dottið í hug, að þeir draumar mundu geta ræzt. Nú vissi hann naumast hvað hann átti að hugsa eða gera. Hann þorði ekki að minnast á þetta við nokkurn mann, því að hann óttaðist, að þetta kynni að vera einhver misskilningur. Kvalakendur efi læsti sig aftur um hann allan. Frændi hans var enn á lífi og skeð gat, að hann ætti enn eftir ólifað mörg ár. Hann mintist þess nú, er hann hafði séð hann síðast fyrir mörgum árum, og hvað gamli maðurinn hafði þá verið afundinn við hann. Hann vissi vel, að ekki

var laust við að gamli greifinn hefði hláfgerða óbeit á honum, líklegast af því að Richard var ekki vanur allskonar íþróttum, sem gamli greifinn mat öllu fremur. Svo fór Richard að hugsa um Mrs. Maddison og Dorothy. Hann mintist þess glögglega hvað Dorothy hafði oft hætt hann og farið illa með hann í orði, einu sinni þegar þau hittust á refaveiðum; hún hafði setið hest sinn eins vel og bændastrákur. Hann einsetti sér nú að launa henni það, þegar færi gæfist. Hann var ekki svo skapi farinn, að hann fyrirgæfi mönnum mótgerðir. Valdið var í huga hans hæfileiki til að geta látið menn finna til. "Sá hlær bezt sem seinast hlær," var hann vanur að segja, og hann hafði fastráðið að verða sá sem seinast hlæi. Hann stærði sig ávalt af að líta á hlutina frá hagfræðislegu sjónarmiði. Mrs. Maddison og dóttir hennar höfðu lengi notið hins góða; nú kom röðin að honum. Síðan settist hann aftur að morgunverði sínum.

Það var samkvæmt hagfræðisreglum hans að nota hvern málsverðinn sem bezt. Þess vegna lauk hann nú við að borða. Það var ein kartafla eftir enn. Og hann vissi, að ef hún yrði burt tekin þá mundi hann aldrei sjá hana aftur, og hann þóttist ekki mega við öðru eins tapi. Hann hafði smátt og smátt vanið sig á slíka smásmygli, og jafnvel þó hann ætti nú mikila auðsvon gat hann ekki hætt henni.

Þegar hann var búinn að gera sér gott af kartöflunni fór hann inn í herbergi sitt og lét á sig stígvélin sín. Og meðan hann var að því mintst hann

þess hvað hann hafði verið hæddur miskunnarlaust kveldið fyrir.

"Ef eitthvert manneðli er í þeim," sagði hann við sjálfan sig, "þá mun nú vera komið annað hljóð í strokkinn. Það er mikið á milli Richard Sandridge fátæks lögmanns, og Richard Sandridge erfingja að Weldersham greifatigninni og auðnum."

Þegar hann var búinn að klæða sig og kom aftur fram í stofu sína, sá hann að komið var símskeyti til sín. Hann opnaði umslagið með skjálfnadi hendi. Skeytið var frá Mrs. Maddison og efni þess var enn þá furðulegra og óvæntara en alt það sem hann var búinn að lesa í blaðinu um morguninn. Skeytið var þannig:

"Frændi þinn, greifinn, dó snemma í nótt —komdu strax."

Hann slétti úr símskeytismiðanum og sneri síðan út að glugganum, en eins og í leiðslu.

"Og gamli maðurinn er þá dáinn," sagði hann við sjálfan sig. "Þá er eg líka orðinn greifi af Weldersham!"

Hann kendi engrar meðaumkvunar eða velvildar til hins látna manns, og hrygðist ekki hót yfir dauða unga mannsins sem hnigið hafði í valinn í blóma lífsins. Þeir höfðu báðir lifað og notið, og nú ætl-aði hann að lifa og njóta.

Hann las símskeyti frænku sinnar aftur, og tók svo að búast til ferðar..

"Hver veit hvað fyrir kann að koma ef eg ekki kem þangað strax?" sagði hann við sjálfan sig.

Hann leitaði í járnbrautarskýrslum og varð þess vísari, að lest lagði af stað til Lundúna kl. 10.15 og með þeirri lest hugsaði hann sér að fara. Hann hafði fataskifti og bjóst svörtum sorgarbúningi. Hann hafði alt af verið vanur að fara snemma á fætur og klukkan var ekki orðin nema níu þegar hann kom að heimili Dorset lávarðar við Berkley Square. Hann gekk upp riðið og hringdi bjöllunni. Þjónn kom til dyra og virtist hálf hissa á þessari tímanlegu heimsókn.

"Er Dorset lávarður heima?" spurði Richard.

"Já, lávarðurinn kom heim í gærkveld," svaraði þjónninn.

"Hann er víst kominn á fætur?"

"Já, eg held að hann sé að klæða sig," svaraði þjónninn.

"Gerðu svo vel og færðu honum nafnspjald mitt, og beiddu hann að lofa mér að tala við hann fáeinar mínútur."

Þjónninn leit á nafnspjaldið og brá við.

"Gerið svo vel og komið inn, herra minn, meðan eg fer að finna húsbónda minn," sagði þjónninn.

Richard var fylgt inn í lestrarsalinn, skemtilegt herbergi, sem vissi út að götunni. Litlu síðar kom maðurinn aftur og sagði að húsbóndi sinn kæmi rétt strax. Aftur varð Richard einn. Jafnvel nú átti hann bágt með að vera rólegur, og var slíkt tæpast mót von, því að mikil og óvænt voru þau tíðindi sem honum höfðu borist síðustu klukkustundirnar..

"Eg er orðinn greifi af Weldresham og forríkur!"

Þessi orð bergmáluðu í eyrum honum látlaust. En svo datt honum eitt í hug. Hvernig færi ef það skyldi nú eitthvað fara milli mála að Reggie væri dauður En það gat varla átt sér stað. Þessu var lýst svo nákvæmlega í blaðinu. Nú opnuðust dyrnar og Dorset lávarður kom inn.

"Góðan daginn, Mr. Sandridge," sagði hann kuldalega og rétti honum höndina. "Mér þykir leitt að þér skulið hafa þurft að bíða. Þér hafið náttúrlega heyrt sorgartíðindin?"

"Eg sá fregnina í blöðunum í morgun," svaraði Richard, "og hraðaði mér því á fund yðar til að heyra nákvæmar um þenna atburð."

"Mér finst nærri því eins og eg eigi bágt með að trúa því enn þá," svarðai lávarðurinn. "Mér finst að eg hafi elzt mikið við þenna sorgaratburð."

"Eg get vel skilið að þér takið yður þetta nærri," sagði Richard. "Eg býst við að það sé ekki neinum vafa bundið, að frændi minn hafi druknað?"

Hann bar spurninguna upp með svo mikilli áfergi, að Dorset láavrður le t á hann grunsemdar augum.

"Það er engum minsta vafa bundið, er eg hræddur um," svaraði hann. "Bæði frændi yðar og Mrs. Dartrell hafa druknað."

"Þér munduð vitanlega vera fús til að staðfesta þann vitnisburð með eiði, ef á þyrfti að halda?"

"Ef til þess kæmi, þá mundi eg vera fús til þess," svaraði Dorset lávarður.

"Það er lögformlegra. Eg hefi fengið reynslu fyrir því, að menn eru aldrei of varkárir í þeim efnum."

"Ó," svaraði lávarðurinn, "eg þykist nú skilja, hvað þér eruð að fara. Dauði aumingja vinar míns veldur mikilli breytingu á högum yðar. Eg var búinn að gleyma því."

Richard varð ofurlítið órólegur. Hann var hræddur um að hann hefði verið helzt til opinskár.

"Eg vona, að þér lítið ekki svo á, að eg hafi að eins verið að hugsa um sjálfan mig," sagði hann í flýti. "Það eru fleiri en eg, sem þetta skiftir miklu."

Vitanlega voru þetta ekkert nema látalæti, því að fram að þessari stundu hafði Richard ekki dottið neinn annar í hug, sem andlát Reggies skifti nokkru fjárhagslega.

"Mrs. Maddison og dóttir hennar," svaraði lávarðurinn, "urðu mjög svo harmþrungnar við þessi tíðindi. Sama er að segja um frænda yðar."

"Mætti eg spyrja, hvernig þér farið að vita það?" sagði Richard.

"Vegna þess að eg var í Weldersham í gærkveldi," svaraði Dorset lávarður. "Eg fór þangað beint til að segja þeim frá slysinu og láti Reggies."

"Eg býst þá við að þér hafið verið þar staddur þegar frændi minn lézt?"

Dorset lávarður horfði á Richard forviða.

"Þegar frændi yðar lézt?" endurtók hann undrandi. "Hvað eruð þér að segja?"

"Frændi minn andaðist í nótt," hélt Richard áfram. "Eg fékk símfrétt frá frænku minni í morgun og bað hún mig um leið að koma strax til Weldersham með lestinni, sem fer kl. hálf ellefu.

"Og greifinn látinn! Og greifinn látinn!" tautaði lávarðurinn fyrir munni sér. Það sýnist nærri því ómögulegt, því að hann var vel hress í gærkveld. En hvað honum hefir þótt vænt um Reggie," sagði hann eins og við sjálfan sig.

Nú varð æði löng þögn og loks stóð Richard á fætur og bjóst til brottferðar.

"Eg er yður mjög skuldbundinn fyrir kurteisina," sagði hann. "Eg hefði ekki farið að gera yður ónæði svo snemma dags, ef öðruvísi hefði staðið á. Þetta hefa verið óttalegir harma viðburðir hvað ofan í annað."

Dorset lávarður fylgdi honum til dyra og kvaddi hann þar.

"Eg hefi alt af haft óbeit á þessum náunga, en aldrei meiri en nú," sagði hann um leið og hann fór inn í borðstofu sína. "Hann leynir feginleik sínum yfir að ná í auðinn og metorðin, eins vel og hægt er eftir að vænta af honum."

Meðan þessu fór fram var Richard á hraðri ferð til Euston stöðvanna.

"Bíðum við, þangað til eg er búinn að koma mér laglega fyrir," tautaði hann fyrir munni sér, "og þá skal eg lækka rostann í þessum Dorset lá-

varði. Hann hefir horn í síðu minni af því að honum finst eg vera ranglega settur í Reggies stað!"

Þegar hann kom til Euston stöðvanna keypti hann tvö eða þrjú dagblöðin, keypti sér farbréf á öðru farrými og settist niður í hornið á einum vagninum, til að lesa lýsinguna á slysinu í Ermarsundi. Það var eins og svipuhögg á Richard að sjá hvert blaðið á fætur öðru fjölyrða um þá ágætis kosti sem hinn látni frændi hans hefði haft til að bera.

"Það er ekki vandaverk að verða vinsæll, ef maður á nóga peninga og vill ausa þeim út á báða bóga. En eg ætla mér samt ekki að fara þannig að."

Og satt var orðið! Hann stóð við það! Richard gat ekki rekið minni til að hafa nokkurn tíma eytt einum penny á æfinni án þess að fá fult verðmæti hans í staðinn.

Þegar lestin kom til Weldersham stöðvarinnar sté Richard út úr vagninum, fékk stövðarverðinum farmiða sinn og kvaddi. Hann hafði verið að tala við hestasveininn frá Weldersham rétt áður, og fengið þar fréttir um komu unga greifans, sem væntanlegur var.

Richard mundi víst ekki hafa orðið upp með sér, hefði hann heyrt lýsinguna af sjálfum sér af munni hestasveinsins. Allir þessir menn þektu Reggie vel, og hann hafði verið eftirlætisgoð þeirra, en um sjálfan Richard vissu þeir ekkert annað en það sem þeir höfðu heyrt á skotspónum, en það var ekki sérlega fallegt.

Richard sté upp í léttivagninn frá Weldersham,

og því næst óku þeir af stað, hestasveinninn og hann.

Richard var meir en lítið upp með sér þegar þeir óku inn um breiða hliðið og upp sandstráða akbrautina heim að húsaþyrpingunni á árbakkanum. Hann gat séð hirtina þenja sig upp grasbalana og inn í runnana upp við hæðirnar, og hérana smjúga inn um annað hlið, og nam svo staðar fyrir fordyri lávarðarsetursins. Þjónn lauk upp vagnhurðinni og Richard gekk inn í húsið og hitti þar Somes fyrstan.

Úti var steikjandi sólksin og var því notalegt að koma úr hitanum inn í svala fordyrið með mislitu glergluggunum.

"Þér viljið líklega fá að sjá Mrs. Maddison strax " sagði Somes.

"Já, eg býst við, að það væri réttast," svaraði Richard. "Hvar er hún?"

"Í dagstofunni," svaraði Somes. "Eg skal fylgja yður til hennar, ef yður þóknast." Þegar þeir komu að dyrunum á stofu Mrs. Maddison, sagði Somes: "Mr. Sandridge, frú!" og því næst gekk Richard inn í stofuna.

Mrs. Maddison hafði verið að skrifa við borð út við glugga, og stóð nú upp að heilsa gestinum.

"Það var vel gert af þér, Richard, að koma svona tafarlaust," sagði hún og rétti honum höndina. 'Skeytið frá mér hefir sjálfsagt verið þér mikið og óvænt hrygðarefni?"

"Já," svaraði Richard og kinkaði kolli alvarlegur á svip. "Eg hraðaði mér af stað undir eins og það barst mér. Hvenær dó hann?"

"Milli klukkan 12 og 1 í nótt," svaraði Mrs. Maddison, og skýrði honum því næst frá öllum aukaatriðum þar að lútandi. "Hann hefir tekið sér svo nærri dauða aumingja Reggie. Hann hélt á myndinni af Reggie í hendinni þegar komið var að honum látnum."

Í þessum svifum kom Dorothy inn til þeirra. Hún var klædd svörtum sorgarbúningi, og skar hann vel af við hinn bjarta yfirlit hennar. Hún var svo sorgbitin að furðu sætti. Hún heilsaði Richard með handabandi, og litlu síðar settust þau að snæðingi og voru næsta þögul undir borðum.

Rétt um það leyti, sem borðhaldi var lokið kom Mr. Margetson lögmaður gamla greifans. Richard tók í móti honum inni í skrifstofu frænda síns. Honum var að skiljast það, æ betur hve staða hans var orðin mikilfengleg.

"Góðan daginn, Mr. Margetson," sagði hann. "Það er býsna langt liðið síðan við sáumst síðast, og nú hittumst við vegna einkennilegra og hrygg'legra atburða."

"Já, sannarlega hryggilegra!" svaraði lögmaðurinn. "Það er hart að hugsa til þess, að bæði gamli greifinn og hinn ungi frændi yðar skuli hafa verið hrifnir frá okkur því nær samstundis. Eg var farinn að halda, að greifinn væri á góðum batavegi. Tíðindin hörmulegu um dauða Reggies hafa sjálfsagt flýtt fyrir dauða hans."

"Eg býst við því," sagði Richard þurlega.

Ef satt skal segja, þá var honum farið að þykja

meira en nóg um þessar sífeldu lofræður um Reggie. Hann hafði heyrt alla þessa atburði fyrir nokkrum klukkustundum og átt tal um þá við ýmsa, en engum hafði komið til hugar að nefna sjálfan hann með einu orði, eða óska honum til hamingju með þá upphefð, sem honum hafði hlotnast.

"Má eg spyrja yður?" sagði lögmaðurinn, "hvort yður er kunnugt um hversu erfðaskrá frænda yðar er háttað?"

"Nei, mér er ókunnugt um hana að öllu leyti," svaraði hinn. "Eg var ekki í þeirra tölu, sem alt af voru að vefjast utan um frænda minn. Eg vissi að Reggie var eftirlætisgoð hans, og þess vegna bjóst eg ekki við miklu frá honum."

"Yður mun þá koma það mjög á óvart, að greifinn hafði fastráð'ð að gera Reggie arflausan?"

Já, þetta kom Richard sannarlega á óvart. Hann einblíndi á lögmanninn eftirvæntingarfullur.

"Hverjum ætlaði frændi minn þá að gefa séreignir sínar?" spurði hann.

Lögmaðurinn leit í gaupnir sér og síðan á unga manninn.

"Þér áttuð að fá tíu þúsund pund,' sagði hann, "Mrs. Maddison tíu þúsund og frænka yðar Dorothy sömu upphæð. Enn fremur var ýmsum styrktarsjóðum ánafnað nokkuð, sumu vinnufólkinu og mér þúsund pund. Afgangurinn átti að skiftast milli ýmsra sjúkrahúsa og opinberra stofnana."

Richard var sem þrumu lostinn og var rétt að honum komið að hrópa upp um að þetta væri smán.

arlegt ranglæti, en hann stilti sig þó, því að hann hugði réttara að þegja.

"Og er þá erfðaskráin þannig nú?" spurði hann aumkvunarlega.

"Nei, ekki er það," svaraði lögmaðurinn. "Í fyrradag sá frændi yðar sig um hönd og sendi eftir mér, ógilti síðustu erfðaskrá sína og lét hina fyrri standa óbreytta. Ef Reginald hefði verið á lífi, þá mundi hann hafa verið eigandi að öllum eignunum og honum borið nafnbæturnar, og haft í tekjur milli þrjátíu og fjörutíu þúsund pund á ári. Af því leiðir það, að þegar nokkrum formskilyrðum hefir verið fullnægt, þá verðið þér, eftir lát yngri frænda yðar, greifi af Weldersham og allar eignirnar falla í yðar hlut."

Þetta þóttu Richard góðar fréttir. Sjálfstraust hans vaknaði aftur að nýju.

"Og hvað er það mikið fé, sem dregst frá eignunum eins og þær eru nú?"

"Þessar upphæðir, sem eg nefndi áður. Tíu þúsund pund til Mrs. Maddison, og álíka mikið fé sem dóttir hennar fær. Gjafir til vinnufólksins þar fyrir utan, og þetta sem mér var ánafnað."

"Og hvað verður það alt saman lagt?"

"Alt saman lagt, verður það eitthvað um þrjátíu þúsund pund, vænti eg."

Richard fanst að frændi sinn hefði mátt vera heldur smátækari á aukagjafirnar. Þó að arfurinn sem hann hlaut, væri mikill, þá þótti honum skarðast helzt til mikið í hann, með því að taka af honum

þrjátíu þúsund pund. Ef því fé væri vel varið, gæti það hæglega gefið af sér tólf hundruð pund á ári. En samt þótti honum réttast að vera ekki að hafa orð á því.

"Eg býst við, að jarðarförin fari fram næsta fimtudag," sagði hann eftir litla þögn. "Eg ætla að vera hér í nótt, en á morgun fer eg aftur til borgarinnar. Eg býst við að þér vitið um heimilisfang mitt, ef þér vilduð eitthvað við mig tala?"

Lögmaðurinn kvaðst gerla vita um heimilisfang Richards.

"En nú held eg að réttast væri að við litum á skjöl frænda yðar í sameiningu."

Richard játti því og tóku þeir brátt til þess starfs. Ekkert markvert fundu þeir í skúffum skrifborðsins, né heldur í stóra skápnum, sem stóð við gluggann. Hinn látni hafði verið mjög reglubundinn í háttum sínum, og bréf þau sem fundust voru frá ýmsum vinum hans, umboðsmönnum, bók sem í voru skráðar gjafir til ýmsra góðgerðastofnana, böggul af görmlum bréfum sem blátt band var bundið utan um ,og eitthvað um tuttugu dagbókarhefti, sem hann hafði fyrir löngu hætt að skrifa nokkuð í. Þetta og eitthvað ofurlítið fleira var í skúffunum; annað ekki. Skjölin sem fundust báru það gerla með sér, að um þau hafði fjallað reglusamur, hispurslaus og samvizkusamur starfsmálamaður.

Að hálfri klukkustund liðinni stóð Mr. Margetson upp til að kveðja, en áður en hann fór brá Richard honum á eintal og sagði:

"Mr. Margetson, þér og ættingjar yðar hafa um langan aldur verið í þjónustu þessarar ættar og væntir mig að þér séuð fúis til að halda því áfram."

Gamli lögmaðurinn tjáði sig fúsan til að vera Richard til aðstoðar á hvern þann hátt, sem hann gæti, og því næst fór hann brott úr kastalanum, en Richard fór inn í dagstofu Mrs. Maddison. Þar hitti hann Dorothy, sem var að lesa í bók. Sami sorgarsvipurinn var á henni eins og þegar Richard sá hana fyrst, og þegar Richard leit framan í hana spurði hann sjálfan sig, hvorn þeirra hún syrgði meira, Reggie eða gamla greifann, en hann þóttist þó geta giskað á það.

"Viltu koma út með mér, Dorothy, og ganga hér í kring um kastalann? Eg er viss um að þú hressist á því," sagði hann

"Ef þú vilt, þá skal eg gera það," sagði hún blíðlega, stóð upp og setti á sig hatt.

En Richard hugsaði margt á meðan. Hann var að fara yfir það alt með sjálfum sér, sem Margetson hafði sagt honum, og gladdist innilega yfir því, að sér skyldi hafa hlotnast jafnmikill auður, þegar hann bjóst sízt við. Daginn áður hafði hann verið að barma sér yfir vesaldómi sínum og fátækt, en nú í dag var hann kominn í tölu brezku lávarðanna, og fékk feikna tekjur á hverju ári, og átti eitthvað um tíu aðsetursstaði. Hann stóð við gluggann og lét augun hvarfla yfir landið, sem ljómaði í allri sinni dýrð umhverfis hann. Honum fanst það nærri því óskiljanlegt að hann ætti alt þetta land, hvert einasta

ferhyrningsfet, og í gær hafði hann ekki átt nokkurn jarðarþumlung nema moldina í fjórum blómkrukkum í herbergisgluggunum hans í Tepmle.

"Eg á bágt með að trúa því, að eg eigi alt þetta," sagði hann við sjálfan sig. "Eg hlýt nú að vera orðinn vel fjáður, og ekki skal það vera mér að kenna, ef þessi auður verður ekki orðinn tvöfalt meiri áður en eg sleppi hendi af honum."

Og engum sem þekti hann datt í hug að efast um að hann sagði satt.

Réttá eftir kom Dorothy og þau fóru bæði út.

Þau gengu í gegn um rósagarðinn, síðan yfir fagra grasflöt og út í lystigarðinn, sem lítið hlið var á við fjarri endann. Þegar þau voru komin upp á hæðirnar settust þau niður á bekk, sem gamli greifinn hafði látið gera þar, til þæginda þeim sem þangað vildu fara. Fyrir neðan þau var kastalinn gráleitur og ellilegur, og utan um hann bugðaðist áin. Í gegn um rjóður í runnana skein á húsaþökin í þorpinu skamt frá, en vinstra megin við kastalann mátti sjá upp langan dal upp að Minster bænum gamla. Richard svalg þetta ánægjulega útsýni með óvenjulegum feiginleik. Það var ekki fegurð staðarins, sem hreif huga hans, heldur meðvitundin um að hann ætti þetta alt, meðvitundin um að þetta væri hans réttmæt eign, alt til æfiloka, og að enginn gæti tekið þetta frá honum.

"Eg hafði enga hugmynd um, að hér væri svona einstaklega fallegt," sagði hann við frænku sína, sem

horfði niður fyrir sig yfir þetta land, sem hún þekti svo dæmalaust vel, og þótti svo vænt um.

"Þú hefir aldrei séð þig mikið um hér í grendinni," sagði hún.

Það var mjög óheppilegt að hún skyldi komast þannig að orði. Það minti Richard á að frændi hans hafði aldrei haft neinar mætur á honum, og þess vegna að eins boðið honum örsjaldan á fund sinn.

"Eg efast um, að frændi minn hafi skilið mig réttilega," svaraði hann. "Að minsta kosti vorum við aldrei eins góðir vinir eins og eg hefði á kosið."

Dorothy mintist nú ýmislegs, sem hún hafði heyrt gamla greifann segja um manninn sem hjá henni stóð, og ekkert af því var vel fallið til að efla álit hennar á honum. Og það var þar að auki óheppilegt að svipur Richards vitnaði ljóslega um hans innri mann.

"Mér hefir alt af fallið það mjög þungt, að frændi minn skyldi hafa haft þetta ósanngjarna vanþóknunarálit á mér. Mér fanst eins og hann stundum gleyma því öldungis að sama blóð rann í æðum okkar beggja. Þó að aðrir kynni við það að sníglast sí og æ kringum greifann, vegna arfsvonar, þá gat eg aldrei fengið mig til þess Af því að hann virtist ekki hirða neitt um mig, þá forðaðist eg hann, og þú sérð nú að eg hefi uppskorið laun mín fyrir það."

Þá fyrst um daginn var það, að Dorothy roðnaði. Hún sneri sér að honum og sagði kuldalega:

"Ef þú meinar það til Reggies, að hann hafi verið að "sníglast" kring um frænda sinn, eins og þú komst að orði, þá veiztu vel sjálfur að þú gerir

honum vísvitandi rangt til. Það er svívirðilegt, að þú skulir dirfast að segja slíkt um dauðan manninn!"

"Eg nefndi ekkert nafn," svaraði Richard slæglega.

"En eg veit við hvað þú áttir," svaraði hún. "Mér er vel kunnugt um það, að þú öfundaðir Reggie altaf. Þú hafðir frá upphafi óbeit á honum, af því að frænda gazt vel að honum, og að hann átti að erfa auðinn og nafnbæturnar. En nú ættir þú að minsta kosti að sjá hann í friði eftir að hann er andaður!"

"Eg hefi enga löngun til að tala illa um dauðan mann!" svaraði Richard.

"En eg trúi því ekki, að hann sé dauður," svaraði Dorothy með ákefð.

Richard glápti á hana hissa.

"Ekki það!" hrópaði hann þóttalega. "En hann hlýtur nú samt að vera dauður. Eg átti tal við Dorset lávarð í morgun, og hann fullvissaði mig um að hann væri druknaður. Þeir leituðu hálfa klukkustund á báti en gátu ekkert fundið. Náttúrlega er hann druknaður. Eg get ekki skilið hvernig hann hefði átt að komast lífs af."

"Þér virðist vera ákaflega ant um að vita hann dauðan," sagði hún. "Þú ert hræddur við að missa af auðnum, vænti eg?"

Þetta kom illa við kaurin.

"Þú gerir mér rangt til," svaraði hann. "Þú veizt vel, að mér dettur ekkert slíkt í hug. Enginn mundi verða því fegnari en eg, ef Reggie fyndist lif-

andi. En eigi að síður verðum við að líta á allar ástæður eins og þær liggja fyrir. Eg hefi sannfærst um það við lögfræðisstörf mín."

Dorothy leit á úrið sitt en svaraði engu.

"Eg held að við ættum að fara heim aftur," sagði hún til að binda enda á þetta samtal. "Klukkan er orðin nærri sjö, og við þurfum að hafa fataskifti áður en við setjumst undir borð."

Þau stóðu á fætur og fóru að ganga niður hæðina. Þau gengu þegjandi alla leið heim til kastalans.

Meðan Richard var að hafa fataskifti þá um kveldið, var það einkum tvent, sem olli honum áhyggju. Í fyrsta lagi það, að hann mintist þess, að hann hafði látið Margetson fara þá um daginn, án þess að bjóða honum te, eða nokkra hressingu, og í öðru lagi það, að hann skyldi hafa lent í stælur við Dorothy út af Reggie. Hvorugur þessi atburður var þýðingarmikill í sjálfu sér, en þó fann Richard glögt að honum hafði farist óhöndulega.

"Það eru svona smámunir, sem afla manni óvinsælda," sagði hann við sjálfan sig. "Eg verð að reyna að bæta úr því seinna meir."

Síðar mun sjást, hversu honum hepnaðist það. Hann sat mestan hluta kveldsins í skrifstofu gamla greifans, og fór yfir skjölin sem þeir höfðu fundið um daginn. Klukkan tíu kom hann inn í stofu til Mrs. Maddison og fann hana þar eina.

"Hvar er Dorothy?" spurði hann.

"Úti á svölunum," svaraði móðir hennar. "Henni fanst of heitt inni, svo að hún fór út."

Richard reikaði þangað út að finna hana. Það var nógu bjart til þess að hann gat séð hávaxna dökkklædda stúlku sem var komin ofan af svölunum og stefndi niður að brúnni á ánni. Hann gekk á eftir henni og ætlaði að friðmælast við hana.

"Eg býst við að þér þyki svalara hér úti?" sagði hann vingjarnlega um leið og þau fundust.

"Já, miklu svalara," sagði hún, og bætti svo við eins og til að gefa honum í skyn að hana langaði ekki eftir návist hans, "einveran er svo unaðsleg."

Þau stóðu við steinstólpa og horfðu ofan í vatnið áþekt því, sem hún og Reggie höfðu staðið fyrir skömmu síðan.

"Dorothy," sagði Richard, "eg er hræddur um að þú sért reið við mig vegna þess, sem eg sagði í dag. Það ættirðu ekki að vera. Eg ætlaði mér alls ekki að særa tilfinningar þínar. Eg vissi að þér þótti ávalt vænt um Reggie, vitaskuld var það ekki nema sjálfsagt. Eg hélt að eins að þegar hann trúlofaðist Mrs. Dartrell að þú—" Hér þagnaði hann og leit framan í hana. Dorothy rétti sig upp og hvesti á hann augun.

"Richard-" hrópaði hún, "ef þú dirfist að tala þannig til mín oftar, þá fyrirgef eg þér það aldrei nokkurn tíma."

Síðan sneri hún sér skyndilega við og gekk heim að kastalanum.

"Skárri er það nú vonzkan!" sagði ungi maðurinn við sjálfan sig. "Það er engu líkara en að eg hafi hleypt upp í henni á nýjan leik í stað þess að

mi!da skap hennar! Jæja, ekki er til neins að fárast um það frekara!"

Hann reikaði um utan við kastalann góða stund enn þá; og fór því næst inn og hitti móður Doorthy í dagstofunni, en sjálf hafði Dorothy boðið góða nótt og verið farin inn í svefnherbergi sitt.

"Þú verður að fyrirgefa aumingja barninu, Richard," sagði Mrs. Maddison. "Hún hefir tekið sér svo ósköp nærri sorgaratburðina sem dunið hafa yfir okkur þessa tvo síðustu daga. Reggie og hún voru svo dæmalaust samrýmd að það er ekki mótvon að hún sakni hans."

"Hún skal fá það borgað, hvernig hún skammaði mig," sagði Richard við sjálfan sig, þegar hann var að hátta. "Og svo heldur hún að hann hafi aldrei druknað!"

Og þegar hann var sofnaður þótti honum að spá Dorothy hafa ræzt og Peggie koma aftur til kastalans og krefjast af honum allra eignanna.

Arnljotur B. Olson

## IX. KAPITULI.

Jarðarför stálgreifans af Weldersham var engin viðhafnarathöfn. Hann var lagður til hvíldar í grafhvelfingu ættarinnar í austurenda þorpskirkjunnar. Richard var að sjálfsögðu aðal syrgjandinn fyrir manna sjónum. Einir sex lávarðar fylgdu gamla greifanum til grafar, og einir 12 menn aðrir úr þorp-

inu og grendinni, og sneru sumir þeirra aftur heim til kastalans. Þegar heim var komið stakk Mr. Margetson upp á því, af því að hann var gamaldags í skoðunum, að erfðaskrána skyldi lesa upp í borðsalnum eins og venja hefði verið til áður. Richard var á þeirri skoðun að þetta mundi verða til þess að auka vináttu ættmenna sinna við sig, játaði þessu fúslega, svo að það varð úr að erfðaskráin var tekin upp og lesin þar. Ýmsir fjarskyldir ættingjar voru mjög ánægðir yfir því, sem þeim var ánafnað, en hinir, sem ekkert fengu, leyndu gremju sinni, svo sem þeim var mögulegt.

"Hugsaðu þér — að Richard Sandridge skuli hafa fengið þrjátíu þúsund í árstekjur," sagði einn þeirra. "Hvað hefir sá veimiltítulegi veslingur gert til að eiga slíka gæfu skylda? Honum mun hvorki takast að halda uppi heiðri ættarinnar eða nafni hennar og eg er eins viss um það eins og eg stend hérna, að hann mundi neita mér um þriggja punda lán, þrátt fyrir allan þann auð sem hann hefir nú eignast. Ef Reggie hefði staðið í hans sporum mundi alt öðru máli hafa verið að gegna."

Hvorki Mrs. Maddison né Dorothy voru viðstaddar þegar erfðaskráin var lesin upp. Mr. Margetson hafði þegar látið þær vita hvað kæmi í þeirra hlut, og þær langaði alls ekki til að láta almenning stara á sig, því að það er fáum gefið að skilja harma annara.

Þegar gestirnir voru farnir burt úr kastalanum,

og Richard var orðinn einn eftir hjá lögmanni sínum, bauð hann honum inn í lestrarsalinn.

"Mig langar til að biðja yður að segja mér ítarlega, hversu eignunum er nú háttað," sagði hann þegar þeir voru sestir niður. "Hvað jarðirnar gefa af sér, hver um sig, og hvernig landsetarnir eru."

Gamla manninum fanst þessi hraði á að rekast í starfsmálum nærri því ósæmilegur. Gamli greifinn var ekki búinn að liggja í gröfinni nema þrjár klukkustundir þegar erfingi hans tók að hnýsast eftir hvað eigurnar sem hann lét eftir sig væru mikils virði.

"Væri ekki viðkunnanlegra að draga þetta fáeina daga enn þá?" sagði gamli lögmaðurinn. "Eg gæti sagt yður nákvæmar frá öllu þá."

"Nei, alls ekki," svaraði Richard hranalega. "Eg býst við að þér hljótið að vita upp á hár hvernig öllu er háttað. Það vinst ekkert með drættinum. Mér er áfram um að vita hversu eignum mínum er háttað. Eg hefi að sjálfsögðu minst á það við Mr. Collins, umboðsmanninn, að hann kæmi hingað kl. sex; hún er nú fjórðung gengin sjö."

Hann hringdi bjöllu og spurði hvort Mr. Collins væri kominn, og er hann heyrði að svo væri, bauð hann að láta fylgja honum inn. Rétt á eftir kom inn maður mjög bændalegur að útliti.

"Gott kveld, Mr. Collins," sagði Richard, "gerið svo vel að fá yður sæti. Við Mr. Margetson höfum verið að tala um eignirnar hér og eg hugsaði að þá

væri ekki nema sjálfsagt að fá yður hingað um leið til skrafs og ráðagerða."

Umboðsmaðurinn leit til lögmannsins, sem hafði augun ekki af tánni á hægri fótar skónum sínum. Það var auðséð að hann kynokaði sér við að líta framan í aðkomumann.

"Mér er vitanlega ánægja að því, að veita yður allar þær upplýsingar, sem eg get, lávarður minn," svaraði umboðsmaðurinn. "Eg hefi verið í þjónustu látna lávarðarins í meir en 30 ár eins og Mr. Margetson mun geta sagt yður.

"Mér er mjög vel kunnugt um það," svaraði Richard. "Mér hefir verið sagt, að þér hafið leyst starf yðar prýðilega af hendi, og vona eg að þér munið ávalt gera það."

"Eg er fús til að gera hvað sem eg get," svaraði hinn með mikilli áherzlu.

Síðan var farið að tala um verðmæti hinna ýmsu bújarða og hvernig landsetarnir væru. Yfir höfuð var ekkert að neinu að finna, en þó voru það eitthvað tvær eða þrjár sem Richard líkaði ekki hvernig setnar voru. Ein þeirra var Knolle Tree jörðin. Landsetinn þar hét Jacob Webster, og var orðinn æði mikið á eftir með landskuldagreiðsluna.

"Rekið hann af jörðinni," sagði Richard. "Eg vil ekkert með þesskyns landseta hafa á eignum mínum."

"En bæði hann og faðir hans, afi hans og langafi hafa búið þarna," sagði Mr. Collins. "Knollejörðin er ekki eins góð og vænta mætti."

"Ef svo er þá er bezt að færa landskuldina ofurlítið niður og sjá hvort hann getur þá ekki greitt hana reglulega; að öðrum kosti verður hann að fara af jörðinni. Eftir því sem eg hefi heyrt hefir landsetum þar verið sýnd óþarflega mikil vægð um mörg ár. Það er engin furða þó að sagt sé, að landsdrotnarnir fari illa með leiguliðana."

"Eg ætla að leyfa mér að benda yður á," sagði Mr. Margetson, "að lávarðurinn gamli, frændi yðar, reyndi aldrei að hafa fé upp úr þessum jörðum. Hann lét sér nægja að vita það, að landsetarnir voru ánægðir og komust vel af."

"Það getur vel verið," sagði Richard og hallaði sér aftur á bak í stólnum með reigingssvip. "En eg er gæddur alt of miklum starfsmála hæfileikum til þess að framhald geti orðið á þvílíku ráðlagi. Ef landsetarnir eru samvizkusamir og góðir menn, þá er eg fús til að sýna þeim alla tilllátssemi, en svo verða þeir líka að sýna það í verkinu, að þeir séu slíkrar góðgirni landsdrottins verðir. Eg ímynda mér að þér ætlist þó ekki til að eg tapi á landsetunum? Hvers vegna ætti eg að vilja það?"

Ef þú hefðir verið einn skrifara Mr. Margetsons, lesari góður, þá mundi þér ekki hafa dulist það á því hvernig hann teygði á hálskraganum sínum, að hann var í illu skapi. Samt svaraði hann engu þessum síðustu orðum Richards.

"Og hvað er nú að segja um kastalann og fólkshaldið þar?" sagði Richard. "Mér sýnist það vera býsna margt vinnufólkið þar."

Mr. Collins rétti honum skrá yfir alt vinnufólkið í kastalanum og sömuleiðis yfir vinnufólkið á heima bújörðinni.

"Eins og þér sjáið," mælti Collins, "þá var gamli lávarðurinn ósinkur í öllum greinum. Eg segi ekki, að við höfum of margt vinnufólk í kastalanum, en við höfum nógu margt. En sumt af því er fólk sem fær ellistyrk, og vinnur það sem það getur og þegar það getur."

"Látið það fara," svaraði Richard. "Greiðið hverjum hálfa krónu á viku og látið það vita, að við þurfum þess ekki með."

Mr. Collins skrifaði eitthvað í vasabók sína, en svaraði engu. Það var ómögulegt á honum að sjá hvort honum líkaði betur eða ver.

"Bíðum við," sagði Richard. "Eg hefi enga löngun til að sýna þessu fólki neina hörku. Þegar þér flytjið þeim þessa skipun, þá afhendið hverjum fyrir sig eina gíneu."

Þetta var líka skrifað í vasabókina. Mr. Margetson þagði á meðan, og hugsaði sjálfsagt þeim mun meira.

Þegar Richard var búinn að spyrja Collins eins og hann lysti, bauð hann honum góða nótt, en ef hann hefði heyrt hvað gamli maðurinn tautaði fyrir munni sér á leiðinni ofan stigann og þangað til hann var kominn á bak gráa klárnum sínum, mundi Richard ekki hafa orðið allskostar ánægður.

Þegar Collins var farinn hagræddi Richard sér á stólnum, eins og hann hefði í hyggju að spjalla um

þessar gerðir sínar eftir á við lögmanninn.

"Eg er viss um, Mr. Margetson," tók hann til máls, "að þér eruð mér sammála um það, að landeignunum og kastalanum hafi verið rammskakt stjórnað um mörg ár. Eg re maður sem hefi orðið að hafa mig áfram í heiminum án hjálpar eða aðstoðar áburðarmikilla vina. Þess vegna kann eg að meta gildi peninga. Og þó að eg sé fús til að hjálpa þeim sem hjálparþurfar eru í raun og veru, þa er eg ófáanlegur til að láta menn svíkja út úr mér fé, sem hafa klaufaskap sínum og heimsku um vanblessun sína að kenna. Eg mun ávalt vera fús á að hjálpa fólki, sem sóknarpresturinn og ef til vill þér sjálfir berið um að þurfi hjálpar við, en eg ætla samt ekki að verða gullkista, sem hver fjárglæframaðurinn getur stungið sér ofan í og ausið úr eftir vild.

"Já, eg held eg fari nú að skilja yður," svaraði lögmaðurinn þurlega, og í augu hans kom einkennilegur glampi, sem Richard geðjaðist ekki vel að. Hann hafði ímyndað sér að hann mundi vaxa í áliti hjá starfsmönnum sínum með því að halda fram eindreginni sparnaðarstefnu. En það virtist öðru nær nær.

"Eg býst við að þér setjist hér að, þegar alt er komið í kring?" sagði lögmaðurinn.

"Það er eg alls ekki viss um," svaraði Richard. "Það kostar æði mikið að stýra þessum kastala. En nógur er enn tíminn til að hugsa um það."

Lögmaðurinn ók heim til sín um kveldið. Hann

þóttist viss um að frægðarsól Weldershamanna væri að síga í ægi.

"Við hefðum átt að geta getið okkur þess til," sagði hann við sjálfan sig. "Ódrengskapurinn liggur utan á þessum manni. En ekkert skil eg í því hvernig hann getur verið af Sandridge ættinni. Það er sorglegt að hann skuli hafa náð í allan þennan auð."

Og það voru margir fleiri, sem tóku í sama streng næstu dagana

Ítarlegum spurnum var haldið uppi um það með fram ströndum Frakklands hvort ekki hefði fundist lík þeirra Reggie og Mrs. Dartrell, en hvergi heyrðist neitt um það. Af því leiddi það að Richard erfði allan auðinn. Þær Mrs. Maddison og Dorothy voru enn kyrrar í kastalanum, en létu þess við getið, oð þær væru reiðubúnar að fara burt, hvenær sem þess væri óskað.

Þrem dögum eftir að Richard var afhentur arfurinn fór hann til Weldersham. Hann símaði þangað til að skýra frá komu sinni, og vagn var því látinn mæta honum á járnbrautarstöðinni. Hann var engan veginn í góðu skapi. Hann hafði lagt af stað í því skyni að færa þeim sem í kastalanum bjuggu óvæntar fréttir. Hann hálfkveið fyrir að tilkynna þær, því að hann vissi að þær mundu ekki líklegar til að afla honum vinsælda. Hann tók því þá stenfuna, sem hann á leit heppilegasta, að vera svo áreitinn sem hann gat.

Hann ámælti ökumanninum fyrir það, hvað hesturinn væri illa hirtur, honum var gefið of mikið en ekki brúkaður hæfilega. Útidyrnar voru ekki opnað-

ar nógu fljótt þegar hann kom. Hann sagði háðslega að það hefði nú verið heitt í dag og vinnumennirnir hefðu sennilega lagt sig út af. Svona hreytti hann ónotum í hvern vinnumanninn af öðrum.

Mrs. Maddison heilsaði honum hálf kvíðafull, en Dorothy lét sér hvergi bregða. Hún hafði ekki fyrirgefið honum og engin líkindi til að hún mundi gera það. Hún vissi upp á hár hvaða maður hann var, og það vissi manngarmurinn líka. Hann gat ónotast og ilskast heilmikið, en framan í hana þorði hann ekki að líta.

"Með þínu leyfi langar mig til að skoða kastalann nákvæmlega," sagði hann við Mrs. Maddison.

"Á eg að koma með þér?" spurði hún.

Hann neitaði því, en kallaði á Mrs. Marlow, ráðskonuna. Þegar hún kom lagði han naf stað með henni.

"Heyrðu, mamma," sagði Dorothy, "nú er Richard að brugga eitthvert tuddabragðið, og það sem meira er, hann skammast sín fyrir að láta það uppi."

"Eg er hrædd um að þú sért að gera frænda þínum getsakir," sagði móðir hennar. "Þú hefir fengið svo mikið ógeð á honum."

"Eg játa það," svaraði hún. "Eg hefi óbeit á Richard og mun alt af hafa hana."

"En eg held samt að hann langi til að vera manni innan handar," sagði móðir hennar.

"Þegar hann heldur að hann hafi einhvern hag af því," svaraði dóttirin. "Hann meiddi tilfinningar

Somes gamla mikið í morgun með því að gefa í skyn að hann svæfi í vinnutímanum sínum."

"Ó, hann hefir sagt það að gamni sínu að eins," sagði móðir hennar. "Somes er orðinn gamall í hettunni hérna og hann er viðkvæmur fyrir öllum aðfinslum."

En meðan þær voru að ræða um þetta var Richard og Mrs. Marlow að skoða kastalann. Hann hugði vandlega að gestasalnum, borðstofunni, hvítu og bláu dagstofunum, herberginu vinnufólksins. Þvínæst fór hann upp á loft. Skoðaði málverkasalinn og öll svefnherbergin. Sumum mönnum er það gefið að sjá þar misfellur sem aðrir verða alls ekki varið við. Richard var gefið það í ríkum mæli. Í hverjum gangi og nærri hverju herbergi sá hann eitthavð sem honum fanst vera vert að finna að, og var gamla Mrs. Marlow seinast orðin svo gröm og evðilögð að hún hefði gjarnan viljað fara niður úr gólfinu eins og henni sagðist síðar frá.

"Hvað margar vinnukonur hafið þér?" spurði Richard loksins.

"Átta, herra—lávarður minn, ætlaði eg að segja," svaraði gamla konan.

Richard stundi þungan og var eins og hann segði í stununni "átta vinnukonur, og umgengnin samt ekki betri en þetta."

Þvínæst sagði hann ráðskonunni að kalla til sín brytann, spurði hann um vínkjallarann, og kom svo til hugar sjálfum að skoða hann. Fanst honum þar heldur en ekki margt athugavert.

"Í engu verður honum gert til hæfis," sagði brytinn við Mrs. Marlow, "og þrátt fyrir alt mitt strit og stríð, hefi eg víst einhvern tíma gleymt að skrifa hjá mér eina vínflösku, sem eytt var. Hann taldi flö kurnar og fann að eina vantaði. Hann sagði ekki með beinum orðum að eg hefði stolið henni, en hristi höfuðið og nöldraði eitthvað um óráðvendni mína, því að eg og enginn annar hefi haft lykilinn að þeim kjallara í meir en fjörutíu ár.."

"Og mér sagði hann að svefnherbergin væru mér til minkunar," sagði Mrs. Marlow. "Það er aumt til þess að vita að manni skuli vera sagt annað eins."

Bæði gömlu vinnuhjúin hristu armædd höfuðin yfir þessu mótlæti, og horfðu vondauf fram á ókomna tímann.

"Öðruvísi hefði farið, ef auminngja Reggie hefði hlotnast arfurinn," sagði gamla konan. "Hann hefði þotið upp stigann og sparkað um gólfábreiðuna með leirugum skónum eins og hann var vanur að gera þegar hann var drengur, og stúlkurnar hefðu verið þakklátar fyrir að fá að þrifa það eftir hann, en það þykir mér fremur þreytandi að láta sletta því framan í mig að eg kunni ekki að stýra vinnukonum."

"Eg er hræddur um, að verra sé í vændum," sagði gamli maðurinn raunalega.

Meðan þau voru að tala saman um þetta, var Richard að skoða peningshúsin. Sykes hét sá sem sýndi honum þau og var hann þar eftirlitsmaður. Steinlagði garðurinn umhverfis þau var táhreinn og

hvervetna mjög þrifalega um gengið.

"Hvað alið þið marga hesta hér?" spurði Richard.

"Tíu nú sem stendur, lávarður minn, og þar á meðal tvo reiðhesta, sem vant er að ríða á veiðum."

"Og eru þá átta vagnhestar brúkaðir hér í kastalanum?" öskraði Richard. "Aldrei hefi eg heyrt getið um aðra eins eyðslu. Fjórir hefðu meir en átt að nægja."

"Já, fjórir gætu líka nægt, lávarður minn, en gamla lávarðinum hugnaði ekki að sjá básana tóma."

"Hvaða hestur er þessi grái þarna inst?"

"Það er hann Gráni hennar Miss Dorothy. Gamli lávarðurinn keypti henni þann hest í fyrra."

Richard stundi aftur og fór út úr hesthúsunum og stefndi til heimajarðarinnar. Hann hafði lagt svo fyrir, að Collins umboðsmaður skyldi hitta sig þar. Collins átti að hafa þá til skýrslu um afurðir af allri heimajörðinni.

"Þetta sýnist vera sannkallaður nútízku leikskapur," sagði Richard er hann hafði rent augum yfir skýrsluna. "Tilraunir gerðar um hvað eina, og peningum ausið út í allar áttir."

"Gamli lávarðurinn hugsaði aldrei um að græða á heimajörðinni," svaraði Mr. Collins. "Honum þótti vænt um jörðina og hafði búið þar rétt sér til skemtunar."

"Já, mér er vel kunnugt um skemtanir frænda míns," sagði Richard og tók því næst til að spyrja hvað margir vinnumenn væru á jörðinni.

Collins sagði honum það, og var aftur sagt að þeir væru of margir.

"Eg er fús til að játa það, að sumir þeirra eru ekki miklir vinnumenn. Þeir eru við aldur og hafa þjónað lávarðinum gamla alla æfi sína, og þess vegna vildi hann ekki láta þá fara frá sér."

"Þeir verða ekki í minni þjónustu," sagði Richard. "Eg gæti ekkert gagn af því haft svo að því held eg að bezt sé að láta þá fara. Haldið í þá, sem eitthvað geta gert, en látið hina fara."

Gott og vel lávarður minn!" sagði gamli umboðsmaðurinn þó að hann tæki þetta mjög sárt. Það var skamt til vetrar, og ef þeir mistu atvinnu þarna þá hlutu þeir að fara á sveitina.

Richard gat sér til um það hvað umboðsmaðurinn hafði í huga, svo að hann sagði:

"Það er auðvitað mjög viðkvæmt mál þetta og leitt að þurfa að grípa til slíkra ráða. En af því að þér eruð orðinn roskinn og reyndur maður þá hlýtur yður að vera það ljóst að þegar eigandaskifti verða á stórum landeignum þá rekur maður sig oft á það, að brevta verður að ýmsu levti frá því sem tíðkað var í tíð fvrirrennarans næsta á undan. Enginn tekur það sárara en mig að reka þessa menn úr vistinni; en hverjar mundu afleiðingarnar verða ef eg héldi í þá? Innan skamms mundi fara svo að við lentum í botnlausum skuldum og gjaldþroti."

"Þér munuð víst ekki vera að hugsa um að veita þeim neinn ellistyrk lávarður minn?" sagði Collins. "Þeir eru allir heiðvirðir menn og hafa borið hita og

þunga dagsins með ættmönnum yðar."

"Og hefir verið greitt prýðilega vel fyrir það, þori eg að ábyrgjast," svaraði Richard. "Ef þeir hafa ekki dregið neitt saman þessi ár, sem þeir voru í þjónustu frænda míns þá býst eg við, að þér séuð mér samdóma um það, að varla sé til þess ætlandi, að eg eigi að greiða fyrir glópsku þeirr.a Og hvað sem því líður, þá er eg ófáanlegur til þess. Það verður að stýra þessum eignum með einhverri skynsemd."

Því næst var sent eftir skógarverðinum, og var hann spurður um hvað marga menn hann hefði í þjónustu sinni, og hvernig veiðihorfurnar væru þá. Richard varð þess vísari að skóganna hafði verið vandlega gætt, því að þó að gamli greifinn hefði enginn veiðimaður verið, hafði hann oft boðið vinum sínum þangað til að skjóta, og það hafði verið ein fyrirtekt hans að telja aldrei neina skepnu sem veidd var í þessum skógum. Og er óþarft að geta þess að Richard félst alls ekki á það ráðlag. Honum fanst það nærri því syndsamleg eyðsla. Hann tókst á loft af gremju þegar hann fór að reikna saman hve mikið fé hefði eyðst á þann hátt ár eftir ár. Hann hugsaði sér að nú skyldi þó breytt til, eftir að hann var orðinn húsbóndi. Þegar hann fór heim til kastalans þóttist hann vita fyrir víst hvað kastalinn og heimajörðin gátu gefið af sér, og fanst honum meir en lítið til um dagsverkið. En undirmönnum hans var órórra inn-

an brjósts, og Mr. Collins var bæði hryggur og reiður þegar hann kom heim til konu sinnar um kveldið

---

"Það er margt orðið breytt í Wellersham, góða mín," sagði hann. "Þessi nýi húsbóndi er mesti svíðingur og nánös. Eg á að segja öllum gömlu mönnunum upp vistinni styrktarlaust. Þess verður líklega ekki langt að bíða, að hann segi mér upp líka. Eg held helzt að hann hafi peningapoka í hjartastað."

"Við skulum aldrei kæra okkur," sagði kona hans. "Þú veizt vel, að þú hefir alt af gert skyldu þína. Þó að hann segi okkur upp, þá verðum við aldrei á vergangi, sem betur fer."

"Eg er ekki að kvíða því, en eg er armæddur yfir þessari meðferð á gamla fólkinu. Það verður hart fyrir það, þegar haustið og kuldinn kamur."

"Það er nærri því ótrúlegt að maður, sem alt í einu hefir komist til auðs og metorða, skuli beita slíkri harðýðgi við undirmenn sína. Eg á bágt með að skilja í slíku lundarlagi."

"Það er vegna þess, að þú ert góður og drenglundaður," svaraði kona hans. "Þú heldur að allir séu eins og þú. En nýi lávarðurnn er harðhjartaður maður; það er auðséð á honum. Hann hugsar ekki um neitt nema að græða fé."

Þá um kveldið fékk Richard bréf með póstinum. Hvað sem það fjallaði um, þá fékk það honum mikillar ánægju. Hann lét það ekki uppi við kven-

fólkið, en gat þess aðeins að hann ætti von á kunningja sínum er mundi dvelja þar hjá sér svo sem einn dag. Dorothy vissi, að frændi hennar átti ekki sérlega marga kunningja, ef hann ætti þá nokkurn, og bjóst ekki við neinu góðu.

"Það verður gaman fyrir þig að sýna þessum kunningja þínum þennan fallega búgarð," sagði Mrs. Maddison vingjarnlega. "Á eg að láta undirbúa herbergi handa honum?"

"Nei, hann kvaðst verða að fara aftur um hæl með lestinni," svaraði Richard. "Hann er frá Ástralíu og heitir Banfield."

Von var á vini hans með lestinni, sem kom kl. 11, og hálftíma fyrir ók Richard af stað til að mæta honum. Hann hafði látið í veðri vaka, að þessi aðkomumaður væri vinur sinn, en ef frændkonur hans hefðu verið viðstaddar þegar lestin kom, mundu þær skjótt hafa orðið þess áskynja, að Richard þekti ekki þenna vin sinn þegar hann kom út úr vagninum með hinum farþegunum. En hann beið við vagndyrnar þangað til hávaxinn freknóttur maður kom út og vék sér að Richard og sagði:

"Er þetta ekki Weldersham greifinn?"

"Jú, og eg býst við að þér séuð Mr. Banfield?" svaraði Richard og rétti honum höndina.

"Já, nafn mitt er það," svaraði hinn. ""Eg fékk símskeytið frá yður í gærkveld og er nú kominn hingað eftir því. Hér er dásamlega fagurt útsýni."

"Já, það er yndislegt!" sagði Richard, "en þér hafið þó ekki enn þá séð það fallegasta."

Síðan stigu þeir upp í vagninn og óku af stað gegn um þorpið til kastalans.

Mr. Banfeild hafði verið þrjá mánuði á Englandi og alla þá stund hafði hann verið að leita sér að bústað sem honum fyndist sér og sínum hæfilegur. Hann sagði Richard frá því á leiðinni, að hann hefði ferðast um mjög víða og skoðað marga kastala, sem líkastir voru gömlum grípahússhjöllum, og engan þeirra getað notað.

"Eg verð að ná í einhvern bústað, sem verður mér til hæfilegrar sæmdar og viðurkenningar í þessu landi," sagði hann, "og það segi eg yður satt að eg sé ekki í skildinginn, ef eg finn það, sem mér líkar."

Þetta var maður eftir Richards hjarta. Hann þóttist sjá það í hendi sinni, að ef hann settist að í Weldersham, þá mundi hann borga vel fyrir það. Loks komu þeir að hliðinu, og opnaði það fyrir þeim gömul kona og hreinlega búin. Nýlendumaðurinn varð heldur en ekki léttbrýnn þegar þangað kom. Hann sá löngu álmviðar trjágöngin og veiðidýrin með mestu spekt inni í kjarrinu, grasbrekkurnar, sem lágu upp að stóru skógarbeltunum og hinn fagra kastala sem nú blasti við augum.

"Þetta er langfallegasti staður, sem eg hefi séð hér enn þá,' 'sagði hann í hrifningu. "Þið megið drjúgt um tala heimilin ykkar auðmennirnir hér á

Bretlandi. Eg sé mest eftir því að hafa ekki haft konu mína með mér til að sýna henni þessa fegurð. Henni mundi hafa fundist mikið til um hana."

"Okkur hefði verið það mjög mikil ánægja, ef Mrs. Banfield hefði komið líka," flýtti Richard sér að segja.

"Og mér hefir verið sagt, að einn forfeðra yðar hafi varið þennan kastala fyrir Cromwell og mönnum hans? Hver hlið kastalans var það, sem áhlaupið var gert á?"

Þetta kom Richard nokkuð á óvart. Hann hafði aldrei eytt miklum tíma í að lesa sögu ættar sinnar Hann hugsaði sig því ofurlitla stund um og sagði svo með allri þeirri alvöru, sem hann átti yfir að ráða:

"Það var hin hliðin; ef yður langar til að skoða hana, þá er mér ánægja að koma þangað með yður, að afloknum miðdegisverði."

Nú voru þeir komnir að útidyrunum og Richard bauð gesti sínum að stíga út úr vagninum. Mr. Banfield var einkar ánægður og lék við hvern sinn fingur.

Mrs. Maddison og Dorothy tóku honum mjög kurteislega, eins og öllum gestum yfirleitt, en hin síðarnefnda var alls ekkert vingjarnleg í viðmóti. Hún þóttist vita það, að eitthvað annað byggi undir komu Banfields, en þegar var komið fram, og sá grunur hennar var alt af að styrkjast.

Þegar staðið var upp undan borðum gengu þeir

Richard og Banfield út að skoða peningshúsin, heimajörðina og alla garðana. Þegar þeir komu aftur var Mr. Banfield búinn að sjá alt í kastalanum, sem nokkurs var um vert og var hinn ánægðasti. Hann fór af stað með lestinni kl. 6 og þegar hann var farinn þóttist Richard hafa mikið og þarft verk af hendi leyst. Tveim dögum seinna fékk hann á ný bréf með póstinum. Hann brosti svo ánægjulega meðan hnan var að lesa það, að auðséð var að efni þess var svo sem honum líkaði.

Eftir morgunverð heimtað Richard vagn sinn og ók til Weldersham til að ráðfæra sig við Mr. Margetson. Gamli lögmaðurinn tók kveðju hans, en alls ekki neitt vingjarnlega, en bauð honum sæti.

"Hvað viljið þér mér í dag?" spurði hann og settist sjálfur niður við skrifborð sitt.

"Eg er kominn til að ræða við yður alvarlegt mál," svaraði Richard, en gat þó ekki varist því að hik kom á hann, því að hann hafði óljósan grun um að lögmanninum mundi ekki getast sem bezt að erindinu.

"Ef eg get á nokkurn hátt gert yður nokkuð til þægðar, þá er eg fús til þess," svaraði Margetson. "Hvaða mál er þetta, sem yður liggur svo þungt á hjarta?"

Richard sletti úr glófum sínum á hnénu á sér, fitlaði við stólbríkurnar stundarkorn, en tók svo loks til máls og sagði:

"Eins og yður er kunnugt, Mr. Margetson, er eg ekki áburðarmikill maður eða ríkilátur. Kringumstæður mínar hafa verið þannig, að eg hefi ávalt orðið að lifa mjög rólegu lífi hingað til, og hefir sú venja sennilega orðið mitt annað eðli."

Lögmaðurinn kinkaði kolli alvarlegur en þagði.

"Yður er ef til vill kunnugt um það," mælti Richard enn fremur, "að Weldersham kastalinn er stór bygging og það kostar allmikið viðhald á henni, og er sannast að segja alt of stór handa piparsveini. Eg þekki fólkið þar í kring ekki neitt, og langar ekkert til að kynnast því. Og það sem enn er að athuga: eg mundi aldrei vera þar meir en hálfsmánaðartíma á ári."

"Eg býst því við að þér séuð að hugsa um að loka kastalanum," sagði lögmaðurinn, "og nota hann ekki nema endur og eins."

"Eg hefi enn annað í hyggju," svaraði Richard og herti sig upp. "Eg er að hugsa um að leigja kastalann!"

"Að leigja Weldersham kastala!" endurtók lögmaðurinn öldungis forviða. "Þér hljótið að vera að gera að gamni yðar!"

"Nei, mér hefir aldrei verið annað meiri alvara," svaraði Richard. "Eg hefi náð í ágætan leiguliða, vellríkan Ástralíumann. Eg ætlaði að finna yður í dag til þess að biðja yður að gera allar nauðsynlegar ráðstafanir fyrir mína hönd þessu til undirbúnings."

Mr. Margetson félst svo mikið til um þessar fréttir, að hann vissi ekktr hvað hann átti að gera. Honum fanst það svo ógurleg fjarstæða, að Richard skyldi ætla að fara að leigja kastalann, með allar þær tekjur sem hann hafði, að hann átti ekkert orð yfir það. Slíkt hafði aldrei heyrst í sögu ættarinnar áður fyrri, að þetta forna aðalsmannasetur væri fengið í hendur erlendum auðmanni.

"En þér hljótið að hafa næg efni til að standa jafnréttur þó að þér lokið kastalanum," sagði hann. "Það er alt annað betra en að fá hann í hendur ókunnugum manni."

"Eg sé ekki á hverju sú óbeit er bygð,' 'svaraði Richard þóttalega. "Maður þessi er fús til að leigja kastalann fyrir fimm þúsund pund ster ing á ári, og mér mundi virðast eg tæpast með öllum mjalla, ef eg léti slíkt tæk færi ganga mér úr greipum. Eg hefi ennfremur fengið mönnum umboð á að leigja hús mitt í borginni, og ef mér hepnast eins vel að leigja það, þá er eg ánægður."

Margetson sá, að öll mótmæli voru árangurslaus, og engin tölug tunga mundi fá Richard ofan af þessu. Hann lofaðist því til að annast hina löglegu hlið þessa máls, og fylgdi því næst skjólstæðingi sínum út í vagninn. Þegar hann var farinn, hringdi hann á æðsta skrifara sinn og sagði við hann:

"Þetta eru ill tíðindi. Aldrei hefði eg getað ímyndað mér að nokkur Weldersham mundi leyfa

sér að leggja þetta höfðingjasetur. Eg á bágt með að trúa því enn þá."

"Það er mesta hörmung, að hann skyldi nokkurn tíma öðlast nafnbótina," svaraði skrifarinn.

Arnljótur B. Olson

## X. KAPITULI.

Nærri tvö ár voru liðin síðan stálgreifinn lézt, og meir en átján mánuðir síðan þeim sinnaðist Richard og Dorothy frænku hans. Og þenna tíma hafði Richard greifa hepnast að auka auð sinn stórfenglega. Eignum hans var nú stjórnað á mjög hagfræðilegan hátt. Mr. Banfield var leigður Weldersham kastalinn. Þó að hann væri auðugur varð hann ekki eins vinsæll í landinu eins og hann hafði búist við. Húsið í borginni var leigt miljónamanni frá Suður-Afríku, og voru um hann margar sögur. Richard leigði sér sjálfur lítið hús í útjaðri Lundúna og sat þar önnum kafinn við að reikna út, hvernig hann gæti grætt sem mest fé á eignum sínum á ári hverju.

Hann eyddi litlu í skemtanir eins og annað. Í einum klúbb var hann að eins; aldrei fór hann á veiðar, aldrei fékst hann við laxveiði eða tamdi sér skotfimi. Hann skeytti ekkert um veðreiðar, og ekki kom hann nokkurn tíma á sjó, því að hann var ákaflega sjóveikur. Sumir undruðust, að hann

skyldi aldrei kvongast; en þeir hinir sömu þektu hann ekki nægilega vel. Sannleikurinn var sá, að við arftökuna hafði alt það, sem nýtilegt var í honum farið forgörðum. Hann lifði ekki fyrir annað en peninga sína og til að sitja um færi til að auka auð sinn. Uppáhaldsbækur hans voru bankabókin hans og Financial Times. Aldrei varla fór hann annað að heiman en í kauphöllina til að hafa tal af verzlunarmiðli sínum. Sá maður hafði oft orð á því hvað skjólstæðingur sinn væri frámunalega sinkur og fégjarn. Það var haft eftir honum, "að Weldersham greifinn hefði innyfli úr messing, steinhjarta og ekki meiri meðaukvun en rotta."

Um Mrs. Maddison og Dorothy dóttur hennar er ekki margt að segja. Þær urðu vitanlega húsviltar þegar Richard leigði kastalann ,og fastréðu að fara brott af Englandi og vera erlendis vetrarlangt. Um vorið komu þær aftur til Englands og settust að í Suður eKnsington. Richard mundi vel eftir ráðningunni, sem hann hafði fengið hjá Dorothy og lét aldrei sjá sig á þeim slóðum og varð aldrei á vegi þeirra frá því þær fluttu frá Weldersham.

"Hún hafði enga heimild til að tala til mín eins og hún gerði," sagði hann við sjálfan sig með miklu stærilæti þegar honum kom í hug samtal þeirra. "Maður skyldi halda, að hver væri sjálfráður um að fara svo með eignir sínar sem honum sýndist. Hvað skyldi líka hafa orðið úr mér ef eg hefði átt að búa einn í öllu því gímaldi? Það var vitaskuld ekki

nema rétt af frænda mínum á gamalsaldri og sömuleiðis fyrir mig ef eg væri kvæntur. En ef eg ætti að halda mig þar eins og mönnum þætti full sæmilegt, þá mundi eg fara á hausinn. Eins og á stóð get eg ekki séð að mér hefði verið hægt að gera nokkuð, sem hyggilegra var en að leigja Banfield kasta'ann. Hann er ágætur leiguliði og ríkur maður."

Einu sinni í Marzmánuði vildi svo til, að Richard átti erindi vestur í borgina. Hann þurfti frá Piccadilly til Bond strætis. Þegar hann var kominn miðja vegu þar í milli varð honum litið á hlut nokkurn í búðarglugga og fór að skoða hann. En honum til mikillar gremju rakst Dorothy frænka hans þar á hann. Hann varð kafrjóður og mundi hafa reynt að hafa sig á brott ef þess hefði verið nokkur kostur.

'Nei, komdu sæll, Richard," sagði hún. "Eg ætla ekki að láta þig sleppa fram hjá mér þegjandi. Viltu ekki bíða við og heilsa mér almennilega?"

Richard tautaði einhverja lélega afsökun og var býsna ólundarlegur á svipinn.

"Af mér er það að segja," sagði hún, "að eg er við beztu heilsu og líður ágætlega. Eg veit að þér þykir líka vænt um að heyra að mamma er líka við góða heilsu. Eg vona að þú hafir annars verið frískur, Richard?"

Hann vissi að hún var að hæða sig og það gramdist honum.

"Eg verð aldrei veikur," sagði hann. "En eg á mjög annríkt og því held eg að eg tefji ekki lengur fyrir þér."

"Þig langar meðal annara orða til að losna við mig," svaraði hún. "En eg ætla nú ekki að líða þér það. Eg hefi nú ekki séð þig svo lengi, að eg neyðist til að refsa þér með því að hafa þig heim með mér og láta þig drekka te með mér. Hvert eigum við að fara?"

Richard hefði viljað gefa stórfé til að geta látið sér detta í hug eitthvert afsökunarefni, en vegna þess að honum datt ekkert ráð í hug, kvaðst hann fús að verða við ósk hennar. En samt vissi hann ekki hvert hann ætti að fara með hana.

"Eg er hrædd um að þú sért ekki vanur við að vera mikið með kvenfólki," sagði hún. "Eg verð víst að ráða förinni. Komdu þá!"

Innan stundar komu þau inn í snoturt tesöluhús og settust þar við eitt borðið. Þeim var fært teið. Dorothy skenkti í bollana handa þeim, settist síðan niður og leit á Richard mjög alvarlegum augum.

"Hvernig stendur á því, að þú skulir aldrei hafa heimsótt okkur, Richard?" spurði hún. "Það er ekki fallegt að hirða ekkert um ættingja sína."

"Eg hefi haft mörgu að sinna," svaraði hann hikandi. "Þess utan kem eg varla nokkurn tíma í samkvæmi."

"Kannske þú vitir jafnvel ekki hvar við eigum heima?" spurði hún með sömu ertninni.

"Ójú, eg veit það. Margetson sagði mér það," svaraði hann.

"Og eg veit hvar þú átt heima," svaraði hún. "Eg á samt bágt með að skilja í því hvernig þú getur gert þér að góðu að búa í öðru eins húsi, jafnríkur maður," sagði hun.

"Eg felli mig einstaklega vel við það," svaraði hann. "Eg lifi mjög rólega og hirði ekki um neina tilbreytni."

"En hvað sem því líður, þá er það engin afsökun á því að þú hefir ekki komið til okkar," sagði hún. "En heyrðu nú Richard. Við mamma búumst við að sjá þig heima hjá okkur á sunnudagskveld'ð kemur, kl. 4. Og ef þú kemur ekki, þá skal eg heimsækja þig sjálf og hafa með mér einar þrjátíu stúlkur. Eg veit að þig langar ekkert til þess. Er það því ekki fastráðið að þú komir?"

En þó að Richard tæki það afar nærri sér að verða við beiðni hennar þá sá hann samt, að ekki var um annað að gera, en að lofast til að heimsækja þær Dorothy og móður hennar.

"Mér er það sönn ánægja að koma," sagði hann loksins.

"Þetta held eg sé nú ekki allur sannleikur," sagði Dorothy og kinkaði til hans kolli um leið og hún tók upp glófa sína, "en það er nóg í bráðina."

Þegar Richard var búinn að borga, fóru þau út úr tesöluhús'nu og hann fylgdi henni til Piccadilly. Þar kom hann Dorothy í strætisvagn og hélt síðan

heimleiðis sjálfur, og fór að hugsa um það með sjálfum sér, að þrátt fyrir alt væri hún samt allra fallegasta stúlka, og að hún gæti verið einstaklega yndisleg þegar hún vildi það við hafa. Hann tók sér það mjög nærri að hún skyldi ekki sýna sér me ri virðingu en hún gerði. Þá mintist hann og þess, að hún átti 10.000 pund sterl., og að móður sinni látinni mundi hún eignast 20,000.

Hann stóð dyggilega v ð loforð sitt og kom kl. 4 á sunnudagskvöldið til húss þeirra í Suður Kensington, Mrs. Maddison og dóttur hennar. Hann fylgdi vinnukonunni eftir upp stigann og inn í gestasalinn. Hann hafði beðið þess heitt og innilega að hann fyndi frænkur sínar einar heima. En honum til mikillar gremju sá hann að þar voru fyrir tvær aðkomukonur, sem hann þekti ekki, og enn fremur Dorset lávarður. Richard þekti hann að vísu, en með sjálfum sér var hann þess með v tandi að honum var ekki ver við nokkurn mann í víðri veröld en Dorset lávarð.

Mrs. Maddison tók Richard mjög vingjarnlega, og Dorothy var full með glensi og kátínu. Enginn mintist á Weldersham kastalann og ekki heldur á hús Richards í borginni, frekar en það hefði aldrei ver ð til. Richard hafði mjög mikið gaman af heimsókninni, en við því hafði hann þó alls ekki bú st, og fór svo að han nlofað st til að koma þangað næsta sunnudagskveld.

"Það er svo sem auðséð, að þær eru að keppast

við að gera mér alt til hæfis nú eftir að eg er orðinn greifi af Weldersham," sagði hann við sjálfan sig, þegar hann fór út úr húsi þeirra um kveldið. "Ef eg væri bara Richard Sandridge eins og eg var mundi mér ekki vera veitt að neinu leyti meiri athygli en áður."

Ef hann hefði heyrt á tal fólksins eftir að hann var farinn, mundi honum hafa sýnst annað.

"Eg hélt að yður þætti ekkert sérlega vænt um frænda yðar," sagði Dorset lávarður þegar þau voru orðin ein sér, Dorset lávarður og Dorothy.

"Eg vil nú ekki kannast við, að mér þyki neitt innilega vænt um hann," sagði hún. "Samt sem áður vorkenni eg honum. Það hlýtur að vera auma lífið sem hann lifir."

"Ef hann lifir aumu lífi, þá er það honum sjálfum að kenna," svaraði Dorset lávarður. "Hann er svo ríkur, að hann ætti að geta bylt sér hvernig svo sem honum sýnist. Eg get ekki kent í brjósti um mann, sem lifir eins og hann."

"Aumingja Richard!"

Dorset lávarður leit yfir á pianóið. Þar stóð mynd af fornvini hans Reggie. Dorothy leit í sömu átt. Því næst stóð hann á fætur og gekk yfir þangað sem myndin stóð.

"Þarna er maðurinn, sem hefði átt að fá auðinn," sagði hann. "Aumingja Reggie! "Þér getið ekki ímyndað yður, hve mikið eg sé eftir honum, og það enn þá!"

Varirnar á Dorothy titruðu. Hún roðnaði, og gekk líka yfir að pianóinu.

„Dorset lávarður!" mælti hún. "Eg býst við að yður finnist það barnaskapur af mér, en þó segi eg yður það satt, að eg trúi því ekki enn þann dag í dag að Reggie sé dáinn. Eg veit ekki hvernig á því stendur að eg skuli halda þetta, og veit ekki hversvegna það er svo fast í huga mínum að hann sé á lifi. En eg get ekki að því gert, að mér finst að við hljótum að eiga eftir að sjá hann lifandi.

"Eg vildi gefa aleigu mína til þess að svo yrði," svaraði hann. En eg get samt ekki vonað neitt slíkt. Ef hann væri á lifi, þá mundi hann áreiðanlega hafa gert okkur aðvart um það. Það væri ólíkt Reggie að láta okkur ekki vita hvar hann væri,, ef hann væri á lifi."

„En það hefir oftar en einu sinni komið fyrir að menn hafa horfið og komið svo aftur fram að mörgum árum liðnum," sagði Dorothy.

"Mrs. Dartrell hefir þó hlotið að týnast," svaraði hann. "Það er óhugsanlegt að hún hafi bjargast, klædd eins og hún var."

Hann þagði stundarkorn og sagði þvínæst:

"Aumingja Stella! Stundum finst mér nærri því mig langa til þess að fór eins og fór. Eg vissi vel, að Reggie elskaði hana ekki, og hjónaband þeirra hefði aldrei getað farið vel. Mig langar ekki til að tala illa um dauða manneskju, en eg þykist ekki

vera í neinum vafa um, að Reggie hafði komist að því að hann hafði hlaupið illa á sig."

"Haldið þér þá, að hann hafi ekki elskað hana?"

"Já eg er viss um það," svaraði Dorset lávarður.

Dorothy fanst eins og sá er við hana ræddi hlyti að heyra hjartslátt hennar.

Loks fóru þau bæði frá Pianoinu og til sæta sinna við gluggann. Dorset lávarður var alt í einu orðinn alvarlegur. Fallega unglega andlitið á honum var miklu alvarlegra en vant var.

"Miss Maddison," sagði hann, "hvað höfum við þekst lengi?"

Næm og sérkennileg eðlisávísun kvenna hefir víst blásið Dorothy því í brjóst sem var í vændum, því að hún leit hræðslulega til hans sem snöggvast, en stóð síðan upp úr sæti sínu og reyndi að vera róleg og gekk yfir að teborði og fór að færa til bolla á því.

"Við höfum þekst svo lengi sem eg man eftir mér," sagði hún. "Þér voruð í Weldersham fyrsta skólafríið þegar þér komuð frá Eton. Munið þér ekki eftir cricket-leiknum á grasbalanum og þegar þér slóguð knöttinn út á ána, og Reggie datt í hana þegar hann var að reyna að ná honum? En hvað langt sýnist vera síðan."

Hún talaði mjög ótt, eins og hún væri að reyna að fyrirbyggja það, að hann kæmist að til að segja nokkuð.

Dorset lávarður færði sig nú frá glugganum og gekk yfir að arninum og staðnæmdist þar.

"Það hljóta að vera nærri því seytján ár," sagði hann. "Eg ímynda mér að yður komi það á óvart, Miss Dorothy, að heyra að eg hefi elskað yður í öll þessi ár."

"Ó, þetta megið þér ekki segja, Dorset lávarður," svaraði hún. "Eg þoli ekki að hlusta á það."

"En þér megið til að hlusta á mig," svaraði hann og færði sig nær. "Eg get ekki slept yður frá mér. Það er satt, sem eg sagði, að seytján ár eru síðan eg fór að unna yður fyrst, og ást mín hefir farið vaxandi með árunum. Eg er ekki neitt mikilmenni, en eg vona að eg gæti gert yður hamingjusama! Eg mundi verja allri æfi minni til þess. Viljið þér verða konan mín?"

Dorothy varð hálf hverft við, því að hann bar spurninguna upp fljótt og umsvifalítið. Henni hafði ávalt geðjast vel að Dorset lávarði, en aldrei hafði henni komið til hugar að verða konan hans, eða að honum þætti vænt um sig.

"Mig hryggir mjög að heyra þetta," svaraði hún með harmshreim í röddinni. "Mig hryggir það fjarska mikið."

"Á eg að skilja það svo, að bæn mín geti ekki orðið heyrð "

"Já, mér er þetta ekki mögulegt," svaraði hún. "Eg skal ávalt hgsa hlýlega til yðar og skoða yður sem vin minn, en þér megið trúa mér til þess, að

ekkert meira getur nokkurn tíma orðið á milli okkar."

"Viljið þér lofa mér að spyrja yður einnar spurningar enn? Eg skal ekki spyrja fleiri."

"Hvað er það? Hún verður hörð aðgöngu, ef eg get ekki svarað henni."

"Mig langar til að spyrja yður, hvort þér elskið einhvern annan mann?"

"Nei, eg elska engan annan mann," svaraði hún. "Eg get alls ekki borið á móti því."

"Hamingjunni sé lof! Ef svo er, þá er þó mögulegleiki til þess að mér auðnist að ná ást yðar."

"Nei, Þér megið ekki vera að hugsa um það. Eg hefi ráðið það við mig fyrir löngu að giftast ekki."

Um leið og hún sagði þetta leit hún eins og ósjálfrátt á myndina á píanóinu og Dorset lávarður varð þess var.

"Eg býst við að eg geti gizkað á hvernig á því stendur. Eg bið yður afsökunar þó að eg kunni að særa yður. Þér hafið elskað Reggie vin minn."

Hún þagði litla stund áður en hún svaraði.

"Eg hefi ávalt elskað hann," sagði hún. "Það getur ekki skaðað neinn þó að eg segi það nú."

"Hann hefði líka verið eini maðurinn, sem eg hefði getað unnað þess að eignast yður," svaraði Dorset lávarður. "Eg ætla mér samt alls ekki að örvænta. Þér hafið játað það, að yður geðjast vel að mér og nú verð eg að reyna að örva þann vinskap eitthvað meir."

"Það verður árangurslaust fyrir yður," svaraði hún. "En nú skulum við hætta að tala um þetta. Þér vitið ekki hvað eg tek það nærri mér. Þér eruð vinur minn, en ef þér reynið að verða eitthvað meira þá verðum við að slíta öllu vinfengi. Og mér þætti slæmt ef til þess kæmi"

"Sama segi eg," svaraði hann. "Reynið þér að gleyma því að eg hefi minst á þetta við yður, og nú verð eg að fara. Verið þér sælar."

Dorset lávarður sneri því næst heimleiðis og var í þungu skapi. Hann fann móður sína og sagði henni frá vonbrigðum sínum, því að það hafði verið vani hans að hafa hana að trúnaðarmanni, frá því að hann var á unga aldri.

"Hamingjan góða!" sagði hann við sjálfan sig. "Skelfing er alt öfugt í þessum heimi. Dorothy elskar Reggie, en hann trúlofar sig kvenmanni, sem ekki var verð að leysa skóþvengi Dorothy. Eg elska hana meir en nokkra aðra konu og hún getur ekki fengið ást á mér, af því að hún ann stöðugt þeim sem nú er látinn."

Næstu dagana á eftir að Richard hafði farið til South Kensington hugsaði hann mikið um þær góðu viðtökur, sem hann hafði fengið þar hjá frænkum sínum. Þá í fyrsta sinni á æfinni tók honum að leiðast einlífið. Hvernig væri fyrir hann að kvongast? Hann fór að hugsa um það, hvað hörmulegt það væri ef allur sá auður, sem hann var að streitast við að raka saman lenti til þeirra ættingja sinna, sem hann

hafði álika ógeð á eins og á Dorset lávarði. En við því varð ekki spornað ef hann ætti engan erfingja þegar hann félli frá,

"Betra væri mér að ganga að eiga einhverja kom," sagði hann við sjálfan sig.

Næsta sunnudag fór hann aftur til South Kensington. Hann fékk þar jafngóðar viðtökur eins og áður, og fór brott þaðan fullviss um það, að Dorothy væri bezta konuefni, og fanst það heldur ekki ólíklegt að bæta tuttugu þúsund pundunum hennar við annan auð sinn. Það var að eins eitt, sem hann kveið fyrir því að hún kynni að láta heillast af Dorset lávarði. Hann efaðist alls ekki um að Dorset lávarður væri mjög hugfanginn af henni. Það þóttist hann sjá fyrir víst þegar hann sá þau saman fyrsta sinni. Honum gramdist það ósegjanlega mikið, en einmitt þess vegna hugsaði hann meira um þetta. En eftir að hann hafði komið einu sinni eða tvisvar oftar til South Kensington hvarf sá kvíði með öllu. Hann þóttist geta séð það, að Dorothy og Dorset lávarður voru góðkunningjar og ekkert meira, og þaðan af fór hann að líta á Dorothy sem sína eigin eign, og auð hennar eins og auð sinn. Nú stóð ekki á öðru en því, hvenær hann ætti að bera upp bónorðið.

"Eg ímynda mér, að Margetson gamli og leiguliðarnir á Weldersham jörðunum fari að viðra sig upp við mig, ef eg giftist henni," sagði hann við sjálfan sig. "Þeim hefir verið bölvanlega við mig."

Honum datt ekki í hug, að Dorothy mundi

gera það að skilyrði áður en hún játaðist honum, að hann yðri að segja Mr. Banfield upp og setjast að í kastalanum.

"Vitaskuld gæti eg ekki farið að hlaupa eftir því," sagði hann við sjálfan sig. "Þetta er ágætisleiga, sem eg fæ eftir kastalann. Hún kynni að heimta líka húsið í borginni, en það væri sama sem að höggva tuttugu þúsund pund í ártekjurnar. Nei, ef hún ætlar að verða konan mín, þá verður hún að gera sér að góðu lítið heimili úti á landi, og þá að skreppa stöku sinnum til Lundúna. Eg mundi ekki vera að fást um það. En eitt er víst. Hún hefir algerlega gleymt Reggie, hvað vænt sem henni hefir þótt um hann einu sinni."

Næsta fimtudag eftir að Richard hafði átt þetta eintal við sjálfan sig, datt honum mikið snjallræði í hug. Hann mintist þess, að sunnudaginn næstan á undan hafði hann heyrt Dorothy vera að tala um það, að hún hefði ekki getað séð sjónleik nokkurn, sem sýndur hafði verið á leikhúsi vestur í borginni og hepnast afbragðsvel. Þarna bauðst tækifærið. Nú ætlaði hann að sýna þeim öllum upp til hópa, að hann var ekki eins sínkur eins og menn héldu. Hann ætlaði að leigja sér stúku í leikhúsinu og bjóða Dorothy og móður hennar þangað með sér. Hann hugsaði sér því að fara beint þangað sem aðgöngumiðarnir voru seldir, en forsjálnin hvíslaði að honum að fara fyrst til South Kensington og vita

fyrir víst hvort þær frænkur hans gæti farið áður en hann legði fé í aðgöngumiðana.

"Eg er viss um, að Dorothy þykir ..arska vænt um," svaraði Mrs. Maddison þegar .hún heyrði þetta. "Það er einstaklega fallega gert af þér, Richard, að gera okkur glaða stund. En viltu nú ekki bíða við og finna Dorothy sjálfa? Eg býst við henni á hverri stundu."

Richard félst á að bíða, og meðan á henni stóð reyndi hann að koma sér sem bezt í mjúkinn hjá Mrs. Maddison, og fórust henni síðar þannig orð um þetta viðtal þeirra:

"Það kann vel að vera, að Richard sé mesti forstanzmaður, en því verður ekki neitað, að afarerfitt er að halda samræðum uppi við hann. Harn er gersneiddur allri samtalsgáfu og það eina, sem hann getur talað um, er fjárgróða fyrirtæki hans. Hann sagði mér frá járnbrautafyrirtæki í Middlands, frá stóru láni, sem stjórnin hefði tekið erlendis, og enn fremur frá því hversu sjóbaðafélag nokkurt hefði mishepnast, sem hann ætti hluti í. Mig minnir hann segja að ágóðinn hefði ekki orðið þar fimm af hundraði í staðinn fyrir átta af hundraði eins og hann hafði ætlast til. Þegar Dorothy loksins kom, var eg orðin svo dauðþreytt á ræðunni, að mér fanst helzt að heilinn í mér vera orðinn að baðmull.' '

Þegar Dorothy kom var henni strax sagt frá erindi frænda hennar, en þá kom það upp úr kafinu, að Mrs. Maddison hafði verið helzt til gleymin, því

að Dorothy sagði:

"En að þú skyld[illegible] ekki muna það, mamma, að Dorset lávarður hefir pantað aðgöngumiða handa okkur öllum annað kveld. Samt sem áður erum við Richard vitanlega mjög þakklátar fyrir hugulsemi hans."

Fyrst lofaði Richard í huganum forsjálni sína og lánsemi, að fara ekki að kaupa aðgöngumiðana upp á von og óvon, og síðan upptendraðist reiði hans gegn Dorset lávarði. Hann fáraðist töluvert um að þær skyldu ekki geta þegið boð sitt.

Rétt á eftir fór Mrs. Maddison út úr stofunni, og þá fann Richard á sér, að upp var runnin sú stund, sem hann hafði lengi eftir beðið. Það væri beinlínis rangt að halda því fram, að hann hefði verið rólegur, þrátt fyrir allan auðinn og upphefðina. Þau sátu bæði þegjandi um stund, og loks fór Dorothy ekki að verða um sel við þessa einkennilegu þögn Richards, og undarlegu augnaköst. Hún mintist ekki að hafa séð hann neitt svipaðan þessu áður. Hana dauðlangaði til að fara burtu eða að móðir hennar kæmi sem fyrst aftur. Og af Richard var það að segja, að hann stríddi mikið við að ná taumhaldi á hugsunum sínum og raða þeim ofurlítið niður.

"Eg efast um það, Dorothy," sagði hann loksins eins og hann hefði alt í einu fengið einhverja vitrun, "að þér hafi nokkurn tíma hugkvæmst hvað af því leiddi, ef eg dæi?"

"Herra minn trúr," hrópaði hún og lá við að brosa. "Hvað kemur þér til að bera upp fyrir mér slíka spurningu, Richard?"

"Ó, maður verður nú líka að hugsa um þá hluti svona á stundum," sagði hann íbygginn. En svo fann hann að hann varð að segja eitthvað meira og bætti því við: "Þú getur ekki borið á móti því, að öll hljótum við að deyja."

Þegar hér var komið, var Dorothy farin að fá slæman grun um að frændi hennar væri að ganga af vitinu.

"En því kemur mamma ekki?" sagði hún við sjálfa sig. "Eg er viss um, að hann er ekki heilbrigður."

Richard hafði nú fengið tóm til að átta sig ofurlítið og var farinn að gruna að hann væri að færast oflangt út frá efninu. Hann varð enn þá aumingjalegri en áður og Dorothy horfði á hann kvíðafullum augum.

"Varla getur það verið að hann sé drukkinn," sagði hún við sjálfa sig, "því að eg er viss um að hann smakkar aldrei vín. Hvað getur gengið að honum. Aldrei skyldi hann þó vera að fá aðsvif?"

Aldrei hafði hana samt órað fyrir því, að Rirchard væri að hugsa um að biðja hennar.

"Sannleikurinn er sá," mælti hann, "að eg er hingað kominn í kveld til að láta þig vita, að eg er að hugsa um að gifta mig."

Ó, þar kom það loksins. Dorothy varpaði önd-

inni eins og létti af henni þungum steini. Ef Richard var ástfanginn á annað borð, þá var ekki að undra þó að hann hegðaði sér svona. Nú var eins og nýtt ljós rynni upp fyrir henni.

"Mér þykir vænt um að heyra það," svaraði hún. "Þú hefðir átt að gera það fyrir löngu."

Richard fékk nú í sig nýjan kjark.

"Jæja, sjáðu nú til," hélt hann áfram, "eg hefi orðið að líta bæði eftir eignunum og nafnbótunum, en nú hefi eg fastráðið að láta ekki eigingirni mína sitja í fyrirrúmi fyrir velgengni annara."

"Það er fallega gert af þér," svaraði Dorothy. "Þú getur ekki trúað því, Richard, hvað mér þykir vænt um að heyra þig tala svona."

"Eg verð að játa það, að eg var mjög ábáðum áttum fyrst," hélt hann áfram með meiri hita. "Á margt er nú að líta. Auk þess vissi eg ekki hvort þú mundir vera sama sinnis um þetta eins og eg."

"Eg er mjög ánægð yfir því," svaraði Dorothy án þess að gruna hvað hann var að fara, "og eg er viss um að mömmu þykir vænt um að heyra þetta líka. Hún hafði orð á því rétt nýlega, að þú ættir að gifta þig. En eg hélt að þú mundir aldrei ætla að gera það."

"Og mér kom það nú heldur ekki til hugar fyr en fyrir hálfum mánuði," svaraði Richard. "Og eg hugsaði með sjálfum mér, að eg skyldi ganga að eiga stúlku, sem væri ríkulegum hyggindum gædd, stúlku, sem liti á hlutina frá skynsamlegu sjónar-

miði og væri ekki mjög eftirgangssöm."

"Eftirgangssöm? Við hvað áttu?"

"Jú, líttu nú á. Sumar stúlkur mundu vilja krefjast þess, að eg léti bæði hús mín standa opin fyrir gestum og glaðværð ,af því að eg hefi öðlast allan auðinn og nafnbæturnar. Sömuleiðis að eg sæki allskonar skemtanir og bærist á jafnmikið eins og hinir aðalsmennirnir. En eins og þú veizt, er það ekki eftir mínu geði. Ert þú mikið hneigð til slíks heldur?"

"Nei, eg held síður," svaraði Dorothy og skildi ekkert hvað hann var að fara. "Við eigum ekki nema þetta hús og dettur ekki í hug að mögla."

"En svo eigum við þar að auki lítið hús úti á landi," svaraði hann, "og sex ekrur þar umhverfis, og eg mundi lofa konu minni að hafa vagn til að aka í sér til skemtunar. Eg mundi ekki gera það að misklíðarefni. Eg held að eg kynni jafnvel að lofa henni að eiga fínan, lokaðan léttivagn."

"Eg er viss um að konan þín mundi kunna að meta við þig slíka rausn," svaraði Dorothy kýmnislega.

"Og þér er það þá ekki á móti skapi þó að eg segi móður þinni frá þessu?" spurði hann eftir stundarþögn.

"Vitaskuld ekki. Hvers vegna ætti mér að vera það móti skapi Eg er viss um að hún óskar þér innilega til hamingju."

Í þessu voru dyrnar opnaðar og inn kom Mrs.

Maddison. Hún hafði verið að tala við vinnukonu, sem var nýkomin þangað í vist, og hafði ekki reynst sem bezt . Gamla konan var því ekki í sem beztu skapi.

Richadr stóð við arninn þegar Mrs. Maddison kom inn.

"Emilía frænka," sagði hann þegar Mrs. Maddison kom inn, "eg hefi fréttir að segja þér, sem eg vona að þér þyki vænt um að heyra."

"Eg er viss um að þér þykir vænt um að heyra þær mamma," sagði Dorothy.

"Mér þykir alt af gaman að heyra það sem ánægjulegt er," sagði Mrs. Maddison og reyndi að svæfa gremju sína. "Hvaða fréttir eru það, Richard?"

Richard einblíndi stundarkorn í loftið yfir stofunni. Síðan leit hann niður fyrir sig. Þetta virtist ætla að verða honum erfiðara viðfangs en hann hafði búist við.

"Sannleikurinn er sá," sagði hann, "að eg hefi talað að því við Dorothy að verða konu mína og hún hefir játað því."

"Hvað þá!" hrópuðu þær báðar í einu, Mrs. Maddison og Dorothy."

"Eg hefi beðið Dorothy að giftast mér og hún hefir játað því," svaraði Richard aftur og undraðist mjög hve frænku hans skyldi bregða einkenniega við þetta.

Þær störðu forviða hvor á aðra.

"Drottinn minn sæll og góður! Hvað ertu að segja?" spurði Dorothy forviða.

"Þú hlýtur að vera að gera að gamni þínu," sagði Mrs. Maddison.

"Nei, síður en svo," svaraði hann með hátíðlegri alvörugefni. "Eg segi alt þetta í bláustu alvöru. Það er ekki nema augnablik síðan Dorothy játaði því, að hún hefði ekkert á móti því að eg segði þér frá bónorði mínu henni til handa."

Þá loks fór Dorothy að sjá spaugilegu hliðina á þessu máli. Hún hefði viljað gefa stórfé til þess að mega slengja sér niður á legubekkinn og hlæja eftir vild. Gat það átt sér stað, spurði hún sjálfa sig, að Richard hefði alt af átt við hana sjálf þegar hún var að óska honum til hamingju?

Eg er hrædd um, að við höfum miskilið hvort annað hraparlega, Richard," sagði hún. "Það er óneitanlegt, að þú hefir aldrei beðið mín, né heldur að eg hafi játast þér. Þú sagðir mér að eins að þú værir að hugsa um að gifta þig, en þú mintist ekki á það einu orði að eg væri stúlkan, sem þú ætlaðir að ganga að eiga."

"Svo að þú vilt mig þá ekki?" spurði hann og starði á hana reiðulega. "Þú gafst mér þó sæmilega undir fótinn, og þú hefir daðrað við mig og dregið mig á tálar stöðugt í nokkrar undanfarnar vikur, rétt til þess að geta hryggbrotið mig á eftir."

"Richard ,eg er hrædd um að þú gleymir þér öldungis," sagði Mrs. Maddison og stóð upp af

stólnum. "Eg er viss um að Dorothy er saklaus af öllu þessu, sem þú ert að bera á hana, og eg get ekki liðið þér að hafa svona munnsöfnuð í frammi hér."

"Þið um það," hrópaði Richard lémagna af bræði. "Þið um það! Eg var fús til að ganga að eiga dóttur þína, en nú vil eg ekki einu sinni sjá hana þó að mér væri boðin hún. Hún er—"

Áður en hann fékk lokið setningunni var hurðinni hrundið upp og inn kom Dorset lávarður. Síðarnefndur sá að hann hafði borið að á óhentugum tíma og nam staðar á þröskuldinum óráðinn í hvort hann ætti að fara inn eða hverfa frá aftur.

"Komið þér inn, Dorset lávarður," sagði Mrs. Maddison. "Vertu sæll, Richard!"

Richard svaraði engu, en stikaði út með öllum þeim reigingi sem hann átti til. Hann var nú búinn að reyna hamingjuna í ástamálum og ætlaði ekki að brenna sig á því soði aftur.

"Eg vona að eg hafi ekki gert ykkur neitt sérlegt ónæði," sagði Dorset lávarður þegar hann hafði lokað hurðinni á eftir sér.

"Mér þótti vænt um að þér komuð," svaraði Mrs. Maddison. "Við lentum í ónota þras við Richard skinnið. Hann vildi—"

"Nei, blessuð mamma, vertu ekki að segja frá þessu," sagði Dorothy í flýti. "Við skulum reyna að gleyma þessu sem kom nú fyrir. Það er svo dæmaulaust bjánalegt."

"Eg held að eg geti gizkað á hvað það var," sagði Dorset lávarður, "og má eg nú segja ykkur hvernig stendur á komu minni hingað? Mér hafa borist mjög einkennilegar fréttir, og þó að eg geti ekki vitað hve mikils virði þær eru nú sem stendur, þá hugði eg réttast að draga það ekki að láta ykkur vita um þær."

"Hvað er það?" spurði Drs. Maddison.

"Snemma í morgun fékk eg bréf frá Margetson lögmanni ykkar", sagði Dorset lávarður. "Hann sagði mér að hann ætlaði að koma og finna mig í Lundúnum í dag. Eg svaraði og kvað mér þykja vænt um það, þó að eg hefði enga hugmynd um hvað hann vildi mér. Hann kom og við snæddum saman miðdegisverð."

"Og hvað vildi hann þá?" spurði Dorothy. Hún var alt í einu orðin föl og alvarleg á svip.

"Erindið var svo einkennilegt, að eg hýst varla við að þið trúið því," svaraði ungi maðurinn.

"Áður en eg skýri frá því sem gerðist," mælti hann ennfremur, "þá vil eg ekki láta hjá líða að benda báðum ykkur á, að leggja ekki alt of mikinn trúnað á frásögnina. En svo er við vaxið, að Margetson sat heima í skrifstofu sinni á þriðjudaginn var og kom þá til hans þangað inn maður, er kvaðst heita Wilkins. Hann sagðist vera sjómaður og þó að hann léti ekkert ákveðið uppi gaf hann í skyn, að ef honum væri vel borgað mundi hann geta gefið upplýsingar, er snertu þá sem næst stæðu Welders-

ham eignunum. En hann neitaði að segja nokkurt orð um það nema að honum væru greidd tiu þúsund pund sterling. Fimm þúsund vildi hann fá fyrir fram, en hin fimm eftir að það væri sannað, að frásögn hans væri á rökum bygð. Maður þessi virðist fyrir skömmu kominn til Englands. En til allrar óhamingju snerist Margetson illa við og vildi ekki trúa honum þegar í stað. Hann neitaði að greiða honum nokkurt fé fyr en hann hefði ftngið fulla vitneskju um hvað hann hefði að segja og gæti dæmt um hvers virði það væri. Þá fór maðurinn burtu og kvaðst mundi fara þangað sem hann vissi að hann fengi betri borgun."

"En hvað getur hann vitað?" spurði Mrs. Maddison. "Er mögulegt að hann hafi haft upp á öðrum erfingja að eignunum?"

Dorset lávarður leit til Dorothy. Hann sá að mikill óstyrkur var kominn á hana.

"Verið hugrökk,' 'mælti hann. "Minnist þess, að vera má að frásögn mannsins sé ekkert að marka, eins og eg gat um áðan."

"Ó, nú skil eg," sgði Mrs. Maddison. "Þið haldið að þessi maður kunni að vita eitthvað um Reggie."

"Mér er nokkur grunur á því," svaraði hann.

"Og var tg ekki búin að segja ykkur, að eg væri viss um, að hann hefði ekki druknað," hrópaði Dorothy. "Það mun sannast, að eg hafði rétt fyrir mér. Eg vildi að guð gæfi að það sannaðist."

"Eg tek eins undir það, að því er mig snertir," sagði Dorset lávarður.

Og það var ósk, sem bar vott um meiri ósérplægni, en menn eiga alment að venjast.

Arnljótur B. Olson

## XI. KAPITULI.

Það var kalt í veðri að kvöldlagi eitt sinn er Richard sat inni í skrifstofu sinni, að lokinni máltíð og vermdi sig við eldinn, því að honum var ískalt á fótunum, og um leið rendi hann augum yfir boðsrit frá nýju járnbrautarfélagi, sem hann hélt að gæti orðið gróðavænlegt að kaupa hluti í. Hann setti nokkur merki á spásíuna á boðsritinu, hallaði sér svo aftur á bak í stólnum og tók að hugleiða að lífið væri þó þess virði að lifa því þrátt fyrir alla skatta og öll betlibréf, sem manni bærust. Ekki hafði hann litið þannig hér fyr meir, þegar hann varð að gera sér að góðu málafærslulaunin ein. Þá hefði hann verið fús til að selja sig satan sjálfum á vald, ef hann hefði getað grætt á því, svo sem fimm hundruð pund. Nú var hann orðinn greifi af Weldersham, forríkur maður, jafnvel orðinn miljónaeigandi; ef alt gengi vel, þegar hann andaðist. Það voru æði glæsilegar horfur; og hann fastréð nú með sjálfum sér að láta engin utan að komandi áhrif stöðva uppgang sinn. Hann var að hugsa þessar ánægjulegu hugsanir þegar hann heyrði fótatak úti á tröðinni við

húsið og rétt á eftir var drepið á dyr.

"Hver getur þetta verið, á þessum tíma dags?" sagði hann við sjálfan sig. "Pósturinn kom inn fyrir rúmum klukkutíma."

Það var eitt einkennilegt á þessum manni, að hann gat ekki átt von á að neinir vinir heimsæktu sig. Sannleikurinn var sá að hann átti enga vini, og langaði ekki til að eignast neina. Hann þóttist vita að ef hann aflaði sér vina mundu þeir drekka vín hans og reykja vindla hans, að ógleymdum öllum þeim töfum, sem þeir myndu valda honum og þannig hindra hann í að hrúga saman fé, en við það hafði hann hugann fastan öllum stundum. Og aftur furðaði hann sig á hver hann gæti verið þessi aðkomumaður.

"Maður er kominn, sem Wilkins heitir, og vill finna yður," sagði þjónninn.

"Wilkins, Wilkins," sagði lávarðurinn og velti nafninu fyrir sér. "Eg man ekki eftir neinum sem heitir því nafni. Hvað vill hann?"

"Hann vill ekki láta það uppi, en hann þykist þurfa að ræða við yður áríðandi málefni."

"Gott og vel, fylgdu honum inn."

Við sjálfan sig sagði hann rétt á eftir: "Ef hann býst við að hafa fé út úr mér, þá skjátlast honum heldur en ekki."

"Stundu síðar kom inn maður mikill vexti og hrikalegur. Hann var í bláleitum sjómannafötum og staðnæmdist frammi fyrir Richard með hattinn í hendinni. Hann var svo ásýndum, að ekki var lík-

legt að menn festu traust á honum við fyrsta tillit. Hann virtist vera sér þess meðvitandi, því að hann gaut ískygglega til augunum og bar sig afkáralega.

"Jæja, hvert er erindi þitt?" spurði Richard þegar þjónninn var farinn út. "Segistu ekki heita Wilkins?"

Hann sagði þetta þannig, að auðheyrt var að hann efaðist um að hann segði þetta satt, hvaða mótbárur sem aðkomumaður kynni að færa fram gegn þeim grun. Gesturinn svaraði fáu en sagði þó satt sagt til nafns síns.

"Nú, hvað viltu mér þá?"

"Mig langar til að tala við yður fáein orð, herra lávarður," svaraði aðkomumaður. "Eg hefi komist að nokkru, sem eg hugsa að yður kæmi betur að vita, lávarður minn."

"Hvernig víkur því við?" spurði Richard og vaknaði strax grunsemd hjá honum.

"Eg ætla að segja yður það umsvifalaust, lávarður minn, það er viðvíkjandi nafnbótum yðar og eignum," svaraði Wilkins.

Hann hefði vafalaust ekki getað komist heppilegar að orði, ef hann hefði ætlað sér að fá áheyrn hjá Richard.

"Eg býst við, að þú hafir verið á flakki hér um héraðið umhverfis og heyrt einhverjar lygasögur, sem illa upplýstir bjálfar hafa spýtt í þig; eg býst við að sögumennirnir séu gamlir þjónar frænda míns, er nú þykist eiga heimting á að eg sjái fyrir þeim. Ef þú heldur að þú hafir nokkuð út úr mér

með því lagi, þá skjátlast þér stórkostlega. Eg er ekki maður, sem legg trúnað á kviksögur."

"Nei, lávarður minn, eg hefi ekki aflað mér upplýsinga minna hér nærlendis," svaraði maðurinn kurteislega. "Eg á erindi við yður sjálfan, persónulega, eða Weldersham lávarð. Eruð það ekki þér?"

"Þú getur varla verið í neinum vafa um það, eftir að þú ð er að fylgja þér til mín," sagði lávarðurinn reiðulega. "Ef þú getur ekki sagt mér erindið bráðlega, þá er þér bezt að hafa þig burtu. Eg á annríkt."

Látbragð aðkomumanns var að ýmsu leyti svo einkennilegt að Richard stóð nærri því ógn af því. Samt sem áður þóttist hann ekki muna neitt það leyndarmál sér viðkomandi, er gæti orðið gesti þessum féþúfa. Hann hugsaði sér því að losna við hann sem allra fyrst og sagði reiðulega:

"Jæja, segðu þá strax það sem þú ætlar þér, því að eg vil koma þér frá augunum á mér hið allra bráðasta."

"Eg er að eins fátækur sjómaður," svaraði gestur. "Eg hefi farið um mörg höf og laun mín orðið uppgangssöm. Mér hefir ekki gttað græðst fé í sjóferðum."

"Þú hefir líklega drukkið upp launin þín," hreytti Richard út úr sér.

"Ekki er það ólíklegt," svaraði Wilkins. "En það kemur ekki því máli við sem eg ætla að ræða við yður, lávarður minn. Það virðist fara einstak-

lega vel um yður hér og eg heyri sagt, að annað hús eigið þér á Belgrade Square, og enn annað úti á landi, og að tekjurnar af eignum yðar sé uum þrjátíu þúsund pund á ári."

"Ekki svipað því, ekki svipað því!" 'svaraði lávarðurinn í flýti. "Og hvað koma þér við eignir mínar? Hvaða heimild hefir þú til að vera að hnísast um einkahagi mína?"

"Af því að eg ætlast til að öðlast hlutdeild í högum yðar," svaraði gestur og neri saman stóru höndunum með hrottalegu brosi. "Eg er engin hengilmæna, og þegar eg klófesti eitthvað, sem fengur er í, þá reyni eg að gera mér mat úr því. Eg skal segja yður það, lávarður góður, að við eigum eftir að verða beztu vinir og félagsbræður, þó að þér væruð nógu drýgindalegur þegar eg kom fyrst inn til yðar. Eigið þér ekki til whisky-dropa handa mér? Það mundi vera viðkunnanlegra þar sem við myndum félag mjög bráðlega"

Bóíinn var eitthvað svo hrottalega ósvífinn að það fór nú mjög að fara um Richard. Hann lötraði yfir að stórum skáp í stofunni og tók þaðan út vínflösku og setti hjá henni glas og vatnsflösku og bauð gestinum að drekka.

"Ætlið þér ekki að drekka ofurlítið mér til samlætis?" spurði hann. "Þetta finst mér ekki félagslegt, en það skiftir engu, eg kemst af án þess."

Um leið og hann sagði það hálffylti hann vatnsglasið víni bætti í það ögn af vatni og hvolfdi í sig úr glasinu í einum teig. Síðan skenkti hann sér aft-

ur og drakk þá nokkru hægara og að því búni settist hann niður til að afljúka erindinu.

"Mætti eg spyrja, svona rétt að gagni mínu, hvað langt er síðan frændi yðar, herra Reginald, datt það í hug að fleygja sér út í Ermarsundi?" mælti aðkomumaður.

Richard leit framan í hann öldungis forviða.

"Það eru tvö ár í Júnímánuði," svaraði hann. "Hvað kemur það við erindi þínu nú?"

"Það er einmitt lykillinn að erindi mínu," svaraði Mr. Wilkins með ofdrykkjuhlakki, því að vínið var farið að svífa á hann. "Ef hann hefði ekki steypt sér fyrir borð, þá mundum við ekki sitja hér á tali nú."

Síðan drakk hann annað vatnsglas af whiskyinu hægt og rólega rétti úr sér og leit hornauga til húsbónda og sagði svo:

"Og hvað mundi yður finnast um það, lávarður minn, ef það fregnaðist að frændi yðar væri enn á lífi?" spurði hann og aðgætti Richard nákvæmlega um leið og hann bar upp spurninguna.

Lávarðurinn varð náfölur í framan og neðri vörin hrökk niður eins og hún væri alt í einu orðin máttlaus. Hann hafði alt af litið svo á, að ekkert slíkt þyrfti hann framar að óttast. En ekki leið á löngu að hann herti sig upp og svaraði hásslega:

"Þú hlýtur að vera í meira lagi grunnhygginn maður, að koma hingað til að segja mér slíka sögu. Það er margsannað að frændi minn er drukknaður."

"Það er dálaglega sannað, ekki svo ósnotur

sönnun!" svaraði Wilkins og kinkaði kolli. "Eg mundi segja hið sama, ef eg væri í yðar sporum, en nú mætti þó enn þá rannsaka þetta mál. Hér var um ungan eyðsluhelg að ræða, sem skuldum var vafinn, og ætlaði að ganga að eiga konu sem — ja, það er óþarfi að fjölyrða frekara um það mál. Og af því að hann var orðinn þreyttur á lífinu þá lét hann farast fyrir bæði að bjarga henni og sjálfum sér. "Eg ætla að hvílast hér í dúnmjúku sjávarlöðrinu", segir hann. Skáldlega er nú að orði komist. Og hann steypir sér útbyrðis til að *hvílast* þar. En forsjónin er árvökur og vill eigi að þessi veslingur láti lífið svo hörmulega, og þess vegna tekur hún fram fyrir hendur honum og lætur menn á franskri hafnsöguskútu finna hann og bjarga honum og flytja til Cherbourg."

Richard spratt á fætur. Það er erfitt að gera sér í hugarlund hve mikið þessi fregn fékk á hann. Honum fanst eins og verið væri að taka af sér allan þann auð sem honum hafði hlotnast, og auðurinn var honum lífið.

"Þú lýgur!" hrópaði hann. "Eg veit að þú lýgur þessu."

Af því að Wilkins var orðinn sæmilega hýr skeytti hann þessu minna, en hann mundi annars hafa gert. Hann lét sér nægja að segja, að sannanir þær, sem hann hefði meðferðis, mundu nægja, og hann kvaðst geta leitt rök að því þá strax, að ungi maðurinn, sem um væri að ræða, hefðist þá sem stæði við á vissri eyju í Kyrrahafinu, og þar

mætti hitta hann hvenær sem manni sýndist.

“Og nú ætla eg að bæta því við, lávarður minn, eða ekki lávarður, — eftir því sem á stendur, — að ungi maðurinn, sem eg á við, veit ekkert um það, að frændi hans sé andaður, og hann hefir ekki þrek til að fara aftur til Englands af því að hann hefir ekkert til að lifa á. En nú er eg eini maðurinn, sem kunnugt er um, hvar hann er niður kominn, og nú er eg að komast eftir því fyrir hvern eg á að leika. Lítið þér á, að það verður áreiðanlega þess hagur, sem hefir mig með sér. Gleymið því ekki.”

“En hve[illegible] á eg að vita, að þessi þrælslega saga sé sönn[illegible] spurði lávarðurinn og var nú farinn að minka fyrirmannabragurinn á orðfærinu. “En hefi fylstu ástæðu til að vefengja sögusögn þína. Þú getur engar sannanir fært fram fyrir henni.”

“Get eg það ekki? Jæja, lítið þér á þetta hérna.”

Síðan fálmaði hann ofan í treyjuvasa sinn og dró þar upp nokkur skjöl og úr þeim umslag, sem eitthvað hart og stint var innan í. En það var lítil ljósmynd af Richard.

“Eg var með unga manninum, þegar hann lét taka af sér þessa ljósmynd í Honolulu. Eg efast ekki um, að þér hljótið að kannast við svipinn á honum, hágöfugi lávarður minn!”

Og sannast að segja var Richard aumkvunarverður meðan hann var að skoða myndina. Hann sat langa stund og starði á hana eins og honum væri ómögulegt að hafa af henni augun. Ef maðurinn.

sem myndin var af, var ekki Reggie, þá var hann svo líkur honum að ómögulegt var að þekkja þá að. Sjálfur efaðist hann ekki vitund um að myndi væri af Reggie. Honum fanst eins og að ætlaði að líða yfir sig við tilhugsunina. Hann reikaði yfir að borðinu þar sem vínflaskan stóð og skenkti sér nú vel sterkan drykk af whisky og vatni.

"Þetta líkar mér að sjá", sagði Wilkins. "Eg bjóst altaf við því, að þér munduð verða félagslegri eftir að þér hefðuð heyrt fréttirnar. Það er ekki svo lítils vert að eiga einum frændanum fleira en færra. Eg átti einu sinni frænda, se mátti heima í Ratcliffe Highway, og hann lenti á milli skips og uppskipunarbáts með báða fætur og marðist ákaflega. Og læknarnir tóku af honum fæturna, og nú flýgur hann um alt á hækjum. Við drukkum saman glas af öli í dag alveg eins bræðralegir eins og við erum núna hérna."

Richard bar ekki við að forvitnast um, hvað frásaga þessi ætti skylt við það, sem þeir voru áður að tala um. Hann hafði alt of mikið annað að hugsa.

"Veit nokkur annar en þú nokkuð um etta?" spurði hann.

"Nei, ekki nokkur lifandi maður," svaraði Wilkins með ákefð, og rak hnefann svo fast ofan í borðið að glösin hrukku til.

"Ertu viss um það?"

"Já, eg þori að kyssa biblíuna upp á það," svaraði hinn. "En bíðum — eg kom við í Weldershamkastala."

"Hvað þá?" öskraði Richard dauðhræddur.

"Er það satt, að þú hafir verið í Weldersham-
Hann þóttist vita fyrir víst, að ef maðurinn hefði borið fréttirnar þangað væri alt um þrotið.

"Eg fór til kastalans," hélt Wilkins áfram, "því að eg hafði spurt mig fyrir um hvar heimkynni yðar væri, lávarður minn, og bjóst við að þér dvelduð þar. En þar var mér sagt að þér væruð dæmalaus nurlari og hefðuð gert yður kastalann að féþúfu, en fieldust einhverstaðar í Lundúnum. Þeir sögðu mér þar, að ef eg þyrfti eitthvað við yður að eiga, þá væri mér bezt að hafa upp á lögmanninum yðar, því að hann annaðist öll starfsmál yðar. Og eg fór því á fund lögmannsins."

"Og fórstu þá til Mr. Margetsons? Og hvað sagðirðu honum?"

Mr. Wilkins var nú farið að syfja svo að Richard neyddist til að ýta við honum.

"Haltu áfram, haltu áfram, segðu mér hvað þú sagðir honum," hrópaði Richard í mesta ofboði. "Eg verð friðlaus þangað til eg hefi fengið að vita það."

"Ekkert liggur á, maður!" svaraði Wilkins rólega. "Flas gerir engan flýti. Hvað var eg annars að segja?"

"Þú varst að segja mér af heimsókn þinni til Margetsons," sagði Richard nærri því lúpulega.

"Já, rétt er nú það," svaraði Wilkins. "Hann er leiðinda skrjóður, með grátt kinnskegg og nauða sköllóttur. "Jæja, maður minn," sagði hann við mig, "hvað viltu mér?" Eg sagði honum að eg væri fá-

tækur sjómaður og hefði flækst með mörgum skipum en litið borið úr býtum."

"Sömu söguna sagðirðu mér," sagði Richard. "Því geturðu ekki haldið áfram að segja frá?"

"Hægan, hægan, lávarður minn," sagði hinn "Það er ekki til neins að vera með neinn ofsa. Það er hunda eðli að urra og bíta, en slíkt getur ekki komið til mála okkar í milli. En vitaskuld, ef í hart skal fara, þá munuð þér komast að raun um að Bill Wilkins er ekki barna meðfæri, skal eg segja yður, lávarður, eða ekki lávarður."

Um leið og hann sagði þetta velldi hann sig svo mikið, að Richard sá hann kost beztan, að hörfa aftur á bak, því að hann var hræddur um að hinn ætlaði að berja sig.

"Þetta er auma heimsóknin," sagði Rirchard öldungis ráðalaus, er hann sá sjómanninn fara að byrla sér drykk á ný. "Bara að hann vildi nú ljúka við sögu sína."

En það var ekki til að hugsa að hafa nokkurt samhengi út úr frásögn mannsins í því ástandi sem hann var nú í. Hann söng drykkjuvísur svo hátt að rúðurnar skulfu í gluggunum og Richard var sárkvíðandi fyrir því að nágrannar sínir heyrðu ósköpin sem á gengu.

"Eg get aldrei litið framan í nokkurn mann eftir þetta," sagði hann við sjálfan sig. "Hvað á eg að taka til bragðs til að reyna að sefa hann?"

Innan stundar hætti Wilkins að syngja og fór að barma sér yfir óhöppum sínum í ástamálum.

Einkanlega úthúðaði hann heilmikið Polly Harvey nokkurri, sem hann kvað hafa brugðið heit við sig, og eftir að hann hafði fjasað um það og ýmislegt fleira stundarkorn, valt hann út af stólnum og hrópaði á Richard að styðja sig og steinsofnaði á gólfinu.

Þegar Richard sá hvað verða vildi heimti hann til sín þjón sinn. Honum fanst eins og mörg ár vera liðin frá því að gesturinn kom. Þjóninum sagði hann að Mr. Wilkins væri boðberi merkilegra tíðinda er strafsmál snertu. Gaf í skyn að gróðafyrirtæki í Suðurhöfunum væru arðvænleg, og endaði með því að ekki mætti sleppa hinum ókunna manni á brott undir neinum kringumstæðum fyr en hann hefði skýrt frá öllum þeim fréttum, er hann flytti. Richard fylgdi þjóninum því næst inn í skrifstofuna og fundu þeir Wilkins þar á gólfinu eins og þeir höfðu skilið við hann.

“Við verðum að reyna að koma honum í rúm einhverstaðar,” sagði Richard og horfði á máttlausa líkamann á gólfinu. “Á morgun ætla eg að spyrja hann spjörunum úr og láta hann svo fara.

Síðan tók annar þeirra undir höfðahlut Wilkins en hinn fótahlutinn og drusluðu honum inn í autt herbergi og lögðu hann þar í rúm, tóku af honum hálskragann og skóna og yfirgáfu hann síðan.

“Eg er að hugsa um að loka hann inni til þess að vera viss um að hann laumist ekki á burt,” sagði Richard og félst þjónninn á það

Ekki er mér kunnugt um það, hvernig Richard svaf um nóttina. en eg efast um að hann hafi haft rólegar svefnfarir. Hann fékk engan frið fyrir ýmiskonar hugsunum, sem ásóttu hann, eins og t. d. hvað Wilkins mundi gera, hvað hann hefði sagt Margetson, hvaða fjárupphæð hann mundi þurfa að greiða honum til að þegja, og loks var efinn um það að Wilkins yrði aldrei treystandi öldungis óbærilegur. Ef Reggie kæmi aftur til Englands þá þóttist hann mega ganga að því sem vísu, að verða að sjá öðrum í hendur bæði eignir og nafnbætur, og það sem verra var, hann varð sjalfur að hverfa aftur inn í það tilkomuleysi, sem hann hafði áður verið í og áátti ekki annars lífsuppeldis von en hann hafði búið við fyrrum. Hann fann að heldur yrði hann að berjast meðan nokkur þróttur væri í sér — og honum datt jafnvel í hug — en þorði varla að hugsa þá hugsun til enda.

Undir eins með lýsingu morguninn eftir fór Richard til herbergisins þar sem hann hafði skilið við gest sinn. Mr. Wilkins var þá enn í fasta svefni og var ómögulegt að vekja hann hvernig sem hann var hristur. Richard sneri þá aftur til herbergis síns hryggur og reiður; hálftíma seinna gerði hann aðra atrennu til að vekja hann, en það fór á sömu leið. Þegar honum tókst svo loks að vekja sjómanninn, en það var ekki fyr en nokkru eftir dagmál, þá var hann alls ekki í góðu skapi. Þó að Richard færi

mjög vel að honum neitaði hann að svara nokkrum spurningum.

"Farðu fram með þetta, og sæktu mér eitthvað að drekka," sagði hann í skipunarrómi, þegar Richard kom inn með kaffi og morgunmat handa honum, "eg ætla ekki að fara að sulla í mig kaffiskólpi." Hann helti í sig einu glasi af vatni og kognaki, og hrestist vel við það, og þóttist þá vilja mat. Richard reyndi þá enn einu sinni að hafa eitthvað upp úr honum, en var skipað í reiðulegum tón að "halda sér saman", og enn fremur var honum gefið í skyn, að hann fengi ekkert að heyra nema hann væri rólegur. Mr. Wilkins sagði honum, að hann mundi fá nóg af þeim þegar hann heyrði þær, og þegar snæðingi var lokið fóru þeir báðir inn í lestrarsal Richards.

"Þá held eg að mál sé komið til að taka til starfa," sagði Richard drýgindalega, en var þó næsta hræddur.

"Eg hefi ekkert á móti því,' svaraði Mr. Wilkins, fékk sér væna tóbakstölu og gerði sig svo heimakominn að hann spýtti í opið á hitnuarpípunni. "Það á alt af vel við mig starfsemin, sérstaklega þegar verkið er vel borgað."

"Jæja, þá vil eg í fyrsta lagi fá að vita, hvað þú sagðir Mr. Margetson, lögmanninum mínum," sagði Richard.

"Eg átti engin kaup við hann," svaraði Wilkins. "Karllurkurinn var ófáanlegur til nokkurs samn-

ings. Eg sagði honum, að eg vissi um leyndarmál, sem snerti Weldersham fólkið, og lofaðist til að segja honum það, ef hann vildi borga mér 5,000 pd. fyrir fram og önnur 5,000 pd. ef það sannaðist, að eg hefði skýrt rétt frá. Hann vildi engu sinna þessu og eg beið þá ekki boðanna og sagðist skyldi fara annað þangað sem mér yrði betur borgað, og ætlaði eg mér þá að finna þig, göfugi lávarður."

"Geturðu ímyndað þér, að nokkur grunur hafi vaknað hjá Mr. Margetson?" spurði Richard.

"Eg get ekkert sagt um það, hvað hann kann að hafa hugsað," svaraði Mr. Wilkins. "Það eina, sem eg veit, er það, að hann vildi enga peninga greiða. Það var mitt áhugamál. En á hinu er enginn vafi að ungi maðurinn, sem eg sagði þér frá að væri þarna á eynni, er enginn annar en frændi þinn, Mr. Reginald Sandridge, og hinn rétti eigandi Weldersham kastalans. En á meðan hann er á lífi hefi þú engu meiri rétt til eigna þessara og nafnbótanna heldur en eg" — svo lækkaði hann röddina og bætti við: — "en ef eg leiði hann fram á sjónarsviðið hér, þá er eg hræddur um, að þér verði illa við, af því að þú verður að skila öllu af þér. Og eg ætla að segja þér það umsvifalaust , að þetta mun eg gera, ef þú verður ekki fús til að verða við óskum mínum hiklaust."

Richard sá skjótt hvað maðurinn ætlaði sér. Og þetta voru alt annað en skemtilegar horfur manni,

sem þótti jafnvænt um peninga eins og Richard þótti.

"Eg sé ekki að neitt vinnist með svona hótunum," sagði hann vesaldarlega. "Ef fregnir þær sem þú flytur eru jafnmerkilegar eins og þú lætur, þá er I ítillvafi á því, að við getum komið okkur saman. En þess er enginn kostur, ef þú ferð að móðga mig."

"En þér er þá betra að láta verða af því að semja við mig."

Og Richard hafði fengið sönnun fyrir því kveldi* fyrir.

"Hægan, hægan, maður minn," sagði Richard. "Við verðum að koma þessu í eitthvert ákveðið horf áður en við semjum nokkuð. Þú hegðar þér alt öðru vísi en mér líkar. Hvað heldurðu að þú mundi græða á því, ef eg skrifaði Mr. Margetson lögmanni mínum, þessum sem þú hittir, og segði honum frá heimsókn þinni Eg mundi hafa töluverðan hag af því, þegar að því kæmi að eg afsalaði mér eignunum í hendur frænda mínum. En þú fengir þa líklega lítil sögulaunin."

Við þessu hafði Wilkins garmurinn ekki búist. Hann leit til mannsins, sem hann átti tal við, undrunar og reiðiaugum. Svo tók hann til að ragna, og það kunni hann svikalaust. Richard lét fyrst sem hann heyrði það ekki. En þegar hlé varð á fyrir hinum, herti Richard sig upp og sagði:

"Ef þú hegðar þér svona hér eftir í návist minni þá læt eg fleygja þér út. Mundu það."

Wilkins blótaði einu sinni enn, öllu linlegar þó en áður. Það var auðséð á honum, að hann þóttist ekki hafa jafngóða fótfestu eins og áður.

Klukkustund síðar fór hann brott frá Richard og hafði þá meðferðis ávísun frá honum upp í eitt þúsund punda, og enn fremur skírteini um það, að hann mundi fá fimm þúsund pund til ef fregnir þær sem hann hefði fært lávarðinum, reyndust sannar.

Þrem klukkustundum síðar kom hár maður og þrekvaxinn til heimkynnis Dorsets lávarðar. Hann hringdi dyrabjöllunni og spurði hvort lávarðurinn væri heima, en er honum var sagt að svo væri og að Dorset væri fús til að eiga tal við Stephen Marks, ef hann kæmi. Sá var og þessi maður og fylgdi hann dyraverði inn í lestrarsal lávarðarins.

"Hvaða fréttir flytur þú, Marks?" spurði ungi lávarðurinn.

"Eg hélt vörð um húsið, eins og þér skipuðuð mér, lávarður minn, og klukkan rúmlega níu kom út þaðan ruddalegur maður áþekkur því, sem þér lýstuð fyrir mér. Hann steig upp í fólksvagn, sem var að fara ofan í bæinn og eg á eftir honum. Hann fór út úr vagninum á horninu á Lombard stræti, og gekk þaðan til Anglo-Patagonian bankans og fór þar inn. Þegar hann kom út þaðan, veitti eg honum enn eftirför, og að litlu veitingahúsi í nánd við Smithfield markaðinn. Þar þurfti eg að bíða lengi eftir honum, og þegar hann kom út þaðan var hann í mestu óvissu um hvað hann ætti að gera. Eg hefi

komist að því hvar hann á heima, og hvað hann heitir."

Að svo mæltu rétti hann húsbónda sínum miða með nafni á.

"Það er ágætt, en hvernig eigum við nú að komast að leyndarmáli hans?"

Og þetta var mestum erfiðleikum bundið. Þeir gátu elt Mr. Wilkins, en þeir gátu ekki neytt hann til sagna. Sjálfs sín vegna mundi hann ófús til að láta nokkuð uppi og þó hann fengist til þess hvernig áttu þeir þá að vita, hvað þeir hefðu samið með sér hann og Richard? Næsta dag sagði njósnarmaðurinn að hann hefði aftur heimsókt Richard, og hefði því næst drukkið sig þar dauðadrukkinn á ýmsum veitingahúsum.

"Af því að hann var orðinn þannig til reika vissi eg, að hann mundi ekki gruna mig, og slóst eg því á tal við hann," mælti Marks er hann var að skýra Dorset frá, "en þó að eg leiddi talið að ýmsum fjarlægum löndum og ferðalögum, var hann of kænn til að láta nokkuð uppi sem okkur mætti að gagni koma; hann hefir ferðast um allar álfur heims, en hann getur þagað þegar hann vill." s

Dorset lávarður hafði hitt Dorothy þá um daginn, og hafði séð að hún var þegar farin að gera sér von um einhvern árangur af fréttunum.

"Eg hefi alt af ímyndað mér það, að hann væri á lífi," sagði hún sem oftar. "Mér finst að eg vera alveg viss um það. Og meira að segja, eg þykist

viss um að þessi maður veit það, og að hann er að ógna Richard með því að láta það uppi. Það er leyndarmálið, sem hann býr yfir. Hvað getum við gert?"

"Eg geri alt, sem mér er mögulegt," svaraði vinur hennar, "en alt að þessu hefir okkur ekki hepnast að komast að neinu. Ef við komumst ekki eftir neinu næstu dagana, er eg að hugsa um að gera frænda yðar aðsúg og bera það á hann, að hann viti eitthvað um verustað Reggies."

"En eg vona þó að þér haldið ekki, að Richard mundi leyna okkur því, ef hann vissi um verustað Reggies, og að hann væri á lífi?"

Dorset lávarður sagði nú meiningu sína hiklaust.

"Eg mundi trúa á hann hverju sem væri," sagði hann í hita. "Sjáið þér það ekki, að ef Reggie kæmi fra mnú, þá mundi Richard missa eignanna og nafnbótanna. Eg hugsa að hann mundi ekki taka sér svo sérlega nærri þó að hann misti nafnbótanna, en hitt mundi verða honum að aldurtila að tapa auðnum. Ef frásögn þessa manns er nokkuð að marka, þá er eg hræddur um, að Richard frændi yðar eigi enga gleðidaga í vændum."

Næstu dagana bar ekkert nýstárlegt til tíðinda. Wilkins hafði hitt velunnara sinn tvisvar einn daginn, og síðan farið aðra ferð inn í Anglo-Patagonian bankann. Af þessu réðu þeir, að hann væri að nota sér gæs meðan hún gæfist. Þegar Dorset lávarður

hafði heyrt þetta símaði hann Margetson og bað hann að finna sig tafarlaust.

Lögmaðurinn kom til Berkley Square þá um kveldið.

"Hvað get eg gert fyrir yður, lávarður minn?" spurði hann þegar þeir fundust, hann og Dorset.

"Mig langar til að tala við yður um manninn, sem fann yður til að segja yður frá leyndarmáli Weldersham ættarinnar. Mig langar til að heyra álit yðar um það efni."

"Eg veit varla, hvað eg á að halda," svaraði lögmaðurinn. "Maðurinn var vissulega drukkinn, þegar hann fann mig, en sannast að sgeja held eg að eg hafi gefið minni gaum rósamáli hans, en vert var. Hann heimtaði alt of mikið fé fyrir leyndarmál sitt, en með því að Richard er farinn að borga honum fé, þá hlýtur það að vera eitthvað merkilegt, sem hann hefir komist að. Okkur er báðum kunnugt um það að skjólstæðingur minn er — með vægum orðum sagt—"

"Mesti nirfill á öllu Englandi," greip Dorset lávarður fram í. "Það er óþarfi að vera að skera utan af því sem segja ber, þó að eg heyri til. Reggie var vinur minn, en Richard er það ekki."

"Jæja, eg held að það sé nokkurn veginn órækur vottur um verðmæti frásagnarinnar, að Richard skuli greiða manninum fé. Og við getum að eins getið okkur til, hvers eðlis fregnin sé."

Dorset lávarður fleygði vindli sínum frá sér og stóð á fætur.

"Munduð þér hafa nokkuð á móti því að fylgja mér til heimkynna skjólstæðings yðar. Mér kemur í hug að við munum verða einhvers vísari, ef við förum báðir saman á fund Richards."

Lögmaðurinn drap fingrunum á víxl á stólbríkina stundarkorn áður en hann svaraði:

"Þér hljótið að vita vel," mælti hann, "að þér eruð að leggja fyrir mig mjög alvarlega beiðni."

"Mér skilst ekki vel, hvað þér eruð að fara," svaraði Dorset lávarður.

"Eg ætla þá að tala ljósara, og benda yður á, að ef skjólstæðingur minn fær grun um það, að eg sé kominn yðar megin, þá mun hann svifta mig því starfi, sem ættmenn mínir hafa haft með höndm um nálega fjóra mannsaldra."

"Eg bið forláts; það kom mér sannast að segja ekki til hugar," svaraði Dorset lávarður í styttingi. "Eg ímynda mér, að þá sé algerlega rangt af mér að fara fram á að þér leggið jafnmikið í sölurnar."

"Eg ætla þá að segja yður, að eg er fús til þess," svaraði gamli maðurinn. "Ef Richard reiðist því, verður að hafa það. Þa ðer ekki í fyrsta sinni að hann reiðist mér. Og ef" — hann þagnaði snöggvast — "við skyldum fá einhverja ábyggilega frétt um það, að frændi hans hafi ekki druknað, heldur sé enn á lífi, get eg fullvissað yður um að engum manni þykir vænna um að heyra það en Edward Margetson."

Eg trúi yður," sagði Dorset lávarður og tók í hönd hans. "Sjálfur vildi eg gjarnan gefa helming eigna minna til þess að Reggie væri á lífi og kæmist til Weldersham."

"Og þó "

"Hvað þá?"

Mr. Margetson lagði hönd sína á handlegg unga lávarðarins.

"Lávarður minn," mælti hann, "gamlir menn eru ekki alt af blindir, og eru stundum býsna nærfærnir um ýmislegt. Reggie okkar unni ekki Mrs. Dartrell. Það er eg viss um."

"Eg veit það," svaraði Dorset lávarður "Hvað um það?"

"Eg hefi enga hugmynd um, hvernig það hefir getað atvikast að hann skyldi trúlofast henni; en það er annað, sem mér aftur á móti er vel kunnugt um'.'

"Og hvað er það?"

"Að hann unni Dorothy frænku sinni hugástum."

"Um það veit eg líka!"

"Jæja, en ef við skyldum nú finna hann, lávarður minn?"

"Þá gengur hann að eiga hana, og eg vona að guð blessi þau í hjónabandinu."

Lögmaðurinn starði fast á Dorset lávarð gáfulegum hvössum augum sínum eins og hann vildi lesa inst inn í hugskot hans. Þegar hann tók aftur til

máls var röddin hálf raunaleg. Hann gat getið sér til um hvað hinum bjó í brjósti.

"Guð blessi yður, lávarður minn," sagði hann einlæglega. "Eg ætla ekki að segja annað, en að þér eigið það sannarlega skilið að heita vinur hans."

"Þvættingur!" svaraði ungi maðurinn. "Þér ætlið að fara að verða óþarflega viðkvæmur. Nú skulum við fara og finna Richard."

---

## XII. KAPITULI.

Þegar Dorset lávarður og Mr. Margetson stigu út úr vagni sínum utan við húsdyr Richards, var þeim sagt að lávarðurinn væri ekki heima.

"Heldurðu að hann komi heim næstu klukkustund eða svo?" spurðu þeir þjóninn. "Eg ætla að geta þess,' 'sagði Mr. Margetson, að eg er lögmaður lávarðarins, en með mér er Dorset lávarður."

Þetta virtist hafa miklar cg tilætlaðar verkanir á þjóninn.

"Eg býst ekki við, að lávarðurinn verði lengi burtu," svaraði þjónninn. "Kannske þið vilduð koma inn og bíða hans?"

"Það er sjálfsagt langréttast," svaraði Mr. Margetson.

Þeir fóru því næst á eftir manninum inn í lestr-

arsalinn, og settust þar niður, og hugðu að bíða Richards.

"Eg vildi gefa æði mikið til að vita hversu leyndarmálinu er háttað," sagði Dorset lávarður loksins. "En eins og eg sagði áðan, þykir mér ólíklegt, að við komumst nokkurn tíma að því, ef hann segir okkur það ekki. Það virðist afar undarlegt ef það skyldi snerta Reggie, en þó get eg ekki ímyndað mér hvað annað það getur áhrært."

Um leið og hann sagði þetta, litaðist hann um í herberginu. Alt í einu kom hann auga á verkfæri nokkurt, sem lá á arinhyllunni. Hann gekk þangað og fann deilitöng á hyllunni.

"Hvað skyldi Richard gera við þetta verkfæri?" sagði hann við sjálfan sig. En svo virtist sem honum detta eitthvað nýtt í hug. "Hlustaðu nú á, Mr. Margetson,' 'sagði hann. "Richard kemur ekki aftur fyr en að nokkrum mínútum liðnum. Þér eruð lögmaður hans, og dugir ekki að þér flækist inn í þetta, eg ætla því að biðja yður að fara þarna yfir að glugganum og líta eftir hvað er að gerast úti á götunni."

"En hvað ætlist þér fyrir "

"Eg ætla að ráðast í ofurlítið þjófnaðar fyrirtæki," svaraði lávarðurinn. "Eg hefi fundið þessa mælitöng, og mig langar til að komast að til hvers nún hefir verið brúkuð. Töngin er stirð af því að nún er ný og hefir litið verið brúkuð. Hann hefir verið að brúka hana, en ekki lagt hana saman, og

getur skeð að við höfum gott af því. Jæja, herra minn, nú skuluð þér fara út að glugganum, og ef þér sjáið til vinar yðar og skjólstæðings, þá skuluð þér gera mér aðvart í tíma."

"Þetta er í hæsta máta ósvífið, lávarður minn," sagði lögmaðurinn. "Eg er óviss um að eg gegni yður til að gera þetta."

"Jú, eg held að það verði nú samt svo að vera. Þetta er alt gert Reggie vegna," sagði lávarðurinn.

Lögmaðurinn gekk þá út að glugganum og leit út um hann, en Dorset lávarður veik nú inn á glæpamanns brautina í fyrsta sinni. Hann lauk upp skáp þeim sem bókahyllurnar voru yfir, en fann þar ekkert annað en vínföng og nokkur glös.

"Hér er ekkert," mælti hann og gekk yfir að bókaskápnum, sem stóð hjá arninum. Ekki fann hann þar neitt heldur. Síðan gekk hann að skrifborðinu. Það var mikil hirzla, frá Bandaríkjum, og rennilok á. Skrifborðið stóð á milli glugganna. Það var harðlokað, eins og hann bjóst við.

"Forsjónin hjálpar þeim, sem hjálpa sér sjálfir," sagði hann og leit til Margetsons. "Það vill svo vel til að eg á skrifborð öldungis eins og þetta heima hjá mér."

Að svo mæltu tók hann lykla upp úr vasa sínum, valdi einn lykilinn, stakk honum í skrána og sneri honum. Rétt á eftir var skrifborðið opið.

"Eg átti von á því!" sagði hann og tók þar langan pappírstranga sem bundinn var saman með rauð-

bandi. "Ef eg er ekki því ógetspakari, þá er hér það sem við þurfum að fá að sjá. Sést nokkuð til skjólstæðings yðar, Margetson?"

"Nei, ekki enn! En eg held að þér ættuð að fara að hraða yðar, lávarður minn. Hann getur komið á hverri stundu."

Meðan Margetson sagði þetta, hafði Dorset lávarður rakið sundur blaðastranganm og fundið þar landabréf af Kyrrhafinu og eyjum í því. Og þó var það enn þá einkennilegra að lína var á það dregin með ritblýi alla leið frá San Francisco til Honolulu, og þaðan til Apia. Mílufjöldinn á milli fyrnefndra tveggja staða var skrifaður þarna og tíminn sem fara mundi í þá sjóferð frá San Francisco. Frá Apia lá enn lína langt austur, eða til Paumotus eyjaklasans. Þessi lína var púntuð á landabréfinu, en púntar þessir hættu við eyna Vakitavi. Nokkrir púntar voru gerðir milli þessara staða með nálaroddum. Dorset lávarður tók deilitöngina og bar hana við þessa púnta. Honum þótti vænt um að sjá að deilitöngin féll alveg í þessa púnta. Hann lét hana því næst aftur á sama stað, tók því næst vasabók sína og reit í hana lýsing á eynni og öllum eyjaklasanum.

"Mér þykir það undarlegt, ef ekki er neitt samband í milli Reggie og Vakitavi eyjar," sagði hann.

Nú sneri Margetson sér að honum og sagði að Richard væri kominn að húsinu.

"Það dugir ekki að láta hann komast að því að

við höfum orðið nokkurs vísari," sagði ungi maður inn. "Við verðum að reyna að hafa eitthvað upp úr honum."

Litlu síðar kom Richard inn í herbergið. Hann hafði farið inn í hægðum sínum, og alls ekki búist við neinum gestum. Hann leit því grunsamlega á Margetson og Dorset lávarð um leið og hann bauð þá velkomna. Hann skildi ekkert í því, hvernig á komu þeirra gat staðið. Hann mundi vel eftir því, að Wilkins hafði hitt Margetson, og þá var honum hitt eigi síður minnisstætt, að Dorset lávarður var aldavinur Reggies. Honum fanst því sem koma þeirra mundi ekki spá neinu góðu.

"Viljið þið ekki bíða hér ofurlitla stund?" sagði hann kurteislega. "Eg vona að þið hafið ekki verið búnir að bíða mín lengi?"

"Nei, ekki nema svo sem fjórðung stundar," svaraði Margetson. "Við erum komnir hingað í mjög mikilvægum erindagerðum."

"Einmitt það. Og hvert er þá erindið?" spurði Richard grunsamlega.

"Svo eg segi yður eins og er, þá er það í sambandi við komu manns nokkurs, er hitti mig nýskeð, og bauðst til að selja mér leyndarmál nokkurt er snerti ætt yðar."

Richard hafði verið við þessu búinn og stilti sig mjög vel.

"Er það ruddalegur maður, líkur sjómanni, sem

þið eigið við?" spurði Richard, "svartskeggjaður og hálffullur?"

"Já, rétt er lýsingin," svaraði Margetson hálfhissa á hvað hinn var rólegur. "Eg rak hann út úr skrifstofu minni af því að hann var drukkinn. Eg býst við að hann hafi heimsókt yður, úr því að þér getið lýst honum svona nákvæmlega."

"Já, hann hefir gert mér æfina auma," svaraði Richard, og var það ekki ofsagt. "Hann fór að segja mér dæmalausustu fréttasögur af Reggie. Hann vildi fá mig til að trúa því, að hann væri enn á lífi; og að hann skyldi koma honum til mín ef hann fengi vissa fjárupphæð fyrir."

Það er svo sem auðvitað, að gestum Richards hnykti við að heyra hann segja þessa sögu: þeir höfðu þózt vissir um að ef Richard mintist á komu Wilkins, þá mundi hann segja erindi hans alt annað en þetta. Dorset lávarður fór að halda Richard meiri mannkostum búinn en áður.

"Það er ekki sérlega trúleg saga þetta," sagði Mr. Margetson. "Má eg spyrja hvernig honum fór að detta í hug að maður þessi, sem hann á við, sé Reggie?"

"Það virðist svo, sem þeir hafi hizt í Chicago," svaraði Richard. "Maðurinn þykist hafa þekt hann á myndum sem hann hafi af honum séð í einhverjum blöðum. Og það sem meira er, maðurinn kvað hafa gefið það í skyn, að hann hafi verið nærri því drukknaður í Ermarsundi. Hann hafði verið aðfram kom-

inn á sundi, en amerískt ski- orðið til að bjarga honum og flutti hann til Bandaríkja. Eg sagði við sjálfan mig, að ef Reggie væri á lífi þá væri það skylda mín að finna hann. Ef hann er á lífi, þá hefi eg engan rétt til eignanna."

Þó að undarlegt megi virðast, þá hreyfði ný grunsemd sér hjá báðum mönnunum sem á hlýddu. Þetta var ekki líkt Richard, og í sögunni virtist heldur ekki nokkur heil brú.

"Hafði maðurinn nokkur frekari sönnunargögn fram að færa?" spurði Mr. Margetson.

"Já, hann fékk mér í hendur sönnunargögn, að að því er honum fanst. Það er þessi mynd," sagði Richard og tók ljósmynd upp úr skrifborði sínu.

"Undir eins og eg sá þessa mynd, þá vissi eg að óþarfi var að halda áfram þessu máli," mælti Richard enn fremur, "svo að eg gaf manninum ofurlítil ómakslaun og lét hann fara."

"Þetta er áreiðanlega ekki ljósmynd af Reggie," sagði Mr. Margetson. "Sá maður hlýtur að hafa verið djarfur í meira lagi, sem þorði að færa yður þessa mynd og segja hana af frænda yðar."

Richard svaraði því engu.

"Og segið þér að þér hafið ekki séð manninn síðan?" spurði Dorset lávarður.

"Nei, eg býst ekki við að sjá hann nokkurn tíma aftur," svaraði Richard. "Hann ætlaði sér auðvitað að hafa fé út úr mér, en þegar hann sá að það hepnaðist ekki, þá hætti hann við."

Í þessu var útidyrabjöllunni hringt í ákafa, og Richard hrökk þá við og hljóp til dyranna.

"Segðu, að eg taki ekki á móti neinum gesti," sagði hann reiðulega við manninn, sem við dyrnar stóð.

Steinhljóð varð svo ofurlitla stund, en síðan heyrðist hrópað afarhátt: —

"Þvættingur og lygi — hann er heima. Eg sá til hans, þegar hann fór inn. Vertu ekki að gera gys að mér, ungi maður."

"Nú þykir mér undarlega við bregða," mælti Mr. Margetson; "þetta er vissulega rödd mannsins, sem hitti mig í Weldersham. Blessaðir látið manninn koma inn, lávarður minn. Mér þætti gaman að leggja fyrir hann fáeinar spurningar."

"Eg vildi helzt ekki sjá hann aftur," svaraði Richard. "Hann er mesti ruddi, og vanalega meira eða minna drukkinn."

"Það gerir ekkert til. Þeim mun lausara verður honum um málbeinið," sagði Dorset lávarður.

Þess var því enginn kostur, að Richard kæmist hjá því að hleypa Wilkins inn, hversu leitt sem honum þótti það. Wilkins kom óboðinn og var heldur illa útlits. Hann hafði lent í einhverjum skærum daginn áður, því að hann hafði fengið glóðarauga og bar höndina í fatla.

"Góðan daginn, lávarður minn, eða ekki lávarður ef vill," mælti hann. "Hvað á alt þetta að þýða? Það er ljóti lygarinn þessi maður."

"Hvað viltu hingað og hvað viltu mér?" spurði Richard reiðulega. "Eg man ekki betur en eg segði þér að eg vildi ekki hafa þig í mínum húsum."

"Nú, hvar viltu þá hafa mig?? Eg hélt, að við værum svo góðir kunningjar — þú og eg."

Og hann beið ekki eftir svari, heldur tók til að rausa um það mikla vinfengi, sem væri milli lávarðsins og sín. Mr. Margetson horfði á hann með ógeði en Dorset lávarður og Richard kýmdu að honum.

"Eg heyrði sagt, að þér hafið víða farið Mr. Wilkins," sagði Dorset lávarður vingjarnlega. "Það hlýtur að vera gaman að þekkja eins víða til og þér."

Mr. Wilkins sagðist vera flestum kunnugri um jarðarhnöttinn.

"Og hvenær voruð þér síðast í Chicago?" spurði ungi lávarðurinn.

"Eg var aldrei í Chicago," svaraði Wilkins. "Hvað skyldi eg hafa átt að gera þar?"

"Ef þér voruð aldrei í Chicago, hvernig gat það þá atvikast, að þér hittuð Mr. Reginald Sandridge þar?"

Richard gerði sig líklegan til að grípa fram í, en Margetson benti honum á að hafa sig hægan. Wilkins starði á þá alveg forviða. Síðan veik hann sér að Richard og mælti:

"Hvað vill hann? Eg ætla ekki að verða leiksoppur hans, og ef hann heldur þessu áfram, þá ábyrgist eg ekki hvernig fer, þó að eg sé friðsamur

að öllum jafnaði. Þessi karlfauskur," bætti hann við og benti á Margetson, "var ófáanlegur til að borga mér neitt og því ætla eg ekkert við hann að eiga."

"Yður skjátlast, kunningi," sagði Mr. Margetson. "Ef eg hefði vitað, að þér hefðuð svo merkilegar fréttir að færa, þá hefði eg kunnað að eiga kaup við yður."

"Hvernig vitið þér um merkileik frétta minna?" spurði Wilkins og leit til Richards. "Sagðirðu þeim það þá?"

"Eg tók eftir þér, að þú sagðist hafa hitt manninn í Chicago sem þér virtist mjög svo líkur Reginald Sandridge. Er það ekki rétt?"

Þó að Wilkins væri drukkinn, virtist hann geta skilið hvernig komið var.

"Jú, svo var," sagði hann. "Þar komstu með það; nú er eins og alt rifjist upp fyrir mér aftur. Í Chicago hitti eg hann."

"Mér heyrðist ekki betur en að þér segja, að þér hefðuð aldrei verið í Chicago?" sagði Dorset lávarður rólega.

"Aldrei verið í Chicago! Jú, það var nú helzt; hefi átt þar heima í yfir tuttugu ár. Ef nokkur vill mótmæla því, þá komi hann út og fáist við mig."

Það var auðvitað, að árangurslaust mundi verða að spyrja hann frekara. Hann var annað hvort viti sínu fjær af víni eða vildi ekkert segja nema samkvæmt vilja húsbónda síns, og loks fór hann út.

"Eg skal koma honum út," sagði Richard. "Eg kem bráðum aftur."

Hann fylgdi Wilkins fram og lokaði dyrunum vandlega á eftir honum.

"Hér er ekki alt með feldu,' 'sagði Dorset lávarður í eyra Margetsons. "Það getur verið, að maðurinn sé drukkinn, en hann er ekki eins drukkinn eins og hann lætur. Hann kom til að finna Richard, en þegar hann sá okkur, hafði hann vit á að láta eins og hann lét."

"En hvers vegna "

"Jú, lıttu á, Margetson, eg þykist þess nú fullvís, að Reggie sé á lífi. Meira að segja að Richard veit það, og hann hefir alt annað en þokkalega ráðagerð á prjónunum."

"Eg verð að biðja ykkur að afsaka ónæðið, sem þessi náungi gerði ykkur," sagði Richard þegar hann kom aftur. "Eg átti enga von á honum. Ef hann dirfist að hegða sér svona aftur, þá neyðist eg til að kalla á lögregluþjón."

"Það væri langbezt," sagði Mr. Margetson. "En snúum nú að aðalefninu. Ef ljósmynd þessa er nokkuð að marka, þá er það líka víst, að maður þessi í Chicago er ekki frændi yðar. En er það alveg víst að þetta sé myndin af manninum, sem hann hitti?"

"Eg hefi hugsað það atriði, og hefi komist að niðurstöðu, sem eg vona að ykkur falli vel í geð líka. "Eg hefi ekki verið heilsusterkur undanfarnar vikur, og læknir minn hefir ráðlagt mér að skifta um dval-

arstað. Eg hefi þessvegna hugsað mér, að fara strax vestur í Bandaríki, og ef mögulegt er að hitta þenna mann og vita vissu mína um hver hann sé."

"En þessi ljósmynd ætti að vera næg sönnun fyrir því, að þetta getur ekki verið Reggie. Haldið þér að það sé þá þess virði að leggja í jafnmikinn ferðakostnað að eins þess vegna?"

"Eg hirði ekki svo mikið um kostnaðinn," svaraði Richard í flýti. "Ef frændi minn er á lífi, þá er ekki nema sjálfsagt að eg leiti hann uppi, og það ætla eg mér að gera, hvernig sem alt veltist."

"En þegar þér eruð búinn að leita af yður allan grun í Chicago og meginlandi Ameríku, hvað ætlið þér þá að gera?"

"Eg hefi ekki ráðið það við mig enn þá. Það er ekki ómögulegt, að eg kynni að fara yfir Kyrrahafið til Japan, eða Ástralíu og ef til vill heimleiðis vestur um Indland."

"Haldið þér, að nokkrar líkur séu til að þér fynduð Reggie í Suðurhafinu?" spurði Dorset lávarður svona rétt eins og af tilviljun.

Andlitið á Richard varð svo aumkvunarlegt, að lávarðurinn sá að nú hafði hann komið við hann.

"Í Suðurhafinu? Því ætti hann að vera þar Ekki dettur mér í hug að eyða tíma í slíkt. Það væri engu ólíklegra að hitta hann í Trafalgar Square heldur en þar."

Nú varð þögn. Því næst spurði Margetson

skjólstæðing sinn hvenær hann hefði hugsað sér að leggja af stað til Chicago.

"Rétt strax," svaraði Richard. "Ef maðurinn sem Wilkins sá er þar, þá verð eg að ná ı hann áður en hann hefir tíma til að komast burtu. En ef eg fer, þá verð eg margs að biðja yður að gæta hér á Englandi, Mr. Margetson."

"Eg er náttúrlega reiðubúinn til þess," svaraði lögmaðurinn. "Eg vildi að eins að þér hefðuð léð mér tiltrú yðar undir eins og þér hittuð manninn. Eg hefði kunnað að geta verið yður til aðstoðar."

"Eg vildi líka, að eg hefði gert það," svaraði Richard. "En af því að eg hefi enga trú á því að saga hans sé á nokkru bygð, þá held eg ekki að mikils hafi verið í mist."

"Eg býst ekki við því,' 'svaraði Mr. Margetson æði þurlega. "En eg verð að segja það samt, að mér hugnar ekki svipurinn á manninum, hann er svo flóttalegur'."

"Ætli við sjáumst aftur, áður en þér siglið?" sagði Dorset lávarður.

"Eg get ekki sagt neitt nákvæmlega um það," svaraði Richard, en svipur hans bar vott um að hann mundi engar gildrur gera til þess.

Þegar þeir voru farnir út gengu þeir stundarkorn þegjandi, Margetson og Dorset lávarður.

"Eg er viss um, að Reggie er á lífi, og Richard veit það," sagði hinn síðarnefndi.

"Leggurðu nokkurn trúnað á Chicagoförina?"

"Nei, alls enga, ef Reggie er á lífi, þá er hann á Paumotus eyjunum."

"En hvað sýnist yður þá ráðlegast?"

"Að finna hann," svaraði lávarðurinn rólega; "Eg ætla að verða fyrri til en Richard."

"Og hvað ætlið þér nú fyrir yður fyrst?"

"Eg ætla til South Kensington; eg var búinn að lofa Miss Maddison því að láta hana vita hvernig viðskifti okkar færu."

"Heyrið mig, lávarður minn," sagði Margetson. "Haldið þér að rétt sé að vekja hjá henni vonir, sem þér getið kannske ekki látið rætast? Okkur er báðum kunnugt um það ,að henni var mjög hlýtt til frænda síns."

"Já, og meira en það, því að hún elskaði hann, og eg veit að hann unni henni einnig. En þér vitið að það fór miður en skyldi, vegna Mrs. Dartrell. Ætlið þér að verða mér samferða eða fara aftur til Weldersham?"

"Eg ætla að verða yður samferða."

Og svo fóru þeir báðir að finna Miss Maddison og beið Dorothy eftir þeim.

"Jæja, hvaða fréttir hafið þið að færa "

Dorset lávarður sagði henni eins og farið hafði, bæði frá fundi landabréfsins og upplýsingunum sem þeir hefðu aflað sér.

"En hvernig stendur á því, að Reggie skuli ekki hafa gert okkur aðvart, ef hann er staddur á þessari eyju?" spurði Dorothy. "Hann hafði ekki gert sig

sekan í neinu og nægilegt fé var fyrir hendi til þess að borga öllum skuldunautum hans."

"Það er rétt," svaraði lögmaðurinn.

"En hvað eigum við nú að gera?" spurði Dorothy.

Í fyrsta lagi verðum við að hafa auga á Richard, í öðru lagi að komast fyrir þetta leyndarmál í Kyrrahafinu," svaraði Dorset lávarður.

"En hvernig eigum við að fara að því?" spurði Dorothy, "og hvers vegna haldið þér að Richard ætli að fara til Kyrrahafseyjanna?"

"Landabréfið vakti þann grun hjá mér," svaraði Dorset lávarður, "og svo sýndist mér það líka á Richard, þegar eg mintist á eyjarnar."

"En ef Reggie finst þá missir Richard eignirnar og nafnbæturnar. Er ekki svo Mr. Margetson?"

"Jú, vitanlega," svaraði lögmaðurinn. "En eg er hræddur um, að Richard frændi yðar reyni að halda í þetta í lengstu lög."

"Við megum til með að hafa gát á hvenær hann leggur af stað," sagði lávarðurinn.

"Og viljið þið segja mér hvað þið ætlist fyrir?"

"Já, sjálfsagt," sagði ungi maðurinn. "Eg ímynda mér að heimsókn okkar í dag hafi heldur hert á honum, og nú verð eg að kveðja yður af því að eg á mjög annríkt. Eg treysti á hjálp yðar, Margetson."

"Það er yður óhætt," svaraði gamli maðurinn, "en eg veit ekki, hvernig eg ætti að geta hjálpað yður sem stendur."

"Og á eg ekkert að gera?" spurði Dorothy.

"Jú, þér getið mikið hjálpað okkur um það lýkur," svaraði lávarðurinn.

"Hvernig þá? Viljið þér ekki segja mér það."

"Með því að taka vel á móti langferðamanninum, ef hann finst aftur."

Arnljótur B. Olson

## XIII. KAPITULI.

Þegar þeir voru farnir,, Dorset lávarður og Mr. Margetson, fleygði Richard sér niður á hægindastól og bar sig svo vesaldarlega, að ætla hefði mátt að hann ætti skamt eftir.

"Þeir ætla að neyða mig til þess," tautaði hann. "Ef eitthvað ilt hlýst af þessu, þá er engum um að kenna nema þeim. Og Wilkins gæti eg kyrkt í greip minni eins og grátitling. Það var ekki hans dygð að þakka, að ekki komst alt upp áðan. Hvað á að gera? Eg er eins og milli steins og sleggju."

Richard hafði mikið um það hugsað síðustu dagana hvað hann ætti að gera, og ekki samt afráðið neitt. Hann leit á málið frá ýmsum hliðum. Eitt var víst. Að ef það kæmist á loft að Reggie væri lifandi, þá mundi ekki langt um líða þangað til vinir hans hefðu upp á honum, og kæmu heim með hann. Richard yrði þá bæði að sleppa öllum eignunum og sömuleiðis að standa frænda sínum skil á öllu sem hann hefði eytt frá því að hann tók við.

Til þess mátti hann ekki hugsa. Og auðnum gat hann ekki slept — hann vildi heldur— En hann lét ekki uppi fyrirætlanir sínar. Mr. Wilkins kom aftur um kvöldið. Þá var hann alveg ódrukkinn.

"Nú, hvað viltu þá?" spurði Richard afundinn. "Ertu kominn aftur til að hlaupa á þig eins og asni?"

"Eg er kominn til að ráðgast við þig lítilsháttar," svaraði Wilkins. "Það var ljóta heimsóknin sem við fengum."

"Það lá nú líka við. að þú ónýttir alt vegna fiandans drykkjuskaparins í þér," svaraði Richard. "Eg ímynda mér, að þeir hafi getið sér hins rétta til."

"Alls ekki,' 'svaraði hinn. "Vertu ekki að hrella þig með þeirri hugsun, lávarður minn; það er sitt hvað Chicago og Kyrrahafið."

"En það getur orðið okkur til falls, se mupp úr þér glopraðist samt."

"Vertu ekki að þessari vitleysu. Þeim dettur ekki í hug að leita hans þar."

"Hvernig veiztu það?"

"Af því að Reggie er orðinn eins og barn. Hann hefir alveg mist minnið. Og í annan stað er á það að líta, að koma má í veg fyrir að þeir geti nokkurn tíma vitað nokkuð, ef þér er það kappsmál á annað borð."

"Hættu. hættu ,maður! "Hvernig getur þér dottið annað eins í hug?" sagði Richard reiðulega.

"Mér finst slíkt ekkert óskaplegt," svaraði Wilk-

ins, "ef þú heykist á að ganga beint að verki, þá kemur hann heim til Englands og rekur þig frá öllu. Þér er bezt að vera ekki með neina uppgerð. Þú hefir sjálfur verið að hugsa um þetta. Eg er fús á að sjá fyrir öllu sjálfur, ef eg fæ sæmilega upphæð fyrirfram og aðalverkalaunin þegar alt er klappað og klárt."

Richard sat grafkyr og horfði beint fram undan sér og var náfölur í andliti. Um hvað var hann að hugsa?

"Hlustaðu nú á," sagði Wilkins loksins. "Þú hefir öðlast nafnbætur, góða stöðu og nægilegt fé. Geturðu óskað nokkurs sem meir er um vert? Ef frændi þinn kemur heim, þá missirðu alt! Mundu það!"

Richard hrökk við eins og hann hefði verið skotinn.

"Farðu burt!" mun frændi þinn segja, og þú verður að fara."

Richard þagði enn.

"En segjum svo, að það kæmist upp að þú hefðir alt um það vitað, hvar hann var niður kominn, þá fengirðu fyrirgefninguna. En líttu nú á hverig eg skoða þetta. Hér er um litla ey að ræða, þar sem eru tveir hvítir menn. Eg mundi leigja mér skip og fara þangað án þess nokkur vissi. Við færum báðir þangað og hittum manninn, sem við vildum finna, en hann þekti okkur ekki en við þektum hann. En svo mundi það atvikast svo meðan við dveldum þar, þá steyptist þessi maður fram af hömrum og týndist, og

yrði jarðaður að kristinna manna sið. Fáðu mér í hendur fé það, sem þú lofaðir mér, og svo skulum við skilja og aldrei sjást framar. Þetta er auðvelt, ekki nokkur minsta áhætta."

"Herra trúr, Wilkins, þú ert aumi þorparinn. Ætlarðu að koma mér til að myrða frænda minn?"

"Og því þá ekki? Yfir hverju ertu að grufla? Hefir þú kannske ekki verið að hugsa um þetta sjálfur, síðan eg sagði þér að frændi þinn væri á lífi? Þú þorir bara ekki að láta það uppi. Eg mundi fá fimm þúsund þegar við legðum af stað, og hin fimm þegar við skildumst fyrir fult og alt. Genguröu að þessu?"

Síðan varð löng þögn, og svo sagði Richard:

"Nei, nei, eg get það ekki."

"Þá væri betra fyrir þig að láta það uppi hvar frændi þinn er. Viltu þá ekki að eg finni eitthvert dagblaðanna og segi því frá málavöxtum? eg býst við að eg fengi að minsta kosti eitt pund fyrir að segja þeim alt sem eg veit. Eg er viss um, að það vekti æði mikla eftirtekt svona fyrirsögn í blöðunum:

"FUNDINN ERFINGI.

*Frændi hans vissi um dvalarstað hans en neitaði að segja til hans."*

"Þú þorir ekki að gera það."

"Þori eg það ekki? Þá þekkirðu mig illa, lávarður minn!"

"Eg verð að fá frest til að hugsa um þetta," svaraði Richard.

"Gott og vel! Hugsaðu um það. Eg ætla að koma annað kveld og heyra hvað þú hefir ráðið af. Eg skal ábyrgjast að eg geri minn hluta sæmilega."

Að svo mæltu fór Wilkins.

"Já, hann mun gera sinn hluta," sagði Wilkins við sjálfan sig. "Ef hann felst á þetta, er hann kominn í klærnar á mér fyrir fult og alt ,og eftir það sleppi eg honum aldrei. Heppinn var eg, þegar eg rakst á þenna mannræfil í Honolulu." Því næst fór Wilkins inn í fyrsta veitingahúsið, sem fyrir honum varð.

Þrem dögum síðar fékk Mr. Margetson svohljóðandi bréf frá Dorset lávarði:

"Kæri Margetson!

"Eg rita yður þessar línur til að láta yður vita, að Richard vinur okkar lagði af stað í gær með fólksflutningaskipi til New York. Wilkins fór með honum. Eg ætla að veita þeim eftirför, og yður kann að furða á því, að Mrs. og Miss Maddison verða mér samferða. Eg veit enn ekki hversu lengi við verðum burtu, eða hvaða árangur verður að leitinni, en ef við finnum Reggie munum við koma heim með hann sigrihrósandi.

"Eg er yðar einlægur,

"Dorest."

"Og eg vona, að hamingjan gefi, að þau finni hann," sagði Mr. Margetson.

---

## XIV. KAPITULI.

Enginn, sem séð hefir San Francisco, mun gleyma henni aftur. Þar má líta dýrðlegar hallir miljónaeigendanna á Nobs Hill og hins vegar hin hrörlegu hreysi í Kínverja-hverfinu, og margt er þar nýstárlegt að sjá.

Ferðafólk okkar hafði samt ekki tóm til að gerskoða þar neitt. Eins og getið var um í næsta kapitula á undan hafði það lagt af stað til Ameríku jafnskjótt og kunnugt var orðið um ferðalag Richards. Það hafði lagt af stað með næsta skipi, og kom á ákveðnum tíma til New York, og hrepti þó ill veður. Þegar þangað kom, frétti það að Richard og förunautur hans hefðu lagt af stað til San Francisco fyrir rúmri viku. Hélt það þá tafarlaust áfram ferðinni á eftir honum vestur; en þegar þau komu til San Francisco fóru þau með meiri varkárni en áður, því að það vildi ekki að Richard fengi njósn af sér. Fyrst urðu þau að útvega sér vitneskju um hvort hann væri þar í borginni. En hvernig átti að fara að því? Dorset lávarður hafði mikið um það hugsað og mælti við Mrs. Maddison, þegar þau fóru út úr járnbrautarstöðinni

"Eg held að eg verði að yfirgefa ykkur ofurlítið. Eg veit ekki hvert eg ætti að láta ykkur fara. Verst

væri ef við skyldum verða svo óheppin að lenda á sama gistihúsinu eins og Richard."

"Við verðum að eiga það á hættu," svaraði hún. "Mig grunar einhvern veginn að Richard sé ekki í borginni."

Undir eins og þær voru komnar inn í rólegt gistihús, hraðaði Dorset lávarður sér til skrifstofu Mr. J. Winter Wigram miljónamanns. Þangað hafði hann bréf frá Sir George Welbrooke.

Þegar þangað kom heilsaði hinn mikli maður Dorset vingjarnlega og spurði tíðinda.

"Eg færi yður hér bréf frá Sir George Welbrooke," mælti Dorset lávarður.

"Það þykir mér vænt að heyra," svaraði hinn "Eg er fús að gera yður allan þann greiða, sem eg get, meðan þér dveljið í bænum. Hvenær komuð þér?"

"Við komum í dag," svaraði lávarðurinn, "og höfum hér svo stutta viðdvöl sem við getum."

"Eg heyri að þér segið "við", og býst því við að þér hafið konu yðar með yður," sagði Mr. J. Winter Wigram.

Dorset lávarður brosti.

"Nei, ekki er það rétt. En með mér eru samt tvær konur, og langar mig nú til að segja yður frá erindum okkar."

"Já, gerið það."

Dorset lávarður skýrði honum því frá öllum málavöxtum viðvíkjandi erfðunum að Weldersham-eignunum, og áformi þeirra að komast til eyjarinnar

þar sem haldið var að Reggie væri, og að þau vildu umfram alt ná þangað á undan Richard.

"Þetta er erfitt viðfangs," svaraði Mr. Wingram. "Maðurinn sem þið eruð að elta hefði átt að vera kominn hingað fyrir viku eða svo. Eg get ímyndað mér að hann og félagi hans hafi farið til Apia með póstskipinu, og ætli að leigja sér þar seglskip og sigla til Vakitavi. Yður er kannske ókunnugt um að skipið til Honolulu fór héðan fyrir rúmri viku?"

Nei, það vissi eg ekki. En ef svo er, hvernig á eg þá að veita honum eftirför?"

"Eg skal reyna að hjálpa yður eftir megni, og skal þá fyrst leyfa mér að bjóða ykkur heim til mín."

Dorset tók því með þökkum.

"Það er þá fastráðið," mælti Mr. Wigram. "Vagninn skal vera til eftir hálfa klukkustund, og getum við þá farið að sækja samferðafólk yðar, en á meðan við bíðum hans, ætla eg að spyrjast fyrir um Weldersham greifann. Hvað ætli hann nefni sig á þessu ferðalagi?"

"Sanderson," svaraði lávarðurinn.

"Nú ætla eg að víkja mér frá augnablik," sagði Mr. Wigram, "og þegar við leggjum af stað til gistihússins, vona eg að geta sagt yður hvar greifinn er niður kominn."

Tuttugu mínútum síðar kom vagninn og stigu báðir herramennirnir upp í hann. Þeir sóttu Mrs. Maddison og dóttur hennar og óku þeim til heimkynna Mr .Wigrams á Nobbs Hill, og fengu þær þar

ágætar viðtökur hjá konu miljónaeigandans ,og voru þau þar öll fram á næsta dag. Þá kom Mr. Wigram til Dorset lávarðar og bauð honum að aka með sér til kunningja síns.

"Eg hefi orðið þess vísari," mælti hann, "að Mr. Sanderson er hvergi í borginni ,en lagði af stað til Apia með síðasta skipi, sem fór héðan þangað, sama daginn sem hann kom hér." Svo bætti hann við nærri því eins og út í hött: "eg vona að yður geðjist vel að vini mínum, Mr. Hobbkins."

"Skrifstofur Mr. Hobbkins voru enn þá tilkomumeiri en Mr. Wigrams. Þegar þar kom tók húsbóndi Wigram vini sínum tveim höndum og settust þeir síðan allir þrír að drykkju.

Mr. Hobbkins tók fyrstur til máls þegar þeir voru seztir niður, og mælti:

"Wigram vinur minn hefir sagt mér frá því, að yður sé umhugað um að komast til Pautmotuseyja, Dorset lávarður."

"Það er satt," svaraði lávarðurinn.

"Eg leyfði mér að segja Mr. Hobbkins ofurlítið af sögunni sem þér sögðuð mér," sagði Mr. Wigram.

"Það er rétt; eg vona að Mr. Hobbgins flíki því ekki að óþörfu."

Hann játti því, og tóku þeir síðan að tala um ferðalagið, og heyrði Dorset lávarður þá að Mr. Hobbkins átti lystisnekkju nokkra þúsund tonna, og að hann hafði í hyggju að leggja af stað í langa sjóferð með konu sína um það leyti.

"Eg hefi aldrei komið til Paumotus eyjanna," sagði hann, "en eg hefði gaman af að sjá þær." Ef ykkur er ant um að komast þangað gæti eg gjarnan siglt þangað og veitt ykkur þar. Það er ekki verra að sigla þangað en eitthvað annað."

"Mér kemur tilboð yðar mjög vel, þó að eg ætti ekki von á því," svaraði Dorset lávarður, "og þigg það með þökkum, ef yður er alvara."

"Já, víst er mér alvara. Þér getið sagt til hvenær við eigum að leggja af stað."

Um kveldið snæddu Hobbkinshjónin hjá Wigram og var þá afráðið að leggja af stað eftir tvo daga.

"Hvernig á eg að þakka yður þessa greiðvikni?" sagði Dorothy.

"Með því að skemta yður sem bezt, þegar við erum komin á skip," svaraði hinn kurteisi San Francisco maður. "Eg er viss um, að yður þykja eyjarnar fallegar."

"Eg hugsa að mér verði annara um að finna frænda minn, en að skoða landslag þar," svaraði Dorothy, og Mrs. Hobbkins sagði manni sínum síðar að hún héldi að Dorothy hefði haft ást á hinum týnda manni.

Þau urðu að bíða einum degi lengur en þau höfðu búist við, og þótti þeim mæðgum og Dorset lávarði illur sá dráttur, því að Richard var lagður af stað á undan þeim.

"Mér er verst við að hann sklydi hafa Wilkins með sér," sagði Dorset lávarður. "Sá maður svífist

einskis. Hann hefir Richard á valdi sínu, og má hamingjan vita hverju þeir fá til leiðar komið."

"Það er engan veginn álitlegt,' 'svaraði Hobbkins, "en ef við komumst til eyjarinnar á undan þeim þá býst eg við að ekkert sé að óttast. Eg þori að ábyrgjast, að þeir verða að bíða í Apía."

"Það vona eg líka," svaraði lávarðurinn.

"Eg er í engum vafa um það, og hraðskreiðara skip er ekki til milli San Francisco og Vancouver heldur en snekkjan mín."

Dorset lávarður sannfærðist fljótt um það. Snekkjan hét "Golden Queen", og var hin skrautlegasta og ákaflega gangleg. Skipstjóri var ágætur sjómaður og nauðakunnugur Kyrrahafi. Hann kvaðst ekki skyldi spara til þess að ná til eyjarinnar á undan þeim Richard. Mr. Wigram og kona hans fylgdu þeim á skip og lögðu að þeim að hitta sig á heimleið og láta sig vita um úrslit fararinnar.

Þau lögðu út úr höfninni að kveldi dags og tíu fyrstu dagana af leiðinni bar ekkert til tíðinda. Skipið gekk vel, veðrið var gott, himininn heiður og hafið blátt og bárulaust lengst af. Hobbkins hjónin veittu þeim gestum sínum ágætlega, og innan skamms tókst þar á milli góður vinskapur.

Eitt kveld stóðu þau Dorothy og Dorset lávarður við öldustokkinn og horfðu út á hafið.

"Mér er mikil forvitni á að vita hversu ferð okkar tekst," sagði hún. "Stundum finst mér eins og við hafa reist okkur loftkastala sem hljóti að hrynja.

Það sýnist vera svo skamt síðan við vorum í Lundúnum, og nú erum við komin út á mitt Kyrrahafið að leita manns sem ekki hefir spurst til svo árum skiftir þangað til fyrir fáum vikum."

"Guð gefi að við finnum Reggie," sagði Dorset lávarður innilega.

"Dorothy þagði fyrst, en sneri sér svo að lávarðinum og mælti:

"Segið mér, Dorset lávarður, hvað haldið þér að Richard ætli sér að gera við Reggie, ef hann finnur hann?"

"Því er erfitt að svara. Hann kann að vera að leita hans til að fá honum í hendur réttmætar eignir hans. Hann sagði okkur Margetson það að hann fengi enga ró í sín bein fyr en hann væri búinn að fá fulla vissu um hvort hann ætti réttilega tilkall til eignanna eða ekki."

"Það lætur vel í munni, en því miður er það ólíkt Richard. En hvers vegna lét hann ykkur ekki vita þegar hann fór til Chicago?"

"Líklega til þess að við forvitnuðumst ekki um ferðir hans."

"Mig hefir dreymt herfilega drauma nýverið," mælti hún, "og mig hefir líka dreymt það mjög bert að við höfum verið blekt og að maðurinn sé ekki Reggie. Hvað eigum við þá að gera?"

"Við verðum að vænta hins bezta. Eg skil ekki í því," mælti lávarðurinn, "að Richard færi að leggja í þenna kostnað, nema að hann væri hér um bil viss um að Reggie væri á lífi."

Daginn eftir náðu þau til Paumotus eyjaklasans. Eyjarnar voru misstórar, sumar sæbrattar og næsta fagrar. Sjóðleiðin milli þeirra var engan veginn hættulaus svo að skipið fór mjög hægt, en bjuggust þeir samt við að ná til Vakitavi eyjar morguninn eftir.

Það reyndist líka rétt, því að þegar Doorthy leit út um glugga morguninn eftir, sá hún að skipið var komið inn á litla vík og var fyrir henni miðri hvít sandfjara og þar ofan við stóð ljósmálað hús. Framan við það voru breiðar svalir, en á bak við það þéttur skógur. Hún klæddi sig í snatri, bauð móður sinni góðan daginn og flýtti sér upp á þilfar. Þar mætti hún Dorset lávarði.

"Eg vona, að þér flytjið engar illar fréttir," mælti hún.

"Eg veit ekki," svaraði hann, "en hitt er víst, að hér er skip inni á höfninni og eg er hræddur um að Richard sé á því. Þeir hafa náð hingað fyr en við bjuggumst við."

"Hvað er nú til ráða?"

"Við höfum verið að ráðgast um það, og eg held að hyggilegast verði að Mr. Hobbkins fari í land og spyrjist fyrir. Ef Reggie er þar, þá þekkir Mr. Hobbkins hann af ljósmyndinni, og getur sjálfsagt fengið hann með sér hingað út á snekkjuna."

"Eg ætla að fara strax," sagði Mr. Hobbkins, sem kom að í þessu.

Hann gekk síðan ofan eftir skipinu en þau lávarðurinn og Dorothy fóru iun í reyksalinn, en það-

an gátu þau séð alt sem gerðist í landi, án þess að vart yrði við þau.

Skipið hafði lagst á litlum polli, en rif var skamt þaðan og skein þar á hvítt brimlöðrið. Fáa faðma frá snekkjunni lá stór skonnorta, og lagði bláleitan reykinn upp úr reykháfnum á henni.

Nú var báturinn kominn að hlið snekkjunnar og steig Mr. Hobbkins í hann og réri frá skipshliðinni. Hann fór samt ekki beint í land heldur stefndi að skonnortunni og lýsti síðar viðtökunum sem hann fékk þar þannig:

"Þar tók á móti mér maður hár vexti, alls ólíkur því, sem lávarðinum af Weldersham hafði verið lýst fyrir mér. Hann kvaðst vera skipstjóri á skonnortunni, en spurði hver snekkjuna ætti. Eg sagði honum það. En rétt í því kom maður lítill vexti til hans upp á þilfarið og brá mér heldur en ekki í brún er hann ávarpaði hann með nafninu Sanderson, og sá eg þá að grunur okkar var ekki ástæðulaus. Eg sá strax að honum varð illa við er hann tók eftir snekkju okkar. Hann fór jafnvel að spyrja um erindi mitt til eyjarinnar og hvenær eg ætlaði burtu þaðan. Wilkins sá eg ekki og spurði ekki eftir honum. Eg kvaddi og fór frá skipshliðinni og lenti rétt á eftir í víkinni neðan við húsið. Það er þægilegt hús og búð í öðrum endanum, en íbúðar herbergi í hinum og breiðar svalir á þrjá vegu. Dyrnar á báðum þeim herbergjum voru opnar og sátu þar inni tveir hvítir menn að snæðingi. Annar þeirra var breiðleitur og glaðlegur og skeggjaður. Hinn mann-

inn þekti eg strax. Hann er öldungis eins og myndin sem Miss Maddison hefir."

Dorothy rak upp vein og hné niður á stól.

"Verið hughraust! verið hughraust!" sagði Dorset lávarður.

"Eg bauð þeim góðan daginn, og tóku þeir því. Breiðleiti maðurinn spurði mig hvaðan eg kæmi, og sagði eg honum það. Síðan bauð hann mér að borða með þeim og þáði eg það, og þótti gott tækifærið að kynnast þeim. Ungi maðurinn steinþagði alt af. Augnaráð hans var draumkent og mjög einkennilegt."

"Er hann veikur?" spurði Dorothy kvíðandi.

"Nei, alls ekki, en þó furðaði mig á þögn hans og háttsemi Loks spurð eg hann hvað hann hefði verið lengi á eynni, en hann sagðist ekki vita það."

"Félagi minn hefir orðið fyrir því slysi að missa minnið algerlega," svaraði breiðleiti maðurinn. "Ef mér félli ekki jafnvel við hann eins og mér gerir, mundi eg vera búinn að vísa honum burtu, því að hann gerir mér ýmsa erfiðleika. Stundum fer hann út í skógana, svo að eg verð að leita hans og fylgja honum heim aftur. En hann er dyggur að líta eftir búðinni, og sjá um að svertingjarnir steli engu, en þó að þú spyrðir hann hvað hann hefði selt þeim, væri honum ómögulegt að segja þér, hvort það hefði verið brennivín, sprengiefni eða tóbak. Eg vissi ekkert hvað eg átti við hann að gera þegar hann kom hér fyrst. Það var fyrir rúmu ári. En samt

hefir hann verið hjá mér síðan, og við erum nú orðnir mestu mátar."

"Já," við höfum þolað hér súrt og sætt," sagði ungi maðurinn; "eg veit ekki hvað af mér hefði orðið ef þú hefðir ekki verið."

"Eg bauð þeim að koma með mér út í lystisnekkjuna, en þeir kváðust ekki geta komið því við í svipinn, en skyldu koma seinna."

"En við megum ekki bíða neitt," sagði Dorothy. "Eigum við ekki að fara í land og sækja hann?"

"Eg held vi ðættum að hinkra ofurlítið við," sagði Mr. Hobbkins. "Þið eigið líka eftir að borða."

"Eg ætla að segja mömmu frá þessu," sagði Dorothy. "Henni þykir það ekki nærgætnislegt ef eg dreg það lengi. Guði sé lof að við fundum hann — aumingja Reggie.."

Síðan var sezt að morgunverði og höfðu þau naumast lokið við hann þegar þau heyrðu áraglam, og því næst var kallað til þeirra út báti.

"Þetta er eigandi búðarinnar," sagði Mr. Hobbkins. "Hann heitir Ainsley."

"Þá kemur hann," hrópaði Dorothy og greip um bakið á stól sem hún stóð við. Móðir hennar tók um handlegg hennar, en þeir ruku upp stigann Dorset lávarður og Hobbkins. En þeim brá í brún þegar þeir sáu þar búðareigandann einan.

"Hvers vegna komið þér ekki með félaga yðar?" spurði Mr. Hobbkins snúðugt

"Af því að hann ranglaði eitthvað burtu eins og hann er vanur eftir morgunverð. Eg veit að ekkert getur gengið að honum, en hann hefði ekkert hingað að gera, því að það á ekki við hann að sitja á tali við konur."

"Hvernig vissuð þér, að kvenfólk væri hér?" spurði Mr. Hobbkins hissa.

"Þetta bendir til þess," mælti kaupmaðurinn og tók upp knyplingadúk sem lá hálfsaumaður á stól á þilfarinu.

"Komið þá niður með mér." sagði Hobbkins.

Síðan fylgdi hann kaupmanninum til þeirra mæðgna, og tók hann að spyrja þær um ferðalagið og hvort að þær hefðu ekki gaman af að hann sýndi þeim eyna.

"Við höfum alvarlegt mál við yður að ræða fyrst," sagði Dorset lávarður.

"Eg hélt að þið væruð að sigla ykkur til skemtunar," svaraði Mr. Ainsley.

"Nei, við erum í öðrum erindagerðum," svaraði Dorset lávarður og gaf Dorothy merki um að fara burtu; hún fór yfir í svefnklefa sinn og kom aftur að vörmu spori með mynd af Reggie og setti hana á borðið frammi fyrir kaupmanninum.

"Nú er eg öldungis hissa." hrópaði hann; "þetta er félagi minn; hvernig í ósköpunum náðuð þið í þessa mynd?"

"Það er löng saga að segja frá því, og ferðalag okkar stendur í sambandi við hana," svaraði Dorset lávarður. "Mér skyldist svo á vini mínum, Mr.

Hobbkins, að þér vera nákunnugur manninum, sem þessi mynd er af."

"Já, við höfum verið hér eins og bræður. Hverjum sem kynnist honum ,hlýtur að þykja vænt um hann."

"Þá held eg bezt sé að segja yður sögu hans. Kvenfólkið fyrirgefur þó að við göngum upp í reyksalinn til að tala saman um það."

Síðan settust þeir niður í reyksalnum og hóf Dorset lávarður þar að segja sögu Reggies, og furðaði kaupmann meira en lítið á henni. En þegar þar var komið frásögninni er þau höfðu lent við eyna, og þau lýstu undrun sinni yfir því að hafa rekist á skip þar, og gáfu í skyn að þeir hefðu illan bifur á þeim sem á skipinu voru, og ugðu um líf Reggies, spratt Mr. Ainsley upp, rak hnefann niður í borðið og hrópaði:

"Og hér sitjum við og reykjum vindla í makindum, meðan þess eru allar líkur að morðið verði framið á eynni."

"Við hvað eigið þér?" hrópuðu þeir Dorset lávarður og Mr. Hobbkins.

"Eg á við það, að eg mundi ekki hafa farið út í þessa snekkju í morgun, ef mér hefði verið þetta kunnugt, þar sem tveir menn eru komnir í land fra skonnortunni með byssu og þóttust ætla á villisvína veiðar og kváðust skyldu hafa Reggie heim með sér."

Nú spruttu hinir líka upp og Dorset mælti:

"Þeir ætla ekki að skjóta villisvín! Það er hann, sem þeir ætla að skjóta."

"Förum eftir þeim," mælti kaupmaðurinn, "og ef þeir gera honum nokkurt mein, skulu þeir eiga mig á fæti!"

Fimm mínútum seinna reru þessir þrír lífróður í land.

---

## XV. KAPITUL.

Og þessir þrír, sem í land reru, voru í meir en litlum æsingi. Hversvegna höfðu þeir Richard og Wilkins haft byssur meðferðis þegar þeir fóru í land? Allir vissu, að Richard var enginn sportmaður, og það var næsta ólíklegt að Wilkins hefði nokkurn tíma farið á villisvínaveiðar fyrri.

"Ef þeir gera honum nokkurt mein, þá skýt eg Richard," sagði Dorset lávarður.

Mr. Ainsley sagði ekki neitt, en það var auðséð á honum, að honum bjó hið sama í skapi.

Þegar þeir voru lentir varð engin viðdvöl, en Mr. Ainsley gekk með þeim heim að búðinni.

"Við verðum að flýta okkur eins og við getum, en þó verðum við að hafa byssur með okkur."

Síðan hljóp hann inn í svefnherbergi sitt og kom aftur að vörmu spori með tvo Winchester riffla. Annan fékk hann Dorset lávarði en hinn hafði hann sjálfur. Mr. Hobbkins hafði nikkelbúna marghleypu með sér, en ekki geigvænlegt verkfæri því að kúlurnar úr henni voru ekki stærri en baunir.

"Ef þeir eru ekki búnir að finna hann," sagði Ainsey, "þá held eg að eg vita hvar hann er. Ef hann er sjálfráður þá fer hann vanalega yfir að klettunum hinum megin á eynni og situr þar og starir út á sjóinn svo klukkustundum skiftir. En hvað hann getur verið að hugsa um get eg ekki skilið."

Ainsley þurfti ekki að hvetja förunauta sína til að hraða ferðinni. Þeir hurfu frá búðinni og fóru fram með víkinni eitthvað tvö hundruð faðma og síðan viku þeir upp á hæðirnar á sunnanverðri eynni. Þar var mjög þétt kjarr, svo að trautt varð komist í gegn um það. Þeir héldu samt áfram og hlustuðu um leið, ef þeir kynnu að verða einhvers varir. Einu sinni sáu þeir grilla í víkina gegnum skóginn og sáu bæði lystisnekkjuna og skonnortuna liggja þar kyrrar. Einskis höfðu þeir enn orðið varir, sem þeim þótti grunsamlegt, en torsótt varð þeim gangan, einkum Hobbkins, því að hann var mjög holdugur og ovanur slíku ferðalagi. Dorset og Ainsley gekk betur. Hinn fyrnefndi var vanur fjallgöngum frá Skotlandi, frá því að hann var þar á dýraveiðum. Þeir komust loks upp á eina hæðina á eynni en fundu ekkert, og réðu því af að fara niður af henni og upp á næstu hæðina.

"Það er mér óskiljanlegt hvað það er sem dregur hann að ströndinni hérna megin," sagði Ainsley. "Eg þykist vera viss um að geta gengið að honum þar sem hann er vanur að vera, og eg vona að þeir hafi ekki hitt þann stað enn þá."

Þeir héldu áfram stinningshart og komu loks að klettunum, sem kaupmaður hafði minst á. Hann hafði sagt þeim að kofar hinna innfæddu væru á sunnanverðri eynni.

"Hér hlýtur að vera tómlegt," sagði Dorset lávarður, og gat naumast í því skilið hvernig nokkur færi að haldast þarna við svo árum skifti á eynni.

"Ekki finn eg til þess," svaraði Ainsley. "Mér líður vel hér. Eg finn aldrei til leiðinda nema helzt þegar flutningsskip verzlunarfélags míns koma. En þegar öllu er á botninn hvolft, hefi eg gaman af dvölinni hér. Eg held að þið munuð naumast trúa því að faðir minn var prestur við ensku kirkjuna í Yorkshire, en eg var eitt sinn starfsmaður við banka í Huddersfield. Ef eg hefði unað mér þar, þá mundi eg að öllum líkindum vera orðinn gjaldkeri þar nú, með hundrað og fimtíu punda árslaunum. En nú er eg kaupmaður hér suður í höfum, sviftur öllu samneyti við hvíta menn ,en lifi á að verzla við svertingja, og sé aldrei aðra en þá nema þegar skipin koma."

"Og hefir yður aldrei langað heim til Englands?" spurði Dorset lávarður.

"Jú, mig langaði stöku sinnum til þess fyrst þegar eg kom hingað," svaraði Ainsley, "en nú finn eg ekkert til þess. Móðir mín dó þegar eg var í siglingum fyrir tíu árum. Tíu mánuðum síðar kvæntist faðir minn aftur. Konu hans hefi eg aldrei séð. Bræður mínir og systur eru öll gift og komin

sitt í hverja áttina, svo að nú dregur fátt mig heim. Eg ímynda mér að systkini mín hugsi til mín, eins og eg sé dauður. Eg býst við að þau kærðu sig ekkert um að sjá mig, nema því að eins að eg hefði meðferðis stórfé. Mér líður vel eins og er, en þó hafa tíðindin, sem þið sögðuð mér í morgun, raskað ró minni nokkuð. Mér þóttu það engar góðar fréttir að eini hvíti maðurinn, sem eg hefi verið langdvölum með mér á eynni, skuli vera lávarður og eg verði nú að missa hann.

Nú voru þeir komnir upp á aðra hæðina. Aftur lituðust þeir um. Þeir sáu hvorki manninn, sem þeir voru að leita að, né hina, sem á veiðar höfðu farið.

Hitinn var óþolandi inni í skóginum, því að enginn andvari bærði pálmaviðarlaufin uppi yfir þeim. Þeim Dorset og Hobbkins fanst eins og þeir vera að soðna sundur, en Ainsley virtist þola þetta vel.

Alt í einu lyfti síðarnefn dur hendinni og mælti:

"Þey, þey, mér heyrist eg heyra manna mál."

Þeir námu allir staðar og hlustuðu. Fyrst í stað heyrðu þeir ekkert nema suðuna í skordýrunum í trjánum og brimniðinn við ströndina. Aftur brá Ainsley upp hendinni, og þá heyrðu þeir allir manna mál annars vegar við lundinn, sem þeir voru staddir í.

"Það er eins og þú gangir á brauðfótum," heyrðu þeir sagt. "Hvað heldurðu að þú dettir nú oft hér

eftir Eg ímynda mér að þú hnjótir þangað til allir á eynni viti hvar við erum. Þú gerir svo mikinn hávaða, að líkast er því sem járnsmiður væri að hamra heitt járn í smiðju.

Þeir þektu glögt rödd Wilkins, og var auðheyrt, að hann fór ekki að mannvirðingum í tali sínu..

"Eg er steinuppgefinn, mér er ómögulegt að komast lengra," sagði Richard.

"Jæja, farðu þá aftur niður að búðinni," öskraði Wilkins. "Það er mikið til þess að vita, að eg skuli hafa lagt af stað hingað með öðrum eins aumingja og þú ert, sem kemst ekki lengd þína án þess að hnjóta um b— skrokkinn á sjálfum þér."

Richard svaraði þessu mjög auðmjúklega, og kvaðst fús til að snúa aftur og vonaðist eftir að félagi hans gerði það líka og þeir frestuðu þessu sem þeir ætluðu að gera þá um daginn þangað til síðar.

"Þú getur gert það, ef þér sýnsit, lyddan þín," svaraði hann. "Eg vissi að þú varst bæði huglaus og dáðlaus. Farðu aftur út í skonnortuna og biddu fyrir þér. En af mér er það að segja, að eg ætla að finna þenna bjálfa, sem þú kallar frænda þinn. Eg ætla að vinna fyrir kaupi mínu. Og þú skalt fá að borga það. Mundu það!"

Þeir gátu ekki heyrt hverju Richard svaraði. En auðheyrt var að hann hafði ekki snúið aftur, því að þeir heyrðu að Wilkins herti hvað eftir annað á honum að reyna að komast úr sporunum.

"Þeir ætla að fara lengri leiðina og fara bug-

inn," sagði Ainsley þegar ekki heyrðist lengur til þeirra. "Ef Reggie er hérna megin á eynni eins og mig grunar, þá finnum við hann á undan þeim. Ef það tekst ekki, þá vitið þið hversu fara mun."

"Eg væri fús til að skjóta Wilkins," sagði Dorset lávarður reiðulega.

"Það má vera að þér eigið kost á því," svaraði kaupmaðurinn, "en nú skulum við hraða okkur því að við megum engan tíma missa."

Þeir héldu enn áfram, en fóru nú í aðra átt en þeir höfðu áður haldið. Skógurinn var jafnþéttur eins og áður, og hitinn engu minni. Þegar þeir höfðu gengið nærri fjórðung stundar, gaf Ainsley félögum sínum merki að nema staðar og litast um. Þeir sáu þá að þeir voru komnir í rjóður eitt og náði það fram á brún á háum kletti. Á þeirri klettsbrún sat maður og sneri bakinu að þeim, en fyrir neðan hann var fimtugur hamarinn. Maðurinn var í dökkum buxum og hvítri skyrtu, og með barðastóran hatt á höfði. Hann mændi út á hafið og virtist ekki vita af því að hann væri staddur á hættulegum stað.

"Látið ekkert á ykkur bera, en látið mig einan um hann," sagði kaupmaðurinn. "Við verðum að koma honum burtu þarna áður en hinir koma."

Að svo mæltu gekk hann nokkur skref fram eftir rjóðrinu og talaði eitthvað í lágum hljóðum til mannsins, sem á hamarsbrúninni sat, en hann sneri sér jafnskjótt við og þá gat Dorset lávarður séð

framan í hann. Jú, það var Reggie. Nú sá hann það tvímælalaust. En hvað hann vr orð'nn breyttur! Það var eins og hann hefði elzt um tuttugu ár og hann var orðinn gráhærður í vöngunum. Þegar Dorset lávarður sá, að hann var úr allri hættu, og að hann mundi ekki falla fram af hamrinum, hljóp hann til hans og heilsaði honum.

"Reggie! góði vinur minn! Ert þetta þú? Guði sé lof að við höfum loksins fund:ð þig. Við höfum leitað þín hálfan hnöttinn kring, og nú eru þær Dorothy frænka þín og móðir hennar úti á skipi skamt héðan og bíða þín."

En Reggie starði á hann undrunaraugum.

"Eg þekki þ'g ekki," svaraði hann. "Eg man aldrei eftir að hafa séð þig fyrri."

"En þú hlýtur að þekkja mig. Eg er Dorset—Dorset vinur þinn. Líttu á mig. Reyndu að þekkja mig."

En það gat Reggie ekki.

"Dorset," endurtók hann. "Því nafni get eg ekki komið fyrir mig. Eg man ekki eftir að hafa heyrt það."

"Við höfum engan tíma t'l að þrefa um það nú," sagði Mr. Ains'ey. "Við verðum að komast burt með hann eins fljótt og við getum til búðarinnar. Eitt er víst, að þeir hinir missa af veiðinni."

"Eg hefði gaman að vita hvað þeir hefðu gert, ef við hefðum ekkert hlutast til," sagði Mr. Hobb-kins.

"Richards vegna hefði eg gaman af að vita það," sagði Dorset lávarður.

"Ef ykkur er ant um það, þá getum við gert tilraun til þess," sagði kaupmaðurinn. "Hjálpið mér nú til. Nú skulum við leika á þá meira en nokkru sinni hefir verið leikið á þá áður."

Síðan fór hann með þeim inn í runnana.

"Svona nú, drengur minn," sagði hann við Reggie, "smeygðu þér nú úr fötunum. Eg þarf að brúka þau."

"Til hvers?" spurði hinn.

"Kærðu þig ekki um það, en farðu úr þeim."

Meðan Reggie var að klæða sig úr , höfðu þeir slitið upp æði mikið af grasi Ainsley og Hobbkins. Með því tróðu þeir út buxurnar og skyrtuna, svo að því var líkast að maður væri í þeim. Þenna grasstrák settu þeir niður þar sem Reggie hafði setið, á hamarsbrúnina, og barðastóra hattinn á hevviskina, sem höfð var í höfuðsstað og huldi hatturinn hana alveg En þegar það var búið var ekkert nema að bíða, og þess þurftu þeir í hálfa klukkustund. Þann tíma notaði Dorset lávarður til að hyggja að vini sínum. Hann átti bágt með að trúa því, að maðurinn sem hjá honum sat, gæti verið Reggie. Ekki gat Reggie heldur komið Dorset fyrir sig. Hann var alveg búinn að gleyma fortíðinni.

"Þey," hvískraði Hobbkins, "eg heyri fótatak."

Þeir lögðu við hlustirnar, en gátu ekkert heyrt. En svo spratt Ainsley alt í einu upp, og um leið

heyrðist dunur af byssuskoti hinum megin við rjóðrið, og um leið steyptist grasstrákurinn fram af hamrinum. Rétt á eftir kom Wilkins með riffilinn í hendinni fram úr skóginum.

"Sjáðu nú heigullinn þinn,' 'hrópaði hann um öxl. "Nú er eg búinn að losa þig úr þessum vanda. Komdu strax fram úr skóginum, annars sendi eg kúlu gegnum hausinn á þér."

Þá kom Richard fram í rjóðrið náfölur og skjálfandi.

"Guð hjálpi mér," veinaði hann. "Eg grátbað þig um að skjóta ekki. Hvað á eg að gera? Hvað eigum við að gèra?"

"Fara aftur út á skonnortuna eins fljótt og okkur er mögulegt. Við verðum að vera komnir héðan áður en kaupmann grunar nokkuð."

"Heldurðu að hann sé dauður?" spurði Richard skjálfandi.

"Það geturðu reitt þig á; eg gat ekki skotið skakt á jafn stuttu færi. Komdu nú."

Að svo mæltu sneri hann af stað sömu leið og hann kom og Richard á eftir honum.

"Hvernig lízt ykkur á þetta " spurði Ainsley. "Eg mundi skjóta þenna herra fyrir lítið fé." Síðan sneri hann sér að Reggie og mælti: "Þú mátt vera forsjóninni þakklátur fyrir að við komum nógu snemma til að bjarga þér. Nú verð eg að fara ofan í fjöru og sækja fötin þín. Að því búnu leggjum við af stað yfir að víkinni. Það væri nógu gamn

að gera þessum virðulegu herrum ofurlítinn grikk aftur, ef ykkur sýnist svo."

Síðan fór hann leið sem honum var kunnug ofan í fjöru, og kom aftur innan stundar með grasstrákinn og sýndi þeim kúlugat í gegnum hann milli herðanna.

Það væri óhugsandi fyrir mig að lýsa þeim fögnuði sem varð á lystisnekkjunni þegar komið var með Reggie þangað. Hvorug þeirra Mrs. Maddison eða Mrs. Hobbkins gátu tára bundist, en Reggie sjálfur virtist öldungis ósnortinn af þessum fögnuði. Honum gat ekki skilist hvers vegna þetta fólk fagnaði honum svona, eða hvers vegna því var svona ant um hann.

Kvenfólkinu hafði enn ekki verið sagt frá lífshættunni, sem Reggie hafði lent í. Dorset lávarður kunni ekki við að hafa orð á slíkum illverknaði frænda Reggies í viðurvist kvenfólksins, en Richard var samt ekki látinn sleppa.

Þegar kveld var komið fóru þeir Dorset lávarður, Mr. Hobbkins og kaupmaðurinn á báti yfir að skonnortunni. Þeir fóru þegar upp á þilfar og síðan til káetu. Þar hittu þeir Richard sitjandi við borð og studdi hann hönd undir kinn mjög aumkvunarlegur útlits. Wilkins sat þar skamt frá. Þegar hann sá kaupmanninn spratt hann upp reiðulegur.

"Eg er kominn til að finna þig," sagði kaupmaður, "eg ætlaði að spyrja þig um félaga minn."

"Hvað skyldi eg vita um hann " svaraði Wilkins.

"Það ætti þér að vera kunnugast um," svaraði kaupmaður. "En kannske þú viljir segja okkur á hvað þú varst að skjóta á hamarsbrúninni?"

Wilkins neitaði því harðlega, að hafa skotið þar nokkru skoti, og eins að hafa komið þangað.

Richard stóð á öndinni og virtist liggja við yfirliði.

"Yður virð'st vera óglatt, Mr. Sandridge," sagði Hobbkins og nefndi hann hans rétta nafni.

En Richard var svo hræddur, að hann tók ekkert eftir því.

"Svona, svona, eg held að það sé ekki gustuk að hrella ykkur meir, ræflana," sagði Bandaríkjamaðurinn. "Það litur út fyrir að þið þolið ekki meira í bráðina.

Síðan gaf hann einhverjum merki, sem á bak við hann stóð, og rétt á eft'r kom Dorset lávarður inn í káetuna og Reggie með honum.

Nú er litlu að bæta við frásögn þessa. Richard er nú í Suður Ameriku, að eg held, og býst ekki við að hann komi nokkurn tíma aftur til Englands. Reggie og Dorothy eru hamingjusömustu manneskjur, sem sólin skín á. Þau eru nú g'ft og virt og elskuð af öllum sem til þekkja. Aldrei hefir Reggie getað skýrt frá því sem skeði þá hörmunganótt, er Stella varpaði sér fyrir borð. Ekki veit

hann heldur neitt um það hver sá maður var, sem nærri því hafði hepnast að ráða hann af dögum. Að endingu vil eg geta þess, að Dorset lávarður var skírnarvottur, þegar elzti sonur þeirra Reggies og Dorothy var skírður, og þykir Dorset svo vænt um þann dreng eins og hann ætti hann sjálfur.

ENDIR.

Arnljotur B. Olson

---

